Nockrar

# KROSS-SKOLA

# Reglur,

Hvernenn Guds Børn i sijnum Mootlætingum eige sig ad hugga, og sier ad hegda;

Jnriettadar og samann teknar epter þeim ædur þryktu

Kross-Skoola Psalmum,

Af Sr.

## Stephane Halldors

Syne,

Sooknar Preste ad Myrkaa.

Seliast Innbundnar 14. Fiskum.

Pryktar a Hoolum i Hialltadal,
Af Petre Joons Syne, 1775.





# Til Lesarans.

VErkanir og Hræringar, sem oss eru hvad nattúrlegastar, læta giarnann sem minnst æ sier bera, og til þeirra Tilhneiginga, sem vors Liikama Næturu-Fari eru hvad hellst samkynia, finnum vier opt nærsta liitid; Liifs-Andarnir, og Bloodsins Edlislegur Umgængur i Liikamanum, hverju vigtugar Verkanir þessir Hlutir añars hafa, verda þo siidur adgiættir af morgum, enn hid Utvortis og Ovenjulega, kannskie þess vegna Menn eru hinu so vanir; Og Sialfs-Elskunnar Umbrot i Limaña Logmæli eru hiæ sumum so Ovidkvæm og giora so litla Tilfiñing, ad vier verdum varla edur ecki varir vid, hverju þau, i Stadinn annara Ordsaka, er vier smiidum oss, eru Raunar Drift til vorra Fyrirtekta. Hverju sæer munu þess vegna einhliitir ad þeckia sitt Utvortis og Iñvortis Tilstand sem vera ber, þar Sialfs-Elskann er von ad fegra Lestena, þad einasta Tilefni Ogiæfunnar, og Luckunnar Medhalld syniist gylla þad fyrir einum, sem þad niidir edur Ofegrar hiæ odrum? Og mun þetta ei nog Ordsok til Vanþeckingar æ siinum Hogum, hiæ ollum þeim, sem ei hafa uppliist Hugskots Augu til ad ransaka þau innstu Fylsninætturlegrar Spillingar? Ad viisu kunnum vier, þa brukum nockurn Eptir-Þanka, verda þess

var-

varir, ad oſs mætir adſkiliannlegt Motlæti, ſumt ſem vier bokum oſs, ſumt ſem mannleg Framſyni kann ei ad hindra, vorir Kraptar ei faa af ſier hrundid, og vorar Dygdir (ef ſo heita mætti mannlegur Oſullkomleiki) kunna ei aa Freſt ſkiota; Enn ef vier gaungum inn i Guds Helgidom og rannſokum hanns hid algiørda Logmaal, ſiaaum vier, hverſu eitt Motlætinganna Vatns-Flood foſſar hier fram, annad þar fram, hverſu allt þad, undir Soluni er, er Hiegomi og Mæda, hverſu Madurinn hlijtur alla Tijma i Strijdi vera aa Jordunni, og hanns Dagar eru lijka ſem eins Daglaunara, jaa, hverſu þu DRottinn DRottnanna, ſetur vorar Misgiørdir fram fyrir þig, vorar Ovitannlegar Syndir i Lioos fyrir þijnu Augliti, ſo þar fyrir burt-lijda allir vorir Daaar fyrir þinni Reidi, og vier framleidum vora Ara-Tolu ſem eitt Æfinn-Tijr. Tilfinningarleyſi tilkinnir, ad Saared ſie daudt, og fylgir ſtundum þvi Soottarfari, er næſt geingur Lifi voru, edur ſviptir oſs þvi: Enn ſie nockur i andlegum Efnum ſo tilfinningar-laus, ad hann ætli ſig aan alls Mootlætis, þeſs hygg eg Soottar-Far hid banvænaſta; Þvi audraadid er, ad þar er ecki ein Stund Æfi vorrar i þeſſum Utlendingsſkap, ſem ei ſie margfolldu Mootlæti undirorpinn, nu Utvortis, nu Innvortis, og ad þar er og aa ad vera ſtifelldur Bardagi vid vora andleau Ovini, ſo leingi vier eptirfylgium HErrans Chriſti Strijds-Merkium: Enn þeſſar Mootlæt-

 ing-

ingar sigrum vier, þennann Bardaga heyium vier med fullkomnum Sigri, ef vier eptirfylgium þeim Reglum, oss i Guds H. Orde eru fyrirskrifadar. Og þar so ágiætt og Omissande Efni ollum vidkomande, er yfirvinna vil a fyrer Lambsins Blod sierhveriar Motlætingar, iñbundast i þessum Bækling, þa hef eg hann til almennilegra Nota latid Þrycka, og fyrirmæli sem flestir giori sier hann ei einasta kunnugann, helldur lati hanns Jñtak, fyrir gudlegt Fulltinge, verda sier Ann Lifsins til Lijfsins og Krapt til eilifrar Sæluhialpar, hvar til Gud giefe sina Naad i JEsu Nafne!

Hoolum i H. D.
Dag 26. Febr.
1775.

G. M. S.



# Bæn i Krosse og Motgange.

Ur Iohans Arndts Paradijsar Alldin-Garde)

(Almættuge, sterke, Hialpar-rijki Gud og Fader, vort einasta Traust og Athvarf! Þu veitst og sier ad vier erum stad-

der

der i stórre Neyd og Háskasemd, og ecki um ecke Rád, Hialp nie Huggun, ofs til Frelsunar wr þessum Raunum. Vier vitum ecke hvad vier skulum til giora, en vor Augu horfa til þijn; Þitt Nafn er DRottenn allsheriar, mikell ad Ráde, og mættugur ad Giorninge, þijn Hønd hefur Himenenn wtbreidt, og þijnar Hendur hafa tilbwed Þurlended. DRottenn! DRottenn! Bilgiurnar eru stoorar og grenia ogurlega, enn þu DRottenn! ert stærre i Hædunum. Æ Gud! þu ert vort einka Traust, og vor Styrkur i þeim stooru Mann-Raunum sem vier høfum iratad. Þu hefur sagt: Þo Verolldenn forgange, og Fiøllenn sócke nidur i Hafed midt, og þo Stoorenn æde og olge, og Fiøllenn af hanns Brym-Orum nidur hrinie, samt skal Guds Stadur mlog yndes-legur blijfa, med sijnum Uppsprettu Brunnum, hvar ed eru heilager Bwstader hins hæsta; Gud er hiá þeim þar inne, og hialpar þeim árla, þar fyrir munu þeir stadfaster blijfa; Æ DRottenn! vort Hiarta setur þier þijn Ord fyrir: Þier skulud

mijns

mijns Andlites leita; Þar fyrir leitum vier, DRottenn, þijns Andlites; Byrg ecke þitt Auglit fyrir oß! burtskwfa ecke þijnum Børnum i Reide, þvi ad þu ert vor Hiaalp! Yfirgief oß ecke, og tak ecke þijna Hønd fraa oß, Gud, vort Hiaalpræde, þvi øll Hiaalp hefur yfirgiefed oß, helldur tak oß ad þier aptur, DRottenn! Vier vonum ad vier munum sia Goodsemd DRottens aa Lande lifande Manna, þar fyrir villium vier vera hughrauster; og O-efader og bijda DRottens; Nu, vor Gud, munt heyra oß, þu hefur sagt: Hiaa DRottne er Hiaalpenn, og þijn Blessan er yfir þijnu Foolke, Sela! Laat oß þvi, elskulegi, Gud og Fader! finna Hiaalp hiaa þier! þu hefur sagt: Þegar Aumingenn kallade, þaa heyrde DRottenn þad, og hiaalpade hønum wt af allre hanns Angist; Laat þijna Engla setia Skialld-Borg i kryngum oß, sem þig ottunst og vid hiaalpa oß. Vert oß nædugur! Gud vert oß nædugur! þvi aa þig treista vorar Saaler, under Skugga þinna Vængia høfum vier Athvarf, þar til Ogiæfann er hiaa farenn; Vier

koll-

kollum til hins allra hædsta Guds, til Guds sem Enda giorer a votum Eymdum: Gud kom af Himnum ofan og hialpa oss! Gud! wtsend þijna Naad og Trwfeste! Æ! Gud! þu munt ecke eilijflega reidur vera, helldur Naad sijna, ei mun olldunges um̄ þijna Naad wtgiort vera, og þijn Fyrirheit munu eingann Enda taka: Þu munt ecke gleymt hafa nædugur ad vera, og þijna Myskunseme fyrir Reide inne byrgt. Þijn hægre Hønd kann ollu um̄ ad breita, þijn Hønd er enn ecke stutt ordenn: Þu ert sa Gud sem Dasemdar Verkenn giorer, þu hefur audsynt þinn Matt a medal Þioodanna. Hugga oss! Gud vort Hialpræde! og lat af þiñe Reide vid oss: Villtu þa æfinnlega vid oss reidur vera, og lata þijna Reide yfir oss ganga æ og alltijd? Villtu ecke endurlifga oss aptur, so ad þitt Foolk gledie sig af þier? Drottenn! audsyn oss þijna Naad og hialpa oss! DRottenn! snw þier til vor aptur, og vert þijnum Þionum nædugr! avallt sed þu oss med þinne Naad, þa vilium vier prijsa og gladværer vera alla vora

 Lijf-

Lijfdaga. Gled oss nu aptur, epter þad þu hefur so leinge plagad oss, epter þa marga Olucku sem vier høfum þolad. Og O Drottenn vor Gud vere oss vingiarnlegur, og framkvæme hiá oss Verked vorra Handa: Æ! O Drotteñ vor Gud! Veit oss Hiálpstod i Neydenne, þvi Mañanna Hiálp er hier eingu nijt: Þu hefur sagt: Hann hefur Gyrnd til mijn, þar fyrir vil eg vid-hiálpa hønum: Hann þecker mitt Nafn, þar fyrir vil eg vernda hann, hann ákallar mig, þvi vil eg heyra hann, og vera hiá hønum i Neydenne, eg vil hønum þadann wtryckia, og hann til Æru setia, eg vil sedia hann med laungum Lijfdøgum, og sijna hønum mitt Hiálpræde: Æ O Drotteñ! vorar Misgierder hafa þetta forþienad (sem vier lijdum) enn hiálpa oss þo fyrir þijns Nafns saker! þu ert Jsraels Huggun og Hiálpare i Neydenne, þu ert vor Gud á medal vor, og vier erum nefnder epter þijnu Nafne. Yfirgief oss ecke, þá vilium vier þier Fagnadar Offur færa, og þacka þijnu Nafne, þvi þad er so huggunarsamlegt, Amen!

Fyrsti.



# I. Capituli.

Allir þeir sem gudlega vilia lifa i JEsu Christo, hliota Hormung og Offsookn ad lijda.

AD lijda og læra, er hvert ødru naaskylldt: Saa sem vill læra, hann maa bwast vid ad lijda, vissulega Aga og Umvøndun: Og saa sem skal lijda, hañ þarf ad læra ad lijda med Audsveipni og Undirgiefni. So adfilgist þetta optast i Ydkunar Skoolum Mannanna, og alltijd i Christi Skoola, hvers vegna hann leggur þetta sialfur fyrir alla þaa, sem vera vilia hañs Lærisveinar, so sem þeir hliota þad allir ad vera i andlegann Maata, sem hønum vilia tilheyra og i hønum Hl-

utdeild hafa; til þeirra segir hañ: Takid â ydr mitt Ok, og lærid af mier, Matth. 11. Og meigum vier vijst skilia hier Christi Ok fyrir hanns Kross, og Mootlæti þad sem hann leggur sijnum Børnum uppâ. Hann nefnir hier fyrst ad taka uppâ sig Okid; So sem eingiñ kuñi vera hanns Læri-Barn, nema sâ sem Okid â sig tekur, þad er, tekur viliugur mooti þvi, nær hønum þocknast þad uppâ ad leggia: Hann nefnir strax þar hiâ, ad læra, so sem eingiun kuuni Okid bera riettilega, nema sâ sem þad lærir. Ad bera Christi Ok riettilega, lijda siñ Guds Barn og Christi Lærisveirn, er ecki so audvelld Iþroott, ad ei lærast þurfi, so vier lijdum ecki sem Illvirkiar, edur þeir sem brioota Okid af sier. Þeir heidnu Vijsenda-Menn hafa ad sønnu sijnar Reglur uñ Mootgangsins Lijdingu, so sem er þessi ein hin hellsta: Hvad sem verdur ad vera, viliugur skal hver bera. Og kann þetta og þvilijkt, sem dragast kann af einsømlu Natturunnar Lioosi, ad vijsu vera gagnlegt, enn eingannveg anægilegt. Ad haga sier undir Christi

Oki.

Oki riettilega kiennir einginn so vel sem Christur sialfur, og einginn anægilega nema hann, med sijnu Orde og Eptirdæmi. Forum þa, mijn Saal, og giefum ockur i Christi Skoola, til ad læra þessa Lectiu, edur so mikid af henni, sem audid verdur med Guds Hialp, so vid gietum til þessa tekid, nær aliggur, þad er, hvenær sem HErranum þocknast kan̄ ad leggia a ockur sitt Mootlætis Ok. Þessi Meistarinn, JEsus, mun reinast ockur bædi trwfastur og miwklyndur Lærimeistari, ef vid latum ecki ofmiog hiaa ockur vanta Audsveipnina og Eptirtektina.

Og er þa þad fyrsta, sem vita þurfum i þessu Efni, þad sem Christi Þienari Paall kiennir i han̄s Um̄bodi, 2. Tim. 3. Aller þeir sem gudlega vilia lifa i Christo JEsu, þeir hlioota Offsookn ad lijda. So hafa þa Guds Børn i þessum Heimi ecki ad reida sig uppa mikla Gledi edur Medlæti, miklu helldur bwast vid Sorg og Mootlæti, þvi sa Gud, sem liet sinn Son, med sin̄i saaru Kvøl og Krossins Dauda, afreka oss Himnarijki, han̄

 hef-

hefur giort þa tilhlijdilegu Skickan, ad iñ i þad Rijki, siñ oss er afrekad mz Kross-inum, skylldum vier meiga gannga gegn-um Krossins Veg, þvi giegnum marg-ar Hørmungar byriar oss inn ad gannga i Guds Rijki, Act. 14. Þvi þo Milldi Guds byrmi nu a Døgum, framar enn a fyrri Tijmum, sinni Christni fyrir op-inberum Offooknum, sijdann hennar Plantan var wtfærd uñ Heiminn, samt hafa Guds Børn ad lijda adrar Araasir og Astrijdur margfalldra Rauna, so sem eru: Hatur, Forakt, Trygdaleysi og A-mæli af Heiminum, þar ad auki Fatækt, Heilsubrestur, og annad Otal margt iñ-ra og ytra Sorg aukandi, so Sorg og Mootlæti er so sem daglegt Braud Guds Barna, þau meiga þrænsinnis taka und-ir med David: Minn Dryck samblanda eg med Harminum, Ps. 102. Ad vij-su giefur Gud optlega sijnum Elskend-um adskilianlega stundlega Vellijdan, enn þo optastþar hiaa eitthvert Mootlæ-ti, añadhvert ytra edur iñra, einum mei-ra, ødrum minna, enn øllum nockud; Eirn Tijmiñ giefst þeim gledilegur, añ-

ar

ar sorglegt, og þo vier siaum eckert Mot-
læti a einum edur ødrum, kann hiñ sa-
mi samt ad hafa eitthvad þad eptir ad be-
ra med sialfum sier, sem ad Hiartanu
þreyngir, þo adrir ecki viti, so þar vid
stendur, ad allir sem i Himnariiki inn-
ganga, meiga, ad minnsta Kosti eirnhv-
ern Tijma, hallda siñ Veg gegnum Hør-
mungar. Guds Ord segir þad so þrælega,
og þvi hlijtur þad ad skie, so Ritninginn
uppfyllist. Motlætid fylgir Guds Bør-
num siñ Skugginn Lijkamanum; Og so
Omøgulegt siñ þier er, ad uñflya þiñ eig-
inn Skugga, eins Omøgulegt er þier ad
uñflija Mootlætid, þa Gudi þocknast
ad leggia þad uppa þig. Pad ma segia
uñ Guds Børn, sem Raphael Engill
sagdi vid Tobiam: Fyrst ad þu varst
Gudi kiær, þa hlaut þad so ad skie, ad fyr-
ir utann Freistni mattir þu ecki vera; so
ad þu værir reindur, Tob. 12. Nu sy-
nist þetta Holldi og Bloodi undarlegt, ad
sa Gud, sem er alleina goodur, Matth.
19. og Fadir Myskunsemdanna, 2. Cor.
1. skuli so hardt sla siin Børn, og særa sij-
na Elskendur, siñ þo ecki kasta hañs Bod-

 ord-

ordum fraa sier, helldur vakta sig fyrir Syndinni, Ps. 18. Hier umm gietur Holld og Blood varla dæmt ødruvijsi enn rangglega, þvi þad skyniar ecki hvad Guds Anda tilheyrir, 1. Cor. 2. Enn Guds Ord og Andi frædir oss vel umm þad, ad sa eilijfi Viisdomur giørir þetta ecki fyrir utann heilagar og goodar Ordsakir, og eru þær hellstu þessar:

Fyrst segir Paall Postuli: Ad Gud hafi tilskickad (sijna Elskendur) þad þeir skyldu verda samlijkir hanns Sonar Jmynd, Rom. 8. Enn med þvi þeir skulu verda lijkir hanns Dijrdar Jmynd aa Himnum, hliota þeir fyrst ad verda lijkir hanns Sorgar Mynd hier aa Jørdu, einkum þar Sorginn hiaalpar mikid til þess, ad hanns Heilagleika og Meinleysis Mynd innþryckest meir og meir i þeirra Hiørtu. Vier lesum 1. Kong. 6. umm Jerusalems Musteri, þa Salomon var ad laata setia þad, hafe Steinarnir verid so aadur tilreiddir, ad þar hafi hvørki heyrst Hamar nie Eggse, edur nockur Smijda-Tool af Jaarni. Hier maa vijst finna Lijkingu andlegra Hluta: Til þess eilijfa Must-

eris at Himnum tilreydir sa himneski Salomon, JEsus, sijn Børn hier a Jørdu, ei einasta fyrir sitt Ord, so sem hann segir fyrir Hoseam Spamann: Eg hefla þa fyrir Prophetana, Hos. 6. helldr og lijka med Eggse Mootlætingaña, til ad nema af þim Hrusr og Oslietti Syndanna, so þau heutug verdi og hæf Uppbyggingu þess Musteris, sem þar uppi er, hvar ed eckert Mis-Smijdi lijdast kañ, og eckert Mootlætis Verkfæri Stad hefur, helldur ma þad adur fullgiørt vera. Þvi mattu, Guds Barn, þeinkia nær þu liggur undir Motlætinu: Nu er miñ Gud ad tilreida mig til sijns Rijkis, nu er hann ad bwa mig sier i Hendur.

J Annann Maata slær og agar Gud sijn Børn med Krossinum til þess, ad þar med dempist sa gamli Adam, þad er Syndarinnar Illska i þeirra Holldi, og ad þau veniest af Veralldarinnar Brioostum meir og meir; Þetta styrkir David: Þad er mier liuft, ad þu hefur lijtilættann mig, so eg læri þijn Riettindi, Ps. 119. Þegar Jonas hafdi syndgad a mooti Gudi, med þvi ad teliast und-

añ hañs Skipan, þa greip gudleg Typtan hann, sem leiddi hann a riettañ Veg, og til Hlijdnis vid Gud; Hvar af eg maa læra, ad mijnar Syndir, mitt syndsamlegt Oedli og Afbrot fyrir Gudi, eru Ordsøkinn til miña Mootlætinga. Alldrei typtar þu mig, minn himneski Fadir, so hardt, ad eg hafe ei meir enn noog til þess unnid, þvi vil eg med Hiartans Audsveipni kissa a þitt Hrijs, eñ eg bid, ad þu takir ei fra mier þijna Myskun, þo þu leggir a mig þijna Typtan, þvi þa veit eg, ad hun er alldrei so hørd, ad eg hafe ecki Ordsøk ad prijsa þig fyrir þad, þu typtar mig ecki hardara. O! þu alleina vijsi og goode Gud, sem akvardad hefur þiña Barna Mootlætinga Stund og Stad, styrk oss med þijnum Nadar-Krafti, ad seta i Footspor vors Frelsara JEsu, giegnum allar þessa Lijfs Piningar, ad vier uñ sijdir mættum komast til þess gledilega Lijfs, hia þinni hægri Hendi i Himainum, Amen.



## 2. Capituli.

Sann-christiñ Guds Børn eiga ad glediast vid Kross DRottins.

GJætum vid, Sala mijn, gaumgiæfi-lega umhugsad og hugfest þann mikla Abata, sem Guds Børn hafa af sijnum Krossi, þa mundi þad giøra ockur stoor-ann Hugar-liettir, þa vid mædunst und-ir ockar Byrdi: Hlustum þvi til þess, sem Postulinn segir hier um: Øll Typtan, nær hun aliggur, þykir oss eingiñ Gledi, helldur Hrygd vera, enn eptir a mun hun giefa fridsamlegañ Avøxt Riettlæti-sins, þeim sem þar uti ydkadir eru, Ebr. 12. og lærdu ad afþreya sijnar Hørm-ungar i Von og Poliñmædi. Mañleg Nattura kann ad vijsu ecki annars enn hryggiast vid Mootgañginn, enn su Hr-ygd a og þarf, ad dempast med Røkum og Krapti Nadarinnar. Berum þa samañ, good Guds Børn, Skadann og Abatann, þad er, Pijningena sem Kr-ossinn med sier færir, a medann hann aliggur, og þa Gledi, sem hann eptir sig leidir, nær hann aflijdur, sem er, eft-ir Postulans Ordum, fridsamlegur A-vøxtur Riettlætisins, þad er, Riettlæti,

Fridur og Fognudur i og hia Gudi, sem ad sonnu byriast hier i Nadinni, eñ fullkomnast i Dijrdinni, þa allt Mootlæti hefur Enda. Og hvert sem vier berum þetta samann ad Þijngd, edur Leingd og Varanlegleika, þa munum vier finna meiri Ordsok ad glediast enn hryggiast; þvi þad er hverttveggia: Ad alldrei er Pijnninginn so sär, ad Gledinnar Sætleiki, sem eftirfylgir, kunni ecki fliott ad uppvega hana, lijka er Krossins Naud alldrei so langvinn, ad eptirfylgiandi Gledi sie ecki miklu langviñari, þvi hun er eiliif. Med soddann Slag ber Postulinn þetta samañ: Vor Hrygd, segir hañ, sem stundleg og liett er, giörir oss eina eilijfa yfir allann Mata mikla Dijrd, 2. Cor. 4. Krossinn er so sem eitt Akurlendi, sem geymir Sædid um̃ Stund, so eckert er þvi ber, enn giefur þad sidann i Lioos i margfolldum Averti. Ef þu nu, Guds Barn, vokvar þennann Akur mz Tarunum og tarugum Bænum til Guds, þa attu vijsa Uppskieru Glediñar, þo su Gledi sie hulinn um̃ Stund, þvi þeir sem med Tarunum nidur sa, sku-

lu

lu uppſkiera mz Fögnudinum, Pſ. 126. hvilijkum ſem ei hefur Auga ſied, nie Eyra heyrt, edur i nockurs Manns Hiarta komid, 1. Cor. 2. Nu ef Akurmadurinn þolir Yrkingarinnar Erfidi, og bijdur eptir Uppſkierunni, i Þolinmædi og gladri Von, ad bædi Erfided og Bidlundinn um̃buniſt ſier ad fullu þa Uppſkieru Tijminn kiemur; ſkylldum vier þa ecki miklu framar afbreya vora Kroſsburdar Mædu, og Hita og Þwnga Dagſins bera, i gladri Von Uppſkierunnar a Himnum? Bregdaſt kan̄ Akurkarlinum Uppſkierann, enn þad Gledinnar Lioos, ſem David ſegir þeim Riettlæta ſie ſaad, Pſ. 97. kan̄ alldrei ad bregdaſt, ad ei upprenni a ſkiærum Dijrdarinnar Himni, þeim Riettlæta, ſem trwr var til Daudans, Opinb. 2. þvi Fyrirheitid er Oriwſannlegt af Sannleikans Munni: Fagnid þier og verid gladir, þad ſkal vel betalaſt ydur a Himnum, Matth. 5.

Þegar vier nu þetta hugleidum, fin̄um vier viſſulega meire Ordſök til Glede enn Hrygdar. Enn þad ad vier gietum ei, ſijſt i hvert ſinn, gladt oſs, ſem ſkyllde,

yfir þessu gledelega Kroßsens Utfalle, medann hañ æliggur, þvi velldur vor Veikleike og Istøduleise, sem vier meigum þo hvør ødrum vorkienna, og sameigeñlega vidkannast, ad vor Kraftur er ei af Steinum, nie vort Hollð af Kopar Job. 6. Ei ad sijdur meigum vier vita, af Guds Astvina Dæmum, ad hitt er þo til, þad Gud hefur giefed sijnum Børnum, ad glediast midt i Piæningunum, so til Piæningar lijted funded hafa: Paall og Silas swngu Gude Lof i Fangelsenu Act. 16. Og midt i Þreingingunum seiger Paall uñ sig og sijna Medbrædur: Vier erum so sem Syrgendur, þo jafnann glader, 2. Cor. 4. Og er vijst, ad þesser hafa æliteð Kroß og Hørmungar ad vera øllum Veralldar Gersemum dijrmætare, eins og Moyses, þa hñ hiellt Vanvirding Christi fyrir stærra Rijkdoom, enn Egyptalands Fiesioodu, þvi ad hann leit a Launeñ, Ebr. 11. sem Kroßseñ epter sig leider; Hvar fyrir ad Heimsins Børn hafa alldrei so mikla Ordsøk til ad fagna yfir sijnu Stundlega Medlæte, þo þad med allt slag

æ þau

m þau bladaſt kuñe, ad Guds Børn hafe ei miklu meire Ordſøk til ad fagna yfer ſijnu Mootlæte og Mannraunum.

Þar fyrer þegar þu, chriſtenn Sala, verdur leidd i Kroſſins Skoola, og þier er þar nockur Dvøl fyrer løgd, þa hugſadu heim, til þeirrar Himneſku Glede, hvar þier er Viſt ætlud, hia þijnum JEſu, epter þeſſa Lijfs ſorglega Utlegd, þar munt þu ecke minnaſt neirnra þiña Hørmunga Hryda, ſem þu hier þolder, fyrer Fagnadar ſaker, þvi þa eru øll Taar af Augunum þerrud, og eilijf Glede yfir þier uppruñenn, Ez. 35. Enn a medañ Guds Børn verda ad bijda epter þeſſum gledelegu Kroſsens Endalokum, þa hefr ſa trwfaſte DRottenn fyrirhugad þeim Lijfkrøptugt Hiaplræde, Styrk og Svølun midt i Kroſsens Piñingum. Þegar Iſraels Børn gatu ei drucked Vatned i Mara fyrir Beiſkiu, vijſade DRottenn Moyſe a eitt Trie, ſem hañ ſkyllde varpa i Vatned, og ſijdañ vard þad veldreckande, Ex. 15. Fiñeſt þier, chriſteñ Sala, þiñ Kroſs-Bikar ſo beiſkur, ad þu treiſter þier ecke hañ af ad drecka,

þa varpa i hann þvi Trie sem Guds Ord vtijsar þier, þad er þad himneska Vijn-Tried, JEsus Christur, sem fullur er af Vijne Gudlegrar Naadar og Mysktunar, af hveriu ef eirn Drope nær ad reña inn t' þinnar Saalar, mun hun blessada Hressingu faa. Þesse JEsus hefur med sinne Lijdingu helgad allar Lijdingar sinna Barna, og innlagt i þær Sætleiks Smeck af sialfsum sier; Hvørs vegna hann avarpar sijna Krossberendur med þessu-astwdlega lockande Tilbode (eins og ein Mooder lockar til sijn sitt unga Barn, ad þad fare sier ei ad Voda) seigiande: Komed til mijn aller, sem Erfide drijgid, og Þwnga erud hladner, eg vil endurnæra ydur, Matth. 11. Og med þetta vill hann vier latum oss lynda, at medañ vier verdum hier ad þreya epter vorre Utlausn, vier meigum og vel lata oss hier med lynda, þvi hverñ̃ gietur þad vered, ad siw Saal, sem Lijffins Lynd endurnærer, hafe ecke Svølun til Nægiu? Edr ad sa uppgiefest af Vanmætte, hia hverium ad er og Vistar-Veru giører (Joh. 14.) Styrkleikans Gud? Eñ hañ

hefur

hefur sagt: Eg em hiá þier i Neydenne, eg vil þier þadann utryckia, og þig vegsamlegann giøra, Psal. 91. Enn þad er vort, ad lata ecke af, ad bidia og ákalla hann, þvi Bænenn er oss alltijd, og einkum i Neydenne, omissande, hun er sá Sendebode vor til Guds, sem alldrei fer frá honum Erendeslaust, þvi seiger Christur: bidied, þá munud þier fá, so ad ydar Fognudur fullkomnest, Joh. 16. O þu blessade Fader Myskunsemdanna HErra Jesu! kienn þu i Brioost um oss i allre vorre Naud, og virdstu ad endurnæra vorar Ostyrkvu Sáler med þijnum lijsgande Sætleika, so vier i þijnum Styrkleik saum af-þreid allar vorar Hormunga Stunder, og sijdañ komest iñ i eilijfa Hvijld, Amen.

## 3. Capitule,

Uñ þau Nofn, sem Krossenn hefur i Ritninguñi.

ÞAr eru fierdeiles Þriu Nofn, sem Guds Barna Mootlæte verda giefeñ i heilagre Ritningu, af hveriumad er: Þad Fyrsta og merkilgasta, ad þad heit-

heitir KRoſs, og hefur ſialfur JEſus giefid þvi þetta Nafn, þa hann ſo talar: Hvør hann tekur ei ſinn Kroſs a ſig og fylgir mier eptir, ſa er mijn ei verdugur, Matth. 10. og hefur vor HErra kallad ſo vort Mootlæti af ſijnum Kroſsi og Kroſsins Kvøl, hvad og ſijdann vidhaldiſt hefur hia øllum Chriſti Medkiennurum. Þetta Nafn er eitt Virdingar Nafn, Huggunar Nafn, Aminningar Nafn. 1. Er þad Virdingar Nafn. Þad er ecki lijtil Virding voru Motlæti, ad heita eptir Chriſti Kroſsi, ei ad vort Mootlæti kūni a nockurn Hatt ad jafnaſt vid hūs Pijnu, helldur ad vor ſignadi Frelſari hefur helgad allt Motlæti ſinna Barna med ſinni ſaru Kvøl og Pijnu a Kroſsinum, ſo Guds Barna Kroſs er nu heidarlegur, bæde fyrir Gudi, ſem liet ſinn Son helga hann med ſinni Pijnu, og fyrir Augum allra þeirra, ſem vita ad ſetia riett Verd a JEſu Kroſs-Kvøl og Lijdingar. 2. Er þetta Huggunar-Heiti: Þvi fyrſt vor HErra hefur ſialfur Kroſsinn borid, þa mun hann Sam-Pijning hafa med ſijnum Kroſsberendum,

um, fyrst hann hefur Huggunar þarfnast undir og a sijnum Krossi, þa hefur hann þar med wtvegad oss Huggun og Hiælp hia Gude, þa vier stynium undir vorum Krossi, og so sem Gud gierdi dijrdlegann Enda a sijns Sonar Krossi og allri Kvøl, so vill hann og sælurijkañ Enda giora a Krossi og Naudum allra þeirra, sem eru Systkyn og Samarfar ordnir þessa hanns Sonar JEsu: Hann þyrmdi honum ecki fyrir Krossinum, so hann mætti og kynni þyrma oss i vorum Krossi, so sem Postulinn kiennir: Hann þyrmdi ecki sijnum eiginn Syni, helldur gaf hann wt fyrir oss alla, hverniñ skyldi hann þa ei giefa oss alla Hluti med honum, Rom. 8. 3. Er þetta Aminningar Nafn, ad vor Sorg nefnist Kross eptir Christi Krossi, og minnir oss a þad, ad bera vorn Kross med Þolinmædi, eptir Frelsarans Dæmi: Hafi hann heilagur og saklaus, þann Tijd hann mætti vel Fögnud hafa (segir Postuliñ, Ebr. 12.) lidid med Osegianlegri Þoliñmædi þær bitrustu Krossins Kvalir, og þad fyrir adra, þad er, oss, sem þa vorum hñs


Oviuir

Ovinir; mun þa ecki ſtoor Minkun fyrir
oſs Syndarana, ſem alldrei erum fyrir
honum ſaklauſir, ad møgla i Oþoliñmœ-
di undir þeim litla og lietta Kroſße, ſem
hanns Naad leggur oſs uppa til ad dem-
pa i oſs Syndarinnar Illſku, ſo vier ecki
fyrirførunſt i henni, og til ad undirbwa
oſs, ſo vier kynnum ad faa Hlut i hanns
Kroſs-Kvala Forþienuſtu, oſs til Saa-
luhiaalpar. Þar fyrir, chriſtinn Saala,
þa þu tekur til ad þreytaſt undir þijnum
Kroſßi, edur Holldid vill møgla, þa ſet
þier fyrir Augu JEſum þinn Frelſara,
berandi ſiñ Kroſs, edur aa honum hang-
gandi, og laat ſem hann þa til þijn tali,
ſem til Peturs fordum: Fylg þu mier ep-
tir, Joh. 21. Heyrum hvad Job giordi;
J þvi fyrſta Eymdaña Ahlaupi, þa hañ
miſti Børn ſijn og Aleigu, ſagdi hann:
Gud gaf og Gud aftook, ſie hañs Nafn
lofad, Job. 1. J þvi ødru, þa hañ miſti
Heilſuna, og leid Skapraun af Konu
ſinni, ſvaradi hann: Fyrſt vier høfum
medtekid þad Gooda af Gudi, hvar fyr-
ir ſkulum vier þa og ecki eirninn medtaka
hid Vonda? Job. 2. Þvilijkt bijdur oſs

Jacob Postuli ad taka til Hugleidingar, segiandi: Polinmœdi Jobs hafid hier heyrt, Ending DRottins hafid hier sied, Jac. 5.

Annad Nafn Guds Barna Mootlætis er Angist: so nefnir David optlega siñ Mootgang, sem er ein hvilijk Preinging, er inntekur Hiartad, so sem Postuliñ giefur hvi og so Preingingar Nafn, 2. Cor. 6. Hvi so geingur had tijdum fyrir Guds Børnum an Mootlætisins Tijma, ad i hveria Att sem han Augunum reña, siai hau ecki nema Mœdu og Sorga Efni, a alla Vega hier i Heimi sig umkringiandi, so allur Utgangur er heim huliñ. Eñ hvad skal ha til Rœds taka? Had vissulega, christinn Sal, ad hroopa af Hiarta til hanns, sem er alls Hialprœdis Gud, og hefur alltijd noga Vegi sijnum Børnum til Biargar, ho hau eingañ siai; Hvi hañ væri ei Gud, ef hann hefdi ecki marga Vegi, sem vier siaum ecki: Og Vier værum meir enn Manneskiur, ef vier sæum alla Guds Vegi; Hvi segir Spamaduriñ: Hyki heim soddañ vera Omogulegt fyrir Aug-

um þessa eptirblifna Folks i þessari Tijd, skylldi þad þar fyrir vera Omegulegt fyrir mijnum Augum? Segir DRottiñ Zebaoth. Zach. 8.

J þridia Lagi nefnist Mootlæti Guds Barna Freisting. Vilierdu Guds Pioonustu-Madur vera, þa bw þig vid Freistni, segir Syrach. Cap. 2. Sæ Bruninn hendir ydur, so þier verdid freistadir edur reindir, segir Petur, 1. Pist. 4. So þegar Gud leggur einum Mootlæti uppa, heitir þad ad hann freisti hanns, þvi þar med vill hann reina hvad Trwar-traustir og þoliñmodir vier erum; Ecki ad hann sialfur viti þad eigi fullvel fyrirfram, helldur reinir hann oss til þess, ad vier skulum vita þad, þvi vier opt og tijdum þeckium ecki sialfa oss, einkum þa vel geingur, þa meinum vier oss nogu hrausta; Enn þad vill stundum annad reinast, þegar æ skal herda, og Neydinn þreingir ad fyrir Alvøru, þa er vor Trw so sem brakadur Reyr, vor Von sem rikandi Hør, vor Poliñmædi sem Gras i Visnun, og mundi þetta bradt ad eingvu verda i Sol-Bruna Mootlætingaña,

anna, nema JEsu nockvœm Giœdska nœrdi þad og hann lieti sinn Krapt full-komnast i vorum Vanmœtti, 2. Cor. 12.

Gleymdu ecki, Christin Sala, þessum Krossins Nøfnum, helldur þeinktu giarnann med sialfum þier i þijnu Motlœti: Þetta er sa Kross, sem minn himneskur Fadir hefur mier uppœlagt, so eg beri hann eptir mijnum Frelsara, og lijkist so hanns Jmind. Þetta er sw Angist og Þreinging, i hverri eg þarf Lids ad leita hia Gudi, sem er Hialpari mijns Andlitis, Ps. 42. Þetta er sw Freisting, i hverri eg a ad reynast og æfast. Hier af er audsied ad Kross og Motlœtingar hafa verid fra Alld-Ødli sameiginnleg Kiør Guds Barna i Heimi þessum: Þvi segir Petur: Eigi skulud þier lœta þann Brunann undra ydur, so sem hendti ydur nockud fahæyrt, 1. Pet. 4. Þetta er sa Kaleikur, sem sa himneski Fadirinn setur fyrir sijn Børn, med þeirri Beyskiu Tempran og Vartar-Mœlingu, sem hanns Milldi þocknast ad utskamta hverium einum. Æ! Gud giœfi, ad vid giœtum, Sala mijn, tekid

þessari Adryckiu vidlijkt og ockar Frelsari, þa hann sagdi: Skal eg ecki drecka þann Kaleik, sem mier gaf minn Fadir, Joh. 18. Þu HErra JEsu, vyrdstu fyrir þijna Kross-Kvøl, ad styrkia oss i vorum Krossburdi, og giøra hañ oss bærilegann, vardveit oss fra øllum Illvirkia Krossi og Guds Reidi-Straffe, hægdu vorum Hiørtum i vorri Angist, og lat oss i allri Freistni finna þig trwfastann Hialpara, sem eingann lætur freystast yfir Megn, helldur giefur allri Freistni þann Enda, ad vier faum stadist, og nad so eilijfri Hvijld a Himnum, Amen.

# 4. Capitule.

Krossenn skiedur ecke af Hendingu neirnre, helldur kiemur hann af Vilia og Rade lifanda Guds.

ÞVi mun eingenn neita, ad marger baka sier sialfer sianlega Bøl og Ohamingiu, med vijsvitande Syndum og Athugaleyse, so sem Siwkdooma, med Ofneitslu, Fatækt med Lete og Odygd, riettviijsa Laga Stroffun med Klækium og Oradvendne, og hvad annad þess

hatt-

hanttar vera kann; Soddann forþienar eige Kroſsens Nafn, nema þad heite Illvyrkia Kroſs, jafnvel þo þad ſinwaſt meige i heilſuſamann Kroſs, þa Madur lætur þetta Bøl og Naud, ſem hann vijsvitande ſoleides yfir ſig egnde, verda ſier Uppvakningu til Ydrunar og Lijfernes-Betrunar. Eñ tak þier, chriſteñ Madur, goodañ Vara fyrir tøldum Siałfſkapar Vijtum: Fordaſtu alla vonda Breitne; Blijf i þeirre Kallan, hvar til þu ert af Gude kalladur 1.Cor.7. Stundadu Spar-lijfed, ſem Guds Ord margſinnes amalgar. Vered hoofſamer og ſparneitner, ſeiger Petur, 1. Piſt. 4. ſo hvønær ſem Mootlæted uppa þig kiemur, ad þad ſie ecke þijn vijſvitande ſiałfſkøpud Vijte, helldur af Gude ſendt. Hañs er, Kroſsenn uppa ad leggia; Pitt, vid hønum ad taka, enn ecke ad ſmijda þier hann, ſo þu þvi trauſtara kunner ad eigna þier Fyrirheitenn, ſem Kroſsberendum eru giefeñ, og i þeim ſømu gieter hvijlt þitt Hiarta.

Enn ſørum ad ſia epter, hvør hann ſie, ſem ſender og ſkickar þann eigeñlega

adkomande Kross: Spamadurenn seig-
er oss þad liooslega, talande under Per-
sonu DRottens: Eg sem giøre Lioosed
og skicka Myrkurenn, eg sem Fridenn gief
og skicka hid Vonda, eg em DRottenn sem
allt þetta giører, Es. 45. Nockrer þenk-
ia i sinne Ovolenmæde, þar þeir liggia
under Neydenne, ad Gud hafe sleppt Umm-
hyggiunne fyrer þeim, og hirde eckert umm
þa, eigna so sitt Mootlæte toomre Til-
vilian, eins og hinn allsvalldande Gud
sleppe nockurn Tijma sinne Hende af
sijnum Skiepnum edur sie afskiptalaus.
Adrer kienna þar umm Heimenum, sem
þa hate og offæke, fyrer þad þeir sam-
myndest honum eige i vondum Verkum;
Enn þo þessu sie ei ad neita med øllu, þa er-
ennur Ordsokenn ædre og fremre, sem er
Gud sialfur, er brwkar Natturunnar
Hlute, og jafnvel vonda Menn fyrir
Hyrtingar Svipur a sijn Børn, þvi hann
eirn hefur alla Hlute, smærre og stærre,
kvika og dauda i sinne Hende, og so sem
hann sier fyrir øllum sijnum Handa-
Verkum, daudum og lifande, so hefur
hann þo sier i lage Hond og Auga a

Hlut-

Hlutskipte sinna Barna. Um̃ þau stendur skrifad: Ad þeirra Tñar sieu reiknud, Ps.56. Þeirra Høfud Hñar taliñ Matth. 10. Þeirra Dagar nidurskrifader. Psalm. 139. Og aller þeirra Tijmar stande i DRottens Hende Psal. 31. ad øllu þessu hefur Gud vissa Tølu eins og eirn Hyrder a sinne Hiørd. Og er þad ei einasta Meiningenn, ad sa himneske Faderen telie þetta hia sijnum Børnum, jafnoodum og þad framkiemur, helldur er þetta allt fyrir fram̃ nidurreiknad af Gude. Mijner Dagar, seiger David, voru i þijna Book skrifader, þeir ed enn vera skylldu, og þeirra hinna sømu var þar þa eingenn Ps. 139. Ei ad Gud einasta siae þetta fyrir, eins og hann med sinne Alvitsku fyrir sier alla Hlute, bæde þa sem verda, og þa sem ecke verda, enn kyñu þo og mundu verda med þeim og þeim Krijngumstædum, ecke eins og vier Mennerner kynnum eitt hvad fyrir ad sia, an þess ad verka þar til nockud, helldur niðurskamtar Gud og til setur fyrir fram̃ allt Hlutskipte sinna Barna, og hefur þar yfir sijna styrkvu Hond, so

eingenn Diøfull, eingenn Ovin, eingeñ Hlutur i øllu Nattturuñar Rijke kann nockurt Mein edur Angur ad auka hañs Børnum, utann hann leife þad; Og hñ leifer þad alldrei, so hann hafe ei nockvæma Stiorn þar yfir. Þar fyrir, þo Skiepnurnar sieu þier mootfallnar, minn Vin, þa kieñ þeim ecke uñ þad; Þær giøra ecke añad enn hlijda Skaparanum. Þo vonder Meñ ætreite þig, mattu þeinkia ad þeir sieu Guds Hirtingar Svipa, eins og DRottenn talar uñ Assur: Ad hañ sie Vøndur siñar Reide og Stafur sinnar Bræde, Es. 10. Þo Satan æstrijde þig, þa giører hañ eckert, nie gietur giørt, añad enn þad sem Gud lofar hønum ad giøra. Sialfum oss meigum vier uñ allt þetta kieña, hiæ oss er Søkenn, og lætum vera, sem þad sie ecke vijsvitande Þvermoodska, edur sierdeilesleger Stor-Glæper; AE! þar eru samt hiæ oss nooger Brester, noogar Yfirsiooner og Afbrot, noog Syndar Oedle i voru daudlegu Hollde, til ad baka oss Gudlegar Hyrtingar, so hier uñ mæ vel tala med Jeremiæ Ordum, i hañs

Harma-

Harma-Grat yfir Israels Anaudum: Hvør dyrfest ad seigia, þad slijkt mune skie an DRottens Skipunar? Og þad hverke illt nie gott kome af Muñe hins allra hærsta. Þvi mögla þa Meñern er so i Lijfenu? Hvør eirn mögle i mote sinne Synd, Harm. 3. Þvi er þad stor Heimska, ad reidast Skiepnunum, þo þær sieu oss mootfallnar, blota þeim og formæla, sem margur gálaus giører. Er þad heyrelegt, ad Barned formæle Vendenum, med hverium Fadereñ hirter þad? Munde þad ei augliost Þverlyndes Merke? Hvørsu illa situr þad þa ä Syndaranum, ad reidast og formæla Guds Skiepnum, sem hann hefur oss til Þarfa skapad, þo hañ stundum bruki þær til ad hyrta oss med þeim, og þad under eins oss til Betrunar og Lagfæringar. Þvi skyllde hvør eirn seigia med sialfum sier i sijnu Mootlæte, sem Micheas Spa-Madur: Eg vil lijta til DRottens, og bijda epter Gude mijns Hialpræðes, Mich. 7. So giørde Joseph: Hann var Haturlega selldur af sijnum Brædrum Mansale i Egyptaland; Þo snijr hann

fijnum Augum til Guds i þvi Efne, og seiger til þeirra: Hugsed ei ad eg sie þar fyrer reidur, ad þier seldud mig hingad, þvi ydur til Lijfs-Biargar hefur Gud sendt mig hingad fyrir ydur, Gen. 45. Þegar Jobs Eigner voru af vondum Mønnum ræntar, og sumpart af voveiflegu Tilfelle tortijndar, og ad vijsu af Satans Tilstille, þa sagde hann ecke: Vonder Menn burttoku, Elldureñ burt tok, Diefulleñ burt tok; Helldur: DRottenn i burt took þad, sie hañs Nafn lofad, Job. 1.

Lærtum oss þa audmiükia oss i allre Þraut, under volduga Guds Hønd, ad þreya og lijda, vona og bijda, hafande i Minne Postulañs Amiñingu: Ef vier høfum haft vora lijkamlega Fedur til Tiptunar Mañа og þa hrædst, skylldum vier þa ecke miklu meir undergiefner vera þeim andlega Fødur, so ad vier lifum, Ebr. 12. Og so ma þad þa vera eitt ørugt Atker vorrar Vonar og Huggunar, ad Gud eirn er sa sem rædur fyrir øllu voru Mootlæte, og hañ hefur eingvum epterlated, utann einum sier, ad

hirta

hirta oss, sie so hañ stundum brwke adra
þar til, þa hefur hañ Høndena yfir þeim,
so þeir komast ei leingra eñ hønum þockn-
ast. Alldrei kinnum vier Ohrædder
vera, ef þar være nockur Von til, ad hañ
ofurgiæfe oss aña Ressingu med øllu,
enn fyrir þvi þarf ei ad ottast, so leinge
vier hølldum oss vid hañ i Trwñe, meig-
um vier Ohulter seigia med David: Gud
mun frelsa Saalu mijna ut af Helvijtes
Vallde, þvi hann hefur teked mig ad sier,
Ps. 49. Þvi, þar sem hann er sa, er oss
særer, þa er hann lijka sa, ed oss græder.
Hann særer og græder, hañ sundurslær
og hanns Hønd læknar, Job. 5. Þau einu
Saarenn mun hañ oss veita, sem hann
sialfur ætlar sier ad græda. Miñ Herra
JEsu, so sem eg veit ad þu ert alleina
goodur, og sialf Giædskañ, so er eg viss-
uñ, ad fra þier kann ecki añad ad koma,
enn þad sem gott er, so þo mijnu Hollde
og Bloode finnest þiin Hyrting saar og
þwng, þa veit eg samt, fyrst hun er
komenn fra þier, send og skickud af þier,
maa hun vissulega vera mier good og heil-
næm, og þo hun til mijn kome giegnum

vond-

vondar Hendur, þa man þad meira; ad þijn blessada goda Hønd skilur þar ei vid. Giefdu þa DRottenn minn mier, samt øllum þijnum Børnum, ad taka so þiñe Tiptan, sem hun sie af þier oss til Heilla send. Gief oss Hugar Styrk til ad afdrecka so vorn Sorga-Skerf hier i Heime, ad vier sœum Gledennar Adryckiu af þijns Hwss Nægdar Giædum i ødrum Heime, Amen.

## 5. Capituli.

Krossinn er ecki Reidi-Teikn, helldur Elsku og Naadar-Merki Guds.

ÞAd er sierhverri trwadri Saalu huggunarsamlegt, ad Gud er sa sem Mot-lætid uppa leggur, og fyrir þvi rædur, hvar uñ talad var i fyrirfarandi Capitula: Þo er hellsti Huggunarinnar Kraptur falinn i þvi, ad Gud giørir þad af Elsku og Kiærleika til vor, enn ei af Reidi og Ogunst; þar uñ erum vier vissir giørdir af Salomons Munni: Hvern þann sem DRottinn elskar þann hyrtir hann, og hefur a hønum Þocknan so sem

Fad-

Fadir at Syni, Ordskv. 3. og ijtrekar Postuliñ Paull þetta aptur i Nija Testamentinu, Ebr. 12. og eru til þessa Maals sierdeilis þriaar Astædur:

Sw fyrsta, ad Gud hefur so þraalega, þegar fraa Ondverdu, plagad ad leggia mesta Motlæti uppaa þaa sem vier vitum ad honum hafa hvad kiærastir verid; Uñ David segir DRottinn sialfur, ad hann sie Madur eptir sijnu Hiarta, 1. Sam. 13. þo var hann med margfölldu Mootlæti þiakadur, so sem lioost er bædi af þvi sem adrir hafa uñ hann ritad, i baadum Samuelis Bokum, lijka af hañs eigiñ Ordum allvijda i hañs Psalma Book. Job hefur þad Vitni af Gudi, ad hanns Lijki hafi ecki i Landinu verid ad Gudhrædslu og Froomleika, þo var hann af slijku Motlæti plaagadur, ad faa eru Dæmi til annars eins. Edur hvad skulum vier segia uñ sialfann Soninn Guds, JEsum vorn Frelsara? Uñ hann hroopar Fadirinn af Himni, þa han var skijrdur i Jordan, Matth. 3. og aptur þa hañ forklaaradist aa Fiallinu, Matth. 17. Þessi er minn elskulegur Sonur, ad hveriuin

mier

mier vel þocknast. Þo matti hañ, øllum ødrum framar, allskyns Hermungar þola. Vyrd nu, christinn Saula, fyrir þier, hvert ecki muni miklu betra vera, ad eiga Hlutdeild med þessum og þvilijkum i Guds Elsku og undir hanns Hyrtingu, helldur eñ med þim Vantrwudu i Guds Ovinattu, og vid stundlegt Veralldar Eptirlæti. Þad ætla eg vijst, ad eingiñ Kross nie Angist gieti so sar verid, ad ei sie meir enn vinnandi fyrir Guds allra sætustu Elsku, hana ad þola. Þo Gud slæi oss i sinni Reidi, þa kyñum vier eckert þar a mooti ad segia, utann taka undir med Michea: Eg vil bera Reidi DRottins, þvi eg hefi syndgad a mooti hønum, Mich. 7. Eñ nu er vor Skyllda þvi auglioosari, ad taka med Þøckum allri hanns Hyrtingu, þar sem hañ leggur hana a oss af Elsku og Kiærleika, og er þar til.

Aunnur Astædann sw, ad hann med Hyrtinguñi og Motlætinu verkar so mikid gott i og med oss. Med þessu dempar hann i oss Syndina, hefur vort giælijsa Holld i Taumi, dregur vort Hiarta til

Himinsins, eftir i oss Trwna, æfir Pol-
innmædina, uppvekur Bænrækning, ki-
ennir Audmyktina, og i einu Ordi, bijr
oss undir sitt Dijrdar-Rijki. Ef þu, chri-
stinn Sala, finnur ad þvilijkt er Guds
Elsku-Verk, ef þad er hanns Elska, ad
vijsa þier a Ltjfsins Veg, og styrkia þig
a honum, þa er Motlætid, med hveriu
Gud wtriettir þetta, hanns Elsku-Mer-
ki, þvi ecke mundi hann þad hier til brw-
ka, nema hañ sæi þad til þessa hagkvæmt
og hentugt, vegna vors Asigkomulags.

Pridia Astædann til þess, ad Elskann
Guds til vor sie Undir-Root og ein Ord-
sok til vors Motlætis, er þessi: Ad hann
midt i Hyrtingunni auglijsir sijna Elsku
til vor i Huggun og Hiastod nækvæmri,
alltijd oss hialpsamlega, og so tilfinnañ-
lega sem hann sier ad vel kann ad haga, so
sem hann giefur oss ad skilia af sijnum
Ordum til Davids: Eg vil typta hann
med Mannanna Hrijsi, enn mijn Mysk-
unsemi skal ecki snwast fra honum. Og
þetta medkiennir Jeremias, þa hañ tal-
ar um eina þa saruſtu Guds Refsingu:
Hann plagar og hryggir Manninn ecki

wt af Hiarta, Harmagr. 3. Þo er þad ecki hier med sagt, ad hver eirn sem sætir nockri Refsingu af Gudi, megi strax þar af ælykta sig ad vera i Guds Næd og Vinættu; ney, Hyrtinginn utaf fyrir sig ælitinn kann eingann þar um vissan ad giøra, þvi Gud hyrtir opt þann Ydrunarlausa, til ad uppvekia hann til Ydrunar og Apturhvarfs, af þvi hann vill ecki ad nockur tapist. Og med þvi hann giørir slijkt af Elsku til Syndarans Velferdar, þa ætti Syndarinn hier af ævinnast og lockast, til ad sæta af illu og læra gott ad giøra, so ecki uppfyllist æ hønum þad Spæmadurinn segir: DRottinn, þu slær þæ, enn þeir finna ecki til þess, Jer. 5. Enn sæ sem lifir i Trwnni og Guds Otta-anum, og so i Guds Vinfeingi, er af hønum hyrtur, hann æ af þessari elskandi Hyrtingar Hendi Guds ad lockast til þess, ad knijta sig þvi fastara vid hann med Bæn og Audmykt, Von og Þolinnmædi. So er þa Meininginn i stuttu Mæli: Gudleg Hyrting (einsamann) er ecki alltijd Merki hanns Vinættu, þvi hann hyrtir og sijna Ovine, þad er Van-

trw,

trwada; Enn hun er þo alltijd Merki hañs Elsku til vorrar Velferdar, þvi hier talast ei uñ Guds Reidi-Straff, so sem þa hann yfirgiefur i Fraleitt Sinni, hveriu giarnann fylgir añadhvert Tilfiñingarleysi edur Forhærding.

Nu, christinn Sæla, fyrst ad Gud elskar þig, vill hann sem minnst aa þier siaa, af þvi sem hønum er mootstædilegt, og þinni Velferd meinlegt. Af þvi hañ elskar þig, vill hann innþrickia hiaa þier sinni Mynd, so mikid sem þad skied gietur i þessu daudlega Lijfi; Enn soddann verkast ecki alltijd hiaa oss audvelldlega, nema Kross og Mootlæti komi þar til, ad hafa vort Ostiirilaata Holld i Taumi. Þvi maa þad sijnast Reidi-Teikn, þa Gud lætur eirn vera fyrir utann allt Mootlæti, og losar hønum ad fraiñana eptir Holldi og Bloodi, eptir þvi sem þad vill verkast: þvi segir Postulinn: Ef þier erud aan Typtunar, þa erud þier Hiaa-Børn, enn ecki Børn, Ebr. 12. So vill þa hier af filgia, ad saa Kross sem Gud leggur oss uppaa, er eirn hanns Velgiørningur, ad vijsu stærri, helldur enn þo hann lieti

ti hid mesta Veralldar Eptirlæti, og li-
eti oss bada i Roosum alla vora Æfi;
Enn ef pad er Velgiørningur, pa krefur
hann Packlætis, og ættum vier pa ad
taka Krossinum ecki einasta an Møgl-
unar, helldur og med Gledi og Packlæ-
ti, vid vorn himneska Fødur. Enn ef vi-
er gietum pad ecki, medann Naudiñ ligg-
ur a sem saarast, pa krossfestum samt
Holldid, so pad ecki møgli, sem er siw læg-
sta Trappa Polinnmædinnar. Gietum
vier ecki komist a pa hærri, pa verum a
pessari. Gietum vier ecki, med Packlæ-
ti vid Gud, gladt oss yfir Hørmunginni
medann hun aliggur, eins og Postul-
arnir, Post. G.b. 5. giørum pa vidlijkt
og David, er hann segir: Eg vil peya, og
mijnum Munni ecki uppliwka, pvi pu
DRottiñ giørir pad. Vid munum, Sa-
la mijn, sijdar fa Gied og Hiarta til ad
packa Gudi fyrir ockar Kross, og gled-
iast af honum og yfir honum; Pegar hũ
aflijdur, pa mun uppfyllast a ockur pad
Ord: Ydar Hrygd skal snwast i Fognud,
Joh. 16. verda ad Fognudi, so Fognud-
urinn verdur yfir pvi sama sem fyrr giør-

D

di Hrygdina; Eins og Barnid þad sama, sem ordsakadi Moodurinni Fædingar-Hriidirnar, ordsakar henni eptirá Fögnudinn, so hun minnist ecki þess fyrra Harmkvælis, þa hun sier sinn Lijfs-Avøxt, Joh. 16. So gledia sig Guds Børn yfir Krossinum þa hann er aflidinn, er þau siá hvad gott hann, edur Gud fyrir hann, verkadi i þeirra Saalum. Þu vor elskurijki Jesu! gief oss upplijst Saalar Augu, til ad þeckia i og hiá øllum vorum Meotgángi þijna Elsku, og elskurijka Umhyggiu fyrir vorri Velferd, ad vier i Hiarta uppvekiunst til ad elska þig, i Elsku kissa á þinn Hyrtingar Vønd, og af hønum lagast og mentast sem hlijdin Børn i øllu þier þægilegu, oss til Saaluhiálpar, Amen.

## 6. Capitule,

Um Þrefalldann Kross-Skoola DRottins.

SAsnvel þo Tegunder Guds Barna Mootlætinga sieu so margar, ad ecki mun audvelldt ad upptelia þær allar, ed ur sundurlida smásmuglega, þa hafa þo

Christninnar Lærendur nafnkiendt fier i Lagi Prianа Krossins Skoola:

Sa Fyrsti er Typtunar Skooli, hvar inni ad Polinnmædinn og Trwinn reynast og ydkast, med almennilegum Mootlætingum, sem eru so sem sameiginnleg Kior Guds Barna, hvar um brwkast mætti Postulans Paals Ord: Ydur hefur enn nu ecki hendt nema mannleg Freistni, 1. Cor. 10. Pad er ein þvilijk Reynsla, sem er so sem almenñleg medal Mañа, og sameiginnleg þeim, sem gaanga vilia Lijfsins Veg.

Annar er Reynslu Skoli, hvar iñi ad fier i Lagi reiniſt Vonenn, med þwngum andlegum Freistingum; Um̃ þess hattar talar David: Hvar fyrir wtskwfar þu DRottinn Saalu minni? og byrgir þitt Andlit fyrir mier? Ps. 88. Ecki ad hann være wtskwfadur fraa DRottni, helldur meinti hann so i þad Sinn. Og er þess giætandi, ad David tileinkar þetta Gudi alleina, þvi hann er saa sem rædur fyrir þeirrar trwudu Saalar bædi Gledi og Sorg, hann deydir og lijfgar, færir nidur til Helvijtis og burt þadann aptur,

1. Sam. 2. Þvi DRottni þocknast stundum ad draga i Hlie sijna Huggun og Nand fyrir Mannskiepnuñi, so hun finur þar ecki til uñ Stund, og vill Gud hier med læta hana siæ sinn eigiñ Vanmætt, og ad allir Veralldar Hlutir eru henni Onoogir, og ad hun æ alla sijna Sælar Farsælld og Vellijdan, einasta undir Gudlegri Myskun. Hier af tekur hun sijdann Framfør i Guds Dijrkan og Christinndomsins Athæfi. Enn æ medann þetta Strijd stendur, þa er þad eitt hid hardasta, sem daudlegum Mañi mæta kann. Hier samanndragast Trwarinnar Kraptar i Sælunni, so Trwinn verdur sem eirn lijtill Neysti, sim ad sønu ei utslocknar, eñ felst þo so diupt i Astrijdunnar Einmyriu, ad sæ Neysti gietur ei af sier giefid Lioos nie Lijfs-Mark, utañ i heitum Andvorpunum, þa nockurt Slot verdur æ þeim særustu Hvidum. Hier fer jafnvel Madurinn ad efa uñ Guds Orda Sannleik, af þvi þessar þungu Freistingar og Diofulsins Jñblæstur, sem þa fær Leifi af Gudi til ad einangra Sælina, eru til so sterkrar Hindrun-

 ar,

ar, so hann gietur ecki fundid nie um̃sadmad Ordsins Huggunar Kraft, edur han̄ hugsar, ad Ordsins Huggun komi sier ecki vid. Og þarf Madurinn þa bera sig ad koma þvi inn hia sier i Hiartad, ad um̃ Guds Vegu eigum vier ecki ad dæma eftir þvi sem oss sialfum finnst edur synist, a medan̄ vier erum i slijkri Angist staddir, helldur riett eptir Guds Ordi, sem er Oriufannlegur San̄leikur, og eckert an̄ad enn Sannleikur Ps. 119. hvilijkur, um̃ hvern Gud sialfur sagdi vid David: A mijnum San̄leika vil eg eingan̄ Brest vera lata, minn Sattmala vil eg ecki vanhelga, og ecki um̃breita þvi sem fram̃geingid er af mijnum Munni, Ps. 89. En̄ hvad er þa fram̃geingid af hn̄s Mun̄i um̃ þetta Efni? Pad hann talar fyrir Esaiam: Kann nockud Modurinn ad gleyma sijnu Barni, so hun siai ecki Aumur a Syni sijns Kvidar? og þo ad hun forgleymi þvi sama, þa vil eg þo ecki forgleyma þier, þvi eg hefi teiknad þig i mijnum Hondum, Es. 49. Vid þvilijkt eigum vier oss ad hallda, hvad sem vort skam̃sijna Hiarta kann ad þeinkia, edur

þvi kañ siñast a eirni ed: añari Freystinga Stundu. Og mæ i þessum sar-heita Ofni til særtustu Svølunar vera Epterdæme vors signada Frelsara, siñ i siñi bitrustu Pijnu var syrdt: allri gudlegri Huggun, so sem hann þvi ysirlijser, segiandi: Gud minn, Gud minn, þvi hefur þu ysirgiefid mig? og þo var hann midt i þessu Fødursins astikiær Sonur, æ hverium hann hafdi sijna Velþocknan. Vidlijka eru Guds Børn honum æstbundiñ midt i þvi sem þau svitna og pressast meiga i þessum Freystinganna Bruna. So þar vid stendur stødugt, sem Paulus segir: Gud er trwr og lætur eingann freystast ysir Megn, helldur giefur Freystinguñi þañ Enda, ad vier fæum stadist, 1. Cor. 10.

Pridie Krossens Skoole er Pijslarvættes Skoole, þar Gud hefur læted sijna Astvine innsigla JEsu Lærdooms-Sañleika med sijnu Bloode, og utgiefa þar fyrir Frid og Fiør. Hier reinest Trwarinnar Stødugllynde og Hugprijde. Soddann var miøg algeingt i þeirre fyrstu Nija-Testamentis Christne, so þar mætte valla JEsu Nafn medkienna,

edur Trw siina a hann jata, ad ei være Fridur og Lijf i Vede. Nu byrmer ad vijsu Millde Guds mikenn part ofs fyrer soddann Offooknum; Eñ ef ofs kynne hvilijkt nockud til ad falla, þa þyrftum vier af Alvøru bidia Gud, ad innleggia hia ofs Hugprijde og Stødugleik Trwarennar, og aminna ofs sialfa med Christi Ordum: Hvør hann medkieñer mig fyrir Moñum, þann vil eg medkieña fyrer mijnum himneska Fødur: Eñ hvør hann afneitar mier fyrir Moñum, þeim vil eg afneita fyrir mijnum himneska Fødur, Matth. 10. Þetta eru nu þeir þrijr Skoolar DRottens, med hvørium hann hefur uppvaked margann af Andvaraleysesins Svefne, leidriett margañ villtann, og giefed Salunum Undervijsun uñ siina Vegu. Þvi seiger DRottenn: Eg vil giøra þig utvaleñ i Ofne Fatæktarennar, Es. 48. Silfred heinsa Menn af Skwme og Sora i Ellденum, edur Ofnenum Elld-heitum. Vier munum vijst ei vera so hreiner og fagrer fyrir Gude, ad ei sannast meige med einhveriu moote a ofs, þad Ritningenn

seiger:

seiger: Ydar Silfur er forridgad, Jac. 5. Þar fyrir so vier þurfum ecke kastast i þañ eilijfa Kvalanna Ofn, þa leggur Gud oss i Krossens Ofn i þessu Lijfe, oss til Hreinsunar. Þvi verdur og alldrei neitad, ad veralldlegt Epterlæte hefur a margañ hladed Saur og Sora vondra Lasta, so jafnvel vid eilijfum Dauda leiged hefur, nema Gud hefde læted Krossens Hita smellta þa til Hreinsunar. O! hvorsu heilnæmur er þa Krossenn; Sem dregur oss fra þeim Hæska. Krosseñ er Moder Dygdaña; Meistare Spekennar; Vegferdar Leid til Lijfsins; Læknisdoomur Salareñar, Afturhalld fra Syndunum; Morgun-Stiarna sw sem geingur undañ Soolu Hüggunareñar, og loksins Utvalldra eilijf Æra og Hroos. Þu blessade Kross-HErrañ, JEsu, þier vil eg fagna, hvønær sem þu til mijn kiemur, ad leida mig i þinn Kross-Skoola: Enn med þvi miñ Vilie er veikur, þa virdest þitt Astrijke ad styrkia minn Veikleika, so eg giete sett mier fyrir Augu, ad epter Hørmunganna Skwr, mune þijn Myskunar Sol-

skijnä,

ſkijna, og ad þu, iñdœlaſta Heill miñar Sælar, muner ad ſijduſtu ſnwa allre minne Hrigd i Fognud eilijfañ a Himnum, Amen.

# 7. Capituli.

Y vorum Kroſse ſkulum vier fyrſt bidia um̃ Fyrergiefning Syndaña, ſem eru hañs hellſta Ordſøk.

Þegar Spamadurenn Jeremias er ad tala uñ Hirtingu DRottens yfir Iſraels Foolke, og Ordſakernar til þeirrar ſømu, þa ſeiger hann medal annars: Þvi møgla Mennerner ſo i Lijfenu? Hvør eirn møgle i moote ſinne Synd. Latum oſs ranſaka og uppleita vora Breitne, og ſnwa oſs til DRottens. Og ſkom̃u ſiidar: Vier høfum ſyndgaſt og vered Ohlijduger, þar fyrir giorder þu riett, ad þu hlijfder ecke, Harmagr. 3. Hier af meigum vier þeinkia, ad Synder vorar og Misgiørder ſieu Ordſøkeñ til vorra Mootlætinga. Þvi fyrſt er þad Omotmælanlegt, ad ef þar være eingeñ Synd, þa være eckert Mootlæte, og ſoleides er þa Syndenn yfir høfud Ordſøk til

til alls þess Mootgangs, Symdar og Armædu, sem oss mæter i þessu Lijfe. Sijdann þar ad auk, kann vort Mootlæte ad Ordsakast af einhvørium vissum Syndum vorum, og Syndar Ordle. Po er þad ecke hier med sagt, ad þeir sieu aller ødrum syndugre, sem under Krossenum sveitast meiga, jafnvel ødrum framar. Pvi svarade Christur Læresveinunum, þa þeir spurdu hann ad, hvørt sa sem blindur var borenn hefde syndgad edur Forelldrar hanns? Hañ sagde: Hvørke syndgade þessenie hañs Forelldrar, (þad er til ad forþiena ødrum framar Naudena) helldur so ad Guds Dijrd yrde openber, Joh. 9. Ecke er þad helldur Meiningeñ: Ad Guds Barna Kross sie Straff Ofyrirgiefeña Synda. Samt kann hañ af vorre Synd, eirnre framar enn añare, ad vera Ordsakadur, og ad vijsu meir enn med einn moote. Marskie af undannførnum stoor Syndum, fyrir hvøriar vier høfum ad vijsu Ydrañ giørt, og feinged a þeim Fyrirgiefningu; Enn Gud vill þo med einhverium Krosse hallda a oss Hitanum, ad vier optar eñ

eitt

eltt sinn, edur leingur, eñ um̃ stundar saker, smelltunst þar af i Hiartanu, so hiä oss innþrykest þvi betur Audmyktenñ fyrir Gude, og Vidbioodur a þeirre drygdu Synd. Gud fyrirgaf David hañs Hoordoms Synd, og liet Nathan seigia hønum: DRottenn hefur burtteked þijna Synd. Samt liet Gud Nathan seigia til hanns: Sverded skal ecke linna af þijnu Hwse æfenlega, søkum þess þu forsmæder mig, 2. Sam. 17. edur ad Gud finnur hiä oss einhveria þa Synd, sem ei hefur enn nu skiled oss fra hañs Nääd og Vinfeinge, enn horfer þo miøg til þess, og þo vill hann fyrirbyggia þad, med einhvørre Tiptan, sem dempar i oss Syndena, edur og vekur hana upp fyrir oss, ef vier ecke ædur adgiættum edur þecktum hana; Edur hann fyrersier, ad vier munum i einhveria skadlega Synd rata frañveiges, nema hann med Krossenum kome i Veigenn þar fyrir; Edur Gud vill med Krossenum ørfa oss og efla i Christendoomsins Dygdum, i hverium hann fiñur hiä oss Reñingarleyse og Vanrækt: Þvi þo Gud

hafe

hafe stundum uppa lagt, og enn i Dag uppa legge, sijnum Elskendum Kross og Mootlæte; fyrir utann nockurt Tillit til Þeirra Synda, þa munum vier þoo oftar meiga þeinkia, ad vort Mootlæte hafe sijn Upptøk a einhvern hatt af vorum Syndum sier i lage. Þar ad auk er eingenn vorra fyrir Gude saklaus, þo fyrir Mønnum þad vera kynnum, þvi vier aller briootum margfalldlega, Jac. 3. og forþienum ei annad enn Straff. Hvørs vegna þo Job tale margt umm sitt Sakleyse vid sijna Vine, sem skulldudu hann fyrir Ogudlegleika, samt medkienner hann, hvilijkur hann sie fyrir Guds Auglite, þa hann seiger: Sie eg meinlaus, þa giører hann mig þo sakadann, Job. 9. Þad er, hann finnur þad og yfir bevijsar mier þad, ad eg sie fyrir hønum sakadur. Þvi giørdum vier vel vid oss sialfa, ef vier lietum hvern Mootlætes Kross uppvekia oss til gløggrar Rannsoknar vorrar Samvitsku, þeim Tijma er og alldrei spillt, sem brwkadur er til ad medkienna og afbidia Synder sijnar fyrir Gude.

Eirn forstandugur Lækner byriar giarnañ Grædsluna a Upptokum Siwk doomsins, añars er hun ecke væntanleg til goodra Heilenda: So eigum vier ad byria Grædslu vorra Motgangs Sarenda, a þeirra Upptokum, sem vier meigum þeckia ad vera, edur þeinkia, ad vera mune Syndernar. Vissulega egnum vier þraasimes yfir oss Hyrtingar Guds med vorre Orædvendne, so þa a heima hia oss Spamañsins Sannfæring: Soddann giører þu þier sialfur, af þvi þu yfirgiefur DRottenn Gud þiñ, Jer. 2. Enn ef þu, syndugur Madur, villt, ad DRottenn liette þijnum Hørmungum, þa fer þier illa ad safna Synd a Synd ofann. Miklu helldur þarftu ad wtreka fyrst fra þier Syndena, sem egnde yfir þig Hyrtinguna, og so attu vissa Nand og Hialp hia Gude, sem sagt hefur: Snwed ydur til mijn, so vil eg snwa mier til ydar, Sach. 1. Þad er skrifad uñ Leoned, ad þad væge Lambenu þa þad leitar Vægdar; JEsus Christur nefnest Leon af Kyne Juda, Openb. 5. Hañ kieñer oss med Krossenum ad kveina og

and-

andvarpa, bidia og akalla sig og so er hñ siws og reidubwenn ad sijna Vægd og Lykn øllum sem hanns leita med audmiwkum Anda og angrudu Hiarta, og þad jafnvel þo vier adur høfum uppvaked hañs Oblijdu med vijsvitande Syndum; Þvi hrein og heit Ydran fer alldrei hia þvi, ad finna Nand hia Gude, hvar uñ hann hefur sialfur giørt oss vissa fyrir Spamañsins Munn, seigande: Skyndelega tala eg a mote einnre Þiod og Kongs Rijke, þad eg vilie upprœta, sundurbriota og fordiarfa þad. Enn ef þad snijr sier i burt fra sinne Vondsku, a moote hverre eg tala, þa skal mig eirnenn angra þa Ogiœfu, sem eg hugde ad giøra þeim, Jer. 18. Og er sama ad tala uñ hveria Saal sier i lage, þvi so sañarlega sem DRottenn lifer, vill hann ecke Syndarans Dauda, helldur ad hann snwe sier og life, Ez. 33. Enn a medañ þu, syndugur Madur, lifer i Syndunum, an Ydrunar og Yfirbootar, kañtu einnvann ad klaga, nema sialfann þig, hvad strangt Bøl sem a þig strijder, og þar ad auk attu Ovissa Von til Bootar:

Ef þu leitar Bootar a þijnum stundlega Mootgange, fyrr enn a þijnu syndsamlega Athæfe, þa helldur þu þig til Verꜹlldarennar Vinfeinges, og mættu so bræst vid Guds Ovinættu, Jac. 4. So sem Gud er hinn ædste Goode, og Uppspretta allra goodra Hluta, so er Syndenn hid versta, og Uppspretta allrar Olucku; Allt hennar Natturu-Far er Fiandskapur giegn Gude, Rom. 8. so alldrei kann vort Hiarta fullkomlega ad mynda sier, hvad mikla Andstigd Gud hafe a Syndenne; Er þvi ecke ad undra, þo hun Straffed epter sig leide. Og ef Gud hefur hirdt þa riettlætu, sim af ellu Hiarta hafa fyrir hønum trwlega geinged, nær þeir hafa rasad i einhveriu, sem oss mæske sijnest ecke so miked, so sim var Moyses (4. B. Mos. 20.) og David (2. Sam. 24.) Þa er øll Von a, ad eg meige Hirtingu mæta, sem so þrælega er gælijtell og gleymenn Guds Vega og Bodorda, og kiemst ecke i nockurn Jøfnud vid hina, i neinu goodu. Audmykium oss þvi under vollduga Guds Hønd af sann ydrande Hiarta, med Lifnadarens

Betran, so mun hann fagna vorü Aptʼurhvarfe, og tiaʼ oss sijna Födurlega Myskun, þvi hiaʼ hönum er Fyrirgiefningenn og Endurlausneñ, Psal. 130. og verdur so øll hanns Hirting oss til Blessunar, þvi þeim, sem Gud elska, þiena aller Hluter til gods, Rom. 8. Avi miñ JEsu! O! hvad maklegt er mier Hrijsed og Hirtingeñ, sökum minna Synda! Hyrtu mig sem þier þocknast, eñ taktu ecke fraʼ mier þijna Myskun, vægdu mijnum Veikleika, og giefdu mier ad finna þig i allre Naud, minn Naudhiaalpara. Og þaʼ eg skal hiedann fara, þaʼ leid mig inn i þinn Fögnud aʼ Himnum, fyrir þijns dijrmæta Nafns saker, Amen.

# 8. Capituli.

Krossenn er stundlegur, og tekur enda þaʼ minst varer.

PEgar D. Rotteñ talar uñ Hörmungar siñar Christne, fyrir Spaamañsins Esaiæ Muñ, þaʼ seiger hann: Eg hefe mitt Andlit aʼ Augabragde Reidennar uñ litla Stund huled fyrir þier, eñ med

eillifre Myskunseme vil eg hier myskun-
samur vera, Es. 54. Lærdu hier, christ-
enn Sala, ad meta riett þijns Mootlætes Tijma Lengd. Gud giæfe, vier giætum fest þad i vorum Pænka, oss til Styrkingar, ad þad er Stund enn eing-
enn Eilijfd, sem vier eigum hier ad lijda. Þeim Kross þiænda finnst þad ad sønnu meira enn eitt Augabragd, edur lijtel Stund, ad bera Krossenn so og so marg-
ar Vikur, Mannde, og mæskie Ar; Hønum þiker hver Dagurenn længur, sem hann verdur ad bijda epter Liettern-
um. Enn miñunst þo þess, ad Guds Ande nefner vorn Sorga Tijma ecke nema Augabragd og litla Stund, og finnum vier, ad hann sañarlega mæ so heita, ecke einasta fyrir Gude, hiæ hvør-
ium ad Þusund Ar eru sem sæ Dagureñ ed i giær leid, Psalm. 90. Helldur mæ þetta lijka so heita fyrir oss, einkum med þreñu moote:

1. J Samburde vorra Motlætinga, sem Gud oss uppæ leggur, vid þæ Vel-
giørninga, sem hann veiter oss; Sann-
lega geingur þetta yfir hitt, miklu meira

enn laungur Tijme yfir eitt Augnablik: Alldrei eru vorar Sorga Stunder so margar, edur Augnablik vorra Hørmunga, ad ecke verde audvelldlega taled; Enn Guds Velgiørninga, jafnvel sem vier þiggium a einu Augnablike, kunnum vier alldrei ad upp telia edur utreikna; Vier meigum seigia hier mz David: DRottenn, minn Gud! miklar eru þijnar Dasemder, og þijnar Hugsaner, þær þu audsyner oss, eckert er þier lykt, eg vil kunngiera þær og þar af seigia, þo ad þær sieu Otelianlegar, Ps. 40.

2. Mä vor Sorga Tijme heita Augabragd, af þvi hann tekur Enda þä minnst varer, mä skie a einu Augabragde, so sem David seiger: Umm Kvølld Tijmann varer Gräturenn, enn ad Morgne Dags Føgnudurenn, Ps. 30. Alldrei veit nær enn sä himneske Fader Myskunsemdanna lætur sitt Hialpræded Soolskyn upprenna yfir þeim, sem sitia i Nætur-Myrkrum Hørmunganna, so þeim giefst Ordsøk ad seigia med David; Þu hefur minn Hrigdar Seck i sundur slited og umgirt mig med Fagnade, Ps. 30.

30. DRotteñ er ecke leingur ad græda enn særa, þar hønum er hvertveggia eins andvellðt; Þa Neidenn er sem hærst, er hann sem næstur. Ei var sa almætt- uge Gud leinge ad nidurlægia Jerusal- ems Ovine i Ezechiæ Tijd, þa DRott- ens Engell sloo i þeirra Herbwdum Hundrad Attatiju og Fim̃ Þusimder Strijds-Mañа æ eirnre Noottu; Vijst hefur þa vered hia Jerusalems Jñbigg- iurum um̃ Kvølld-Tijmann Sorg og Otte, enn ad næsta Morgne Glede og Føgnudur, 2.K.B. 19. og þrijtur fyrr Daga enn Dæme uppa Guds hrada Hiælp, þa hanns Tijme er komenn.

3. Mun vor Sorga Tijme ecke vird- ast oss meira enn Augnablik, þa vier berum hann samañ vid epterkomande Lijf, og endalausa Sælu fulla Eilijfd. Med þessium Samburde vill Postulenn Paall hugstyrkia harmande Guds Bo- rn, þa hann seiger: Vor Hrigd, sem stu- ndleg og liett er, giører oss eina eilijfa og yfir allañ mæta mikla Dijrd, 2. Cor. 4. Þa mun hier, þu trwada Saal, um̃bun- ad verda rijkuglega hvert Sorgaña Aug-

nablik, sem þu hier af breider, med O-
umrædelegum Fognude: Þar muntu
margfalldan Sæluñar Avøxt uppskera,
af hvertu Hørmunga Sadkorne, sem þu
hier nidur sæder, og þvi seiger Paall:
Ad Mootlæting þessara Tijma sie ecke
verd þoirrar Dijrdar, sem vid oss mun
openber verda, Rom. 8.

Hier ad auk er annad þrennt, med hv-
eriu Guds Børn kuña ad stitta sijn laang
somu Sorgar-Dægur, sem er: 1. Bæn-
inn til Guds, og hennar stødugt Fram-
halld; Med henni holldum vier hiaa oss
Gudi, eptir hanns Fyrirheiti, sem segir:
Akalla mig i Neydinni, og vil eg frelsa
þig; Ps. 50. Item: Eg em hiaa þier i Ne-
ydinni, Ps. 91. og þegar hañ er hia oss,
og vier erum þar um vissir i vorri Sa-
lu, þa gietur þad ecki annars verid, eñ ad
Sorga-Tijminn stittist oss, so vier jafn-
vel vitum valla hvad af Tijmanum verd-
ur, a medann vier naaum ad hafa vora
Unadsemd i Gudi. 2. Hugleiding JEsu
Eptirdæmis, hversu hann leid vor veg-
na þær bitrustu Kvalir, og meigum vier
þa vel þeinkia, ad ecki sie oss vandara um,

ei sie Lærisveirninn yfir Meistaranum Matth. 10. Sinn hardasta Pijsla Tijma nefnir JEsus: Eina Stund; Pad var þo meira enn ein Dags-Stund, eftir vorum Reikningi, eñ hann giørir ecki vr þvi nema eina litla Stund (Fadir, Stundinn er kominn, Joh. 17.) af þvi hañ hugsadi bædi til eptirfilgiandi Vegsemdar, og lijka til þeirrar Ofegiañlegu Gagnsemdar, sem þar af fliota skylldi øllum Heimi. Nu ef hañ matte siñ Pijsla-Tijma eina Stund, þa meigum vier vissulega meta vorn Lijdingar-Tijma eitt Augna-Blik, þvi hrad er þad sem vier lijdum hiaa þvi sem hann leid? Sannlega miña eñ eitt Augna-Blik hiaa laungum Tijma. 3. Yfirvegan Guds Naadar Fyrirheita, sem hann hefur giefid þm̃ Kross-þiædu, mun vel stitta oss Sorgar-Dægurinn. Margir heidnir Menn hafa i sijnum Mootgængi hugstyrkt sig vid Sælarinnar Odaudlegleika (sem þeir hafa þo alleina i Grillum og Gætum litid) og hafa þeinkt, ad i Mootgænginum mundi þeirra Raad og Hagr fara til Betrunar; Hversu miklu framar byria-

di oss þa, sem erum Guds Folk, fostrad-
ir a hanns H. Ordi fra Ungdomi, ad
lata Hug vorn og Hiarta styrkiast, vid
þau margfølldu Fyrirheit, sem Gud hef-
ur giefid øllum Truudum: Ad þeirra
Hrygd skuli snuast i Fegnud, Joh. 16.
Ad sa Riettlati skuli ecki æfinnlega O-
roo hafa, Ordskv. 10. Ad hañ vilie utrick-
ia oss af Neydinni, og giøra oss vegsam-
lega, Ps. 91. Þetta og þvilijkt er meira
enn Grillur og Gatur heidinna Maña,
sem þeir voru ad vellta fyrir sier til og
fra i Ovissu, uñ Mootgangsins Utfall
og Okomid Lijf. Þetta (sem vier høfum)
er Guds Oriwfannlegt Sannleiks Ord,
og vier vitum þad er so, og þvi eigum vier
ad byggia hiklaust þar a vora Trw og
Von, oss til Þolgiædis Eflingar i allri
Raun. Eliphas af Theman (Job. 5.)
talar hier vel. uñ: Sæll er sa Madur,
sem Gud leggur Hyrting a, þar fyrir þa
fyrirlijt ecki Hyrting hins almattuga,
þvi hann særir og grædir, hann sundur-
slær og hanns Hønd læknar, hañ inun
frelsa þig wt af Sex Harmkvælum, og i
þeirri Siøundu mun þig ei neitt illt a-

hrœra. Og sier i Lagi tekur Spamadurinn Jeremias til þeirra, sem leiddir verda ærla siins Alldurs i Krossins Skola: Pad er Manninum eirn merkilegur Hlutur, ad bera Okid i siinum Ungdooini, so ad hann sie polinnmoodur sem yfirgiefinn er, nær ed nockud yfir hann fellur, Harmag. 3. Pvi sa sami fær vel ad læra: Ad þegar vort Liif er sem kostulegast, þa er þad Sorg og Armæda Ps. 90. Pegar vier gløggt hyggium ad þvilijku, munum vier viist læra ad ælijta, hafa fyrir vort Augna-Mid og Takmark, þad Osynilega enn ei þad synilega, þad tilkomandi, enn ei þad nærverandi, hvad ad ei lijtid stitta man vorar Sorgar Stundir, og efla oss i Voninni, ad þar ad muni um siidir koma, ad vier reinum og medkiennum fagnandi, ad vor Sorgar-Tijmi var ecki neima Auga-Bragd. Pu blessadi Sigur-Hofdingiñ, HErra JEsu, virdstu med þijnum Sætleika ad stitta vor læengsomu Rauma-Dægur, so vier fyrir þitt Fulltijngi faaum afþreyd alla vora Mædu, og innkomist siidann i eilijfa Hvijld a Himnum, Amen.

# 9. Capituli,

## Um̃ Vonina, og hversu hun er naudsynleg i Krossinum.

Pad er merkilegur Hlutur ad vera polinnmodur, og vona uppa Hialpina DRottins, segir Jeremias Spamadur, Harmagr. 3. og er pad hverutveggia, ad par gietur ecki verid Polinnmædi fyrir utann Von, og ecki helldur Voninn ann pess hun fædi og fóstri Polinnmædina, og so er pa Voninn Omissandi ollum sim sitt Motlæti afpreya vilia i polinnmædi, ollum sem nockra stadfasta Huggun og Hiartans Roosemd hafa vilia i Gudi: Enn Vonin̄ er polinnmod og stødug Bidlund eptir pvi goda, sem vier uppa treystum hia Gudi. Sa sem vill hafa pa riettu og skiæru Von, hann parf ad afneyta sialfum sier og ollum Heiminum, og ofurgiefa sig olldungis Gudi; so hann voni uppa hann einann, og voni pess eina fra hønum sem han̄ hefur lofad uppa visst. Ad vona eptir stundlegri Vellijdan og Eptirlæti hia Gudi, er ecki so rietta Von, pvi pa er pess hia Gudi von-

ad, sem hann hefur ecki neinumm fortaks-
laust lofad; Enn ad vona eptir Hiælp og
AdstodDRottins i ellu Mootlæti, og
farsælum Enda a ollu Mootlæti, þad er
sw rietta Von, þvi hun er þa einasta gr-
undvølløud a Gudi og þvi siñ er i honum,
þad er, a hanns Mystkun og Sannleika.
Uñ slijka Von, segir Postulinn, hun ver-
di ecke til Skamar, þvi sa sem hana hef-
ur, þarf sijn alldrei fyrir hana ad skam-
ast, þvi hun bregdst alldrei, af þvi hun
hefur þann Grundvøll sem alldrei breg-
dast kañ, siñ er sa Oumbreitañlegi Gud,
Þvi so sem hann er Obrygdanlegur, so er
sw Rosemi og Huggun Obrygdanleg,
sem a honum er bygd. Þvi þo Mañeskr-
kann sialf, sem Vonina hefur, sie veik og
vanmattug, þa tekur Voninn siñ Styrk
af honum, sem hun festir sig a hann, so
Hellu-Steirniñ vors Hiælpredis, styrk-
ir þa alla til ad hallda sier, sem Vonar-
Augunn a hann setia: Þvi segir Drott-
inn: Þu munt þad reina, ad eg er Drott-
iñ, a hverium þad ecki til Skamar verda,
þeir sem uppa mig vona, Es. 49. Eñ ad
vona uppa nockurn añañ Hlut eñ Gud,
þad

þad sviikur magnlega, þvi þa er Voninn bygd a Sandi, med þvi allir Hlutir, fyrir utann Gud, eru Ostødugir og fallvaltir sem Sandur, kuña þeir þvi, sem uppa þesshattar Hluti vona, alldrei Ugglausir vera, edur stødnga Roosemd hafa, framar eñ sa kann Ugglaus vera um̃ sitt Hws, som bygdi þad a Sandi. Eru þad Mennirnir, sem vier vilium uppa vona, þa segir David hvad svikullt þad sie: Treystid ecki uppa Høfdingiana, þeir eru Meñ, og kunna ecki ad hialpa, Ps. 146. Eru þad adrir Hlutir i Heiminum, so siñ Laan og Lucka, Riikdoomur, Vitsmunir og þesshattar, þa er allt þviliikt so siñ sundurbrotinn Reyr-Stafur, uppa hvern ef nockur stidur sig, þa geingur hann inn i hanns Hønd og stiingur hana i giegnum. Ei einasta tapar Madur þvi, sem hann sleidis uppa vonar, þa minst varir, hełldur og verdur hann til Skamar vegna sinnar Vonar, þa hann sier, hvórsu hann af sialfum sier svikinn var. Settu þvi, christinn Saala, Von þijna uppa engvann, utann JEsum alleina, hann er siu Hialpræđis Hellañ sem alldrei

drei bifast, sa Vinurinn sem alldrei bregdst i Neydinni; Þvi segir hañ sialfur: Eg em DRottiñ, og þar er eingiñ Hialpari utann eg, Es. 43. Þetta hefur alltijd verid urrædi Guds Barna, ad varpa sier til DRottins med Voniñi og hefr þeim alltijd ordid þad ad blessudu Hvarfi, so sem Syrach segir: Lijtid a Dæmi hinna Gømlu, og merkid þau; Hvør hefur nockurn Tijma til Skamar ordid, sem setti sijna Von til hanns, Syr. 2. Þeir þrijr Sveinar i Babylon lietu kasta sier i Elldinn, fyrr eñ þeir skylldu tilbidia þa gullegu Lykneskiu, þar þeir vonudu uppa Gud, sem gat frelsad þa af Elldinum, og þo hønum kynni ecki þocknast þad, villdu þeir samt a hann vona, Dan. 3. Af þvi ad Moyses setti sijna Von uppa þad Osynilega og Okomna, veigradi hann sier ecki vid ad yfirgiefa þa Egyptalands Fiesioodu, og þola Omak med Guds Folki, Ebr. 11. Um Abraham, Fødur Trwadra, skrifar Paulus: Ad hann hafi trwad uppa Von, edur i Von (þeirri sem Gud kiennir, ad trwa hañs opinbera Ordi, jafnvel þo vier siaum

um þar einginn Lijkinde til) þar sem einkis var ad vona (eptir mannlegu Skynt og Lijkendum) þa hann trwdi þvi ad Gud mundi eptir sijnu Lofordi giefa sier Son af Sara sinni Hustru, hversu sem hanns og hennar Lijkami dæinn var, vitandi þad fyrir fullann Sann, ad hveriu sem Gud lofadi, þad var hann mættugur ad giøra, Rom. 4. Þetta segir Postulinn skrifad sie, ecki hanns, helldur vor vegna, so vier hier af lærum ad vona a DRottinn, fram yfir þad sem vier siaum edur skyniun, so vier vonum þess, sem vier siaum ecki Veg til hverninn giørast kunni, enn Guds Ord avijsar þo ad giørast skuli, vel ad skilia, þeim adþreyngda Trwada skuli i allri Praut Hialp veitast af Gudi, med einhveriun Hætti sem heilsusamlegur sie, so hanns Þreinging fai farsælann Enda i hagkvæmann Tijma. Blessadur sie Gud, sem giefur oss ad meiga vona og gieta vonad uppa sig i allri Neyd. O! Hvad mikid hefur þessi Von, sem Gud og hanns Andi giefur, fram yfir hina sem einsømul Natturan verkar med sinni Skynsemi. Þessi

mannlega Von hefur mørgum Skada unnid; Su gudlega Von æviñur øllum sem vid hana sier støduglega hallda, eilifa Arfleyfd a Himnum.; Sw mannlega fellir Manninn i Vijl og Orvænting ad lyktum; Su gudlega vidriettir hann fallinn, og færir til Hollustu Rosemdar, þvi hun er þad Atkier, vid hvert vier meigum Ohultir liggia, i øllum Freistinga Stormi og Sorga Straumi, þa þetta Atkierid nær Stadfestu i Dypi Guds Myskunar Fyrirheita. Hun er sa Hiaalmur Hiaalpræþisins (Eph. 6. 1. Thess. 5.) undir hverium vier holpnir erum fyrir Ovinanna Araasum, jafnvel midt i þeirra Araasum. Hun er sa Stolpi, sem a sialfum Gudi er rootfestur, og kañ þvi ecki upp ad slitna. J Mootgangnum reyniſt beſt og þeckiſt Voninn, þvi þegar vel geingur, hyggium vier oſs sæmilega styrkva, og finnum lijtid til vors Vanmattar; Enn þegar Neydinn tekur til ad þreingia ad fyrir Alvøru, þa hefur vor Von opt og tijdum lijtid meiri Krapt eñ riwkandi Lios-Skar; Velldur þeſsu ad a Gledinnar Tijma var Voninn ecki so grund-

grundvølluð at Gudi, sem at Skiepnunum, edur sialfsum osß; Enn þegar Gud lætur þær snwa vid osß Bakinu, edur tekur þad fra osß, edur lætur þad smanlega bregdast osß, sem vier annadhvert framyfir hann, eda jafnt hønum, settum Vonina uppa, þa lærum vier ad þeckia, hvilijk sie sw rietta Von, sw,vel ad skilia, sem festir sig a einum Gudi, og ecki ødru enn þvi sem i hønum er. Hitt sem þar fyrir utan er, meigum vier ad søñu þiggia, þa þad veitist osß, og eigum ad þiggia med Packlæti, enn ecki treysta uppa þad, edur leita Hugar-Hvijldar i þvi, helldr lata þad vijsa osß Veg til Skaparans, og hanns guddomlega Trwskapar, sem þrælega lætur rekiast wr vorum Raunum, bædi fliootara og betur enn vier ætlum; Hvad, nær vier reynum a sialfum osß, þa meigum vier vita, þad vera stakt Opacklæti og stoora Synd, ad reingia hanns Fyrirheit, sem eru eintomis Sannleikur; Enn hañ hefur þessu fyrirheitid, øllum þeim sem setia sijna Von uppa hann, og i Voninni bijda hanns: Eg em hia þier i Neydinni, eg

 vil

vill þier þadann wtryckia, og þig vegsam-
legañ giøra, Ps. 91. Þu HErra JE-
su Christe, sem ert vor Von (1. Tim. 1.)
Lat þinn Sannleiks Anda styrkia, hel-
ga og efla vora Von til þijn, so vier giet-
um af hreinu Hiarta, i styrkvum Anda
andvarpad til þijn i allri Neyd, i Lijfe
og Dauda: Þo þu DRottiñ deydir mig,
skal eg samt vona a þig, Amen.

# 10. Capituli.

Hvar fyrir Gud stundum undann-dragi sijna Hiaalp i Krossinum.

PAd er naudsynlegt Heilrædi, sem Da-
vid leggur oss, þa hann seger; Bijd þu
DRottins, vert hughraustur og Oefad-
ur, og bijd DRottins, Ps. 27. og twij-
tekur hann i so fa-ordri Grein, ad bijda
DRottins, þvi honum þykir so mikid a
þvi rijda, vissi og ad Guds Børn mundu
þurfa a þvi ad halldа; ad bijda DRott-
ins, bijda eptir hanns Bænheyrslu og
Hiaalpar-Tijma, jafnvel fra eirni
Morgun-Vøkuñi til añarar. Þvi Gudi
þocknast ecki alltijd ad bænheyra oss str-

ax

ar sem vier sørum ad bidia, helldur lætur hann oss stundum leita og ænlja so og so leingi, ædur enn vier Hiælpina sinnum; Og er þa ecki annad Rand fyrir oss; enn þetta sama sem David giefur i nefndum Ordum, ad bijda DRottins, bijda hanns Tijma med Hiartans Kirrlæti i þolinnmodri Von (Es. 30.) og so vier gietum þetta þvi betur, þa skylldum vier þess minnast: Ad Gud neitar ecki um Hiælpina, þo hann hana undann dragi, helldur geymir hana til annars hentugri Tijma, so sem hann segir: J þægann Tijma bænheyrdi eg þig, og a Hiælpræðisins Degi hiælpadi eg þier, Es. 49. Og þvi hefur hann laitid sijna Vini opt a þessum Undanndrætti kienna: Strax sem DRottinn kalladi Abraham fra Ur i Chaldæa, gaf hann honum Fyrirheit, um Sædi og Afkomendur, Gen. 12. sem hafdi eiginnlega Upptök sijn i Jsaak, (hvern Paulus segir eptir Fyrirheitinu fæddann, Gal. 4. (enn ecki fæddist hann fyrr enn 25. Arum þar eptir, Gen. 21.) Ecki er ad efa, ad Joseph hefur heitt og þrætt kallad til DRottins i Fangelsinu, þo

mætti hann biida eptir Utlausninni, til þess ad þriu Ar voru lidinn, Gen. 41. Hier mæ þad vera sem Obrygdull Grundvøllur þessa Mals, ad med þvi Gud er sæ ædsti Viisdomur, þa giorir hann þetta ecki (helldur enn annad) fyrir utañ Viisdomsfullar Ordsaker, hveriar þo vier skamsynir Menn kunnum ecki alltiid ad þeckia, siist allar, meigum vier samt vita, ad þær muni vera samkvæmar ødrum hanns Vegum, æ hverium hñ leidir siin Børn, hverier ad eru, eptir Davids lioosu Vitni, ecki utann Myskun og Sannleikur, Ps. 25. Eñ einkum kunnum vier þeinkia uñ þessar eptirfylgiandi Ordsakir:

1. Dregur DRottinn undann siina Hiælp og Bænheyrslu til þess, ad vekia upp fyrir oss vora Vangæ og Uggleysi, i þvi, ad vier so opt undaundrøgum vora Ydran og Yfirboot. Gud hropar i Eyru vor, og hroopar hvad eptir annad, i og af siinu H. Ordi, ad vier skulum giora Ydran, þvi Himnariiki sie nælægt, Matth. 4. læta af illu og læra gott ad giora, Es. 1. Enn vier lætum þetta þrælega þiota

sem Vind um̃ Eyrunn. Hann kallar til vor, og vier svørum hønum ecki. Hvad er þa ad undra, þo hann læti oss hropa oss mooda og undanndragi sijna Bænheyrslu? Þar fyrir, ef þu villt ad Gud hradi siñi Hiælp, þa hrada þu fyrst þiñi Yfirbot. Ef þier þikir þrwngt ad biida leingi eptir hanns Hiælpræðis Svari, þa mættu hugja, ad hønum sie Stygd ad þijnum Ydrunar Undanðrætti. Vilierdu ad þinn himneskur Fadir opni sijn Nædar Eyru fyrir þinni Bæn, þa vill hañ þu opnir þitt Hiarta fyrir sijnu Ordi, og lætir þad hiæ þier Stad finna og Yfirbot verka, so mun hann þijnu Angri lietta, og læta alla Þraut þiena þier til hins geda.

2. Vill Gud med Undanðrættinum reyna hvad Trwar-styrkver og Vonargoder vier erum, sem valla siest fyrr enn Angistar-Dagarnir taka til ad fiølga. Siælfur veit hann þetta vel fyrirfram̃, þvi hann veit allar vorar Hugrenningar æleingdar, Ps. 139. þad er, laungu ædur eñ þær uppstijga i vorn Hiarta, eñ vier erum oft veikare og Ostødugre enn

 ad

vir ætlum, og þvi vill hann vier komunst ad Raun um þetta, so vier þar afleidunst til ad leita þar ä Botar, hiä honum, sem er Trwarinnar Uppbyriari og Fullkomnari, Ebr. 12. og ad bidia mz Födr þess Tungl-siwka: Eg trwi Herra, enn hiälpadu Trwar-Bresti mijnum, Matth. 17. og so höfum vier þä i Abatann, af Undandrætti DRottins, blessada Trwar-Eflingu oss til Stadfestu i Gudi.

3. Lætur sä alvijsi Gud Bænheyrsluna bijda stundum til þess, ad giöra oss heitari og alvarlegri i Bæninni, þvi vier erum optlega so kalder, ad Bærar-Hitinn nær ecki ad gagnverma Hiartad, nema þad smelltist um Tijma i Eymdanna Ofni: Oss er ecki alltijd nogur lijtill Stundar-Jlur af Krossinum, vier þurfum þess vid, ad hann vidvari nockurn Tijma, þvi segir DRottinn: Eg vil giöra þig wtvalinn i Ofni Fätæktarinnar, Es. 48. Eda er ecki Von ä þvi, ad vor HErra vilie, ad vier leggium oss alla til ad bidia hann um vorar Naudsyniar, so allt hvad med oss er og hann hefur oss giefid, sie samtaka i hanns Dijrkun, enn

O.

Dedli Syndariñar i voru daudlega Holdi giorir hier so stora Hindran, nema Gud læti Neydina naudga samann øllum vorum Kroptum til hañs Dijrkunar og Akalls.

4. Undann dregur Gud Hiælpena til þess ad hun verde oss þvi miñesstædare, og ad oss þike meira til hennar koma, þvi þad sem vier faaum fliott, þvi er hætt vid, vier gleimum fliott, og epter þeirre Neidenne munum vier leingur, sem leingur at oss læ. So lærum vier af þessu, ad þeckia bæde oss sialfa, hvad veikir og vanmattuger vier erum, oss til Audmyktar fyrir Gude, lijka Gud, hanns Vijsdoom og Trwfeste, so vier leidunst til ad treysta hønum, ottast hann og elska. Gud vill og vera sialfrædur sinna Adgiørda vid oss, og ecke læta fyrirskrifa sier nockurn Tijma edur Mæta, hvønær eda hvørneñ hann skule bænheyra og Hiælpena auglijsa. Þad a oss noog ad vera, ad hañ vill bænheyra oss i þægelegann Tijma, og a Hiælprædesins Deige hiælpa oss, 2. Cor. 6. Og þarf ecke ad efa, ad sa Tijme, sem hønum er þægelegur

legur til ad bænheyra hann, og ei annar, er oss hentugur Hiælpræðes Tijme, og þad sem oss er hentugur Tijme, er hönum þægelegur Tijme. Þetta sem hier er nu talad, og hvad añad þess hattar, sem ein upplijst Sæl kann sier i Hug ad leida, ætte ad setia vort Hiarta i Kyrd og Spekt til ad bijda DRottens og hñs Hiælpar Tijma i øllum Þrautum, og so mun æ oss rætast, þad Esaias talar til Israels Barna: Ef ad þier værud kirrer, þa yrde ydur hialpad, og fyrir Kirlæted og Vonena munud þier ofluger vera, Es. 30. Þu HErra JEsu, i hverium øll Guds Fyrirheit eru Jæ og Amen 2. Cor. 1. Læt þinn Anda hiælpa vorum Vanmætte til ad bidia so, leita og æknya, bijda og vona i allre Þreingingu, ad vier uñ sijder fæum ad medtaka alla Naudþurfta Uppfylling, vid eilijfa Fullnægiu æ Himnum, fyrir þijns Nafns sakir, Amen.

# II. Capitule.

DRottenn leggur eige meira æ oss enn vier kuñum ad bera.

Þversu

HVørsu nærgiætenn ad sie Mañanna Høgum sa goodfwse Gud, awijsar oss Postulenn Pall, er hañ seiger: Gud er trwr, sa ei uñlijdur þad, ydar sie freistad fram yfir þad þier formeiged, helldur giører hann þa Ending a Freistingunne, ad þier gieted þad þolad, 1.Cor.10. Hier alyktar Postulenn, ad Gud mune ecke lata siin Børn reinast yfir Megn, og þessa Alyktan giører hann af Ohræranlegre Astædu, sem er Guds Trwskapur, og er þetta eirn Eigennlegleike Guds, hønum sam-eilijfur, þad so leinge sem hann er Gud, þa er hann trwfastur Gud, þad er, fra Eilijfd til Eilijfdar. So ef vier Hug-sykiunst i vorum Mannraunum, af vorum Vanmætte og Ostødugleika, vorum Syndum og Overdugleika, þa meigum vier aftur Hugstyrkiast vid þad, ad hann mune þo vegna siins Trwskapar sia til vor i Nad sinne þar sem vier snwum oss til hanns, og hølldum oss vid hann, med ydrande audmiwku og einfølldu Hiarta. Þessa Trwfeste Guds nefner Postulenn i ødrum Stad (2. Tim. 2.) styrkva

Grundvallan Guds, sem hafe þad Innsigle: DRottenn þecker sijna. Nu ef hñ þecker sijna, þa þecker hann og veit hvada Krafta þeir hafa af hønum þᴂd, og gieta af hønum þᴂd, til ad bera Krossenn, og þad veit hann best ad samañ vigta Krossens Þwnga vid vora Krapta, ad þeir verde ei af hønum uppvegner, helldur ad þeir uppvege hann ad Lyktum. Hver skyllde nær gieta Høgum vorum, enn hann, sem oss hefur giørt, og allt giefed oss sem vier hefum. Þegar þu, minn JEsu, gafst mier fyrst-christenna Mañа Heite, og lietst mig nefnast epter þijnu Nafne, þa utmælltер þu strax allar mijnar Rauner, hvad sárt þær svijda skylldu, hvad leinge þær vara skylldu, epter þvi sem þu sialfur þeckter Asigkomulag mitt, andlegt og natturlegt, þar uñ er eg viss, eingenn kuñe þad so vel ad tempra sem þu, er allann mig giørt hafder. Og so giører Gud vid sierhvørt siña Barna, ad þeim leggur hann uppa þijngre Kross sem meira bored gieta, hinum minna, sem fyrir minna færer eru., þvi alldrei skal nockr Lækner so nakvæmlega

lega tempra Lœknis-Domenn epter Siwkdoome þess Veika, sem sa mikle Grœdare Pioodanna, af skamtar Kross-enn epter Hogum sinna Barna. Og ef einn Akur-Madur hefur Giœtne a þvi, ad utvelia hverre Tegund Aldinaña sinn vissañ Reit i Akrinum, og siidañ laga siin Verkfœre epter misjofnu Asigkomu-lage Avartanna; Hvad miklu framar mun sa mikle Akur-Madur, almattugur og alviis Gud, laga siin Akuryrkingar Verkfœre, Mootlœtingarnar, epter þvi sem hann sier, ad best hagar hveriu Aldene fyrir sig, i hanns Naadar Akre? Þessa gietur Esaias: Hvørt plœger eda eriar eda erfidar eirnenn Akurkallenn med jafnade sinn Akur til Korn-Sœdes? Er ei so, ad nær ed hann hefur giørt hann jafn sliettann, þa dreiser hann Vichen og kastar Kumene, og saaer Hveitenu og Biggenu, einu sierhveriu i þad Plaats sem hann vill hafa þad, og þær adrar Grasa Jurter i sitt Plaats, liika so agar þa og þeirra Gud med Dome og mentar þa: þvi Menn þreskia ecke Viched med Preskingar Verkfœre, og lata ei Vagn-Hiol-

ed

ed gánnga yfir Kumened, helldur beria þeir af Kumened med Prike, og Vidhed med Staf, lijka soagar þa og þeirra Gyrd med Dome. Soddan skier eirnen af DRottne Zebaoth, þvi hans Rád erdásamlegt, Es. 28. Spámadren seiger, ad Gud age þa mz Dome, þvi lijka sin eirn sangiarn Domare nidrleggur allan Málsins Vert, mote og med þeim ákiærda, so han sijdan kune riettvijsan Dom á leggia, so nidrleggur hin alvijse Gud, (sin hier þvi nefnest Gud Doomsins, Es. 30.) Krossens Biturleika og Kraptana Styrkleika, metande hvad miked hvør eirn bored giete, hvad mikels vid þurfe, hvad hentugast sie fyrir Sál og Lijf. Valla er neckur náttúrlegur Fader so Onærgiætenn, ad hann legge sijnu Barne meira fyrir, en hann þeinker þad mune gieta af Stad komed, edur ef þad fær þvi ei orkad, sem hann hefur þvi fyrir sett, þá hialpar hn þvitil siálfur. Hvad skulum vid þá, Sála mijn, þeinkia um Fødur Mysk-unsemdanna? Hann hefur lijkt siinum Kiærleika til vor, vid Fødur-Kiærleika (Psalm. 103.) og þo lijst þvi, ad hann

yfir gænge jafnvel Moodurlega Kiær-
leiks Nakvæmd (Es. 49.) Viijst giørum
vid hønum Oriett, ef vid þeinkium ecke
þad um̃ hann, ad viijst mune hañ Kroßs-
enn tempra epter ockar Veikleika, og i
hønum læta sinn Kraptfullkomnast, 2.
Cor. 12. Sælarennar Kraptar til ad
bera Kroßenn eflast best med gudlegre
Huggun og Nædar Svølun; Nu seiger
Paulus: Hann sie Gud allrar Hugg-
unar, 2. Cor. 1. Pad er hann ei einasta
af þvi, ad øll Huggun kiemur fra høn-
um, so hver sem huggast vill, hann mæ
huggast i Gude og af Gude, fyrir JEsum
Christum, so þar er eingenn Huggun
nema af Gude; Helldur og lijka fyrir
þad, ad hann er fws til ad veita alla Hug-
gun, þad er, so rijkuglega og margfallda,
so længvinna og øfluga Huggun, sem
hanns Børn þurfa, til þess ad Huggun-
inn yfirgnæfe Hrigdena; Pvi seiger Da-
vid: Margar Hrellingar hafde eg i mijnu
Hiarta, enn þijnar Hugganer gløddu
mijna Sælu, Psalm. 94. Edur: Ept-
er Margfiøllda minna Hrellinga, glød-
du þijnar Hugganer mijna Sælu. Eñ
ecke

ecke man þad koma oſs fyrir Okuñuglega, þo Hørmungarnar kunne ganga nærre vorum Kreptum, ſo Vøtnenn reñe inn ad vorre Saalu. Vor hørdu Hiertu kunna ecke añars ad mykiaſt, og bleitaſt fyrir Gude, til ad naa Hreinſun af Endeme Syndanna. Soolſkyned þiker ad viiſu elſkulegt, enn ef þar være æfarande Solſkyn, mundu þau þurru Akur-Londenn ſlott uppviſna, ſo munde og lijka Akur vors Hiarta uppviſna Vonum bræ̈ndara, af æfenlegu Medlætes Solſkyne, nema Hørmungaña Duñu Sky rinnu yfir, þeſs æ̈mille. Eg vil þä, miñ æ̈ſtrijke JEſu, varpa mier ølldunges under þijnar Hendur, uppä þijna Hiartgrona Mykun og Trwfeſte, i fullre Von, ad þu muner vægia mijnum Veikleika, æ̈lijta mijnar Naudþurfter, og æ̈ Hiaalpræ̈deſins Deige aflietta mijnum Hørmungum, ſo eg kuñe epter þetta ſorgfulla lided Lijf, æ̈ſamt þijnum Børnum med Lijfe og Saalu, Huga og Maale, prijſa þijnar Daaſemder, og gledia mig i þier, uiñ allar Allder, Amen.

* * *

# 12. Capituli.

## Um̃ Polennmædina i Krossinum.

POlennmædiñ er ydr naudsynleg, seig-er Postulenn, so ad þier giøred Guds Vilia, og eignest Fyrirheited, Ebr. 10. og er af þessum Ordum ad ræda, þad vier kunnum syrir utann Polennmædena hvørke ad giora Guds Vilia, nie naa Fyrirheitenu, edr þeim himneskn Giædum, sem oss eru fyrirheitenn i Guds H. Orde, fyrir JEsum Christum. Guds Vilia kunnum vier ecke ad giora an Polennmædennar, þvi þetta er eitt af hanns Vilia, ad vier sieum þoleñmoder, so sem Christur seiger: Eignest ydar Sailer i Polennmæde, Luc. 21. og þo vier stundudum allañ annañ Guds Vilia enn sleptum þessum hiaa, um̃ Polennmædena, þaa uppfilltest aa oss þad Jacob seiger: Þo ad einhvør hiellde allt Løgmaaled, og brotlegur yrde i einu, þa er hñ þegar alls þess sekur, Jac. 2. So kunnum vier ecke helldur ad faa Hlutdeild i Fyrirheitunum an Poliñmædiñar, þvi þau eru øll sierilagi, sem tilheyra þeim

motlættu og krosspiadu, gefiñ med þeim Skilmala ad Meñ sieu þoliñmoodir; Þvier. Polennmædenn sw Braut, utañ hværrar ad eingenn Vegur Fyrirheitaña liggur, þo er þad ecke sagt hier med ad Guds Nadar Fyrirheit i Christo JEsu tilheyre einasta þeim sterkustu, helldur hitt: Vier kunnum ecke ad ødlast þau, utann vier æstundum Polennmædena, og berum oss ad og leitunst vid, ad vera so þolennmoder sem kuñum, fyrir Guds Hialp og Adstod, hveria hann verdur þo og sws ad veita oss, epter þvi hann heimtar hana af oss, og veit best, ad vier tøkum hana ecke af sialfum oss, enn kunnum þo ecke aan hennar ad feta þann Hornunga Veg, hañ hefur fyrir oss lagt inn i sitt Rijke. Oss er lijka næsta skylldugt ad lijda med Poleñmæde hveria Tiptan Guds, þvi alldrei kiemur sw Typtan oss ad Høndum, ad vier høfum ei forþienad hana, Jæ, adra miklu meire, med vorum Syndum, fyrer Gude: Skylldum vier þa ecke vilia þola þau Sær, sem vier sialfer høfum veitt øss? Og ad vijsu mættum vier med Þøckum

taka

taka hvorium Kroſse, ſem Gud oſs uppa leggur, og þacka hønum fyrir þau Náðar Byte, ad hann fyrir ſo miwkt Fødur Hrys, frijar oſs fra eilijfu Reide Straffi; Og til þeſs bendir oſs Poſtulinn Paull: Vier verdum af DRottni typtader, uppa þad vier fyrirdæmmunſt ecke med Heimenum, 1. Cor. 11. Ef þu villt Guds Barn vera, þa mattu elſka Gud, vilier þu elſka hann, þa hlijtur þu og ſo ad elſka og ydka Þolennmædena þvi hañ er Gud Þoleñmædennar, Rom. 15. og Chriſtur leggur þad øllum fyrir, ſem vilia vera hanns Læreſveinar, og i hønum Hlutdeild hafa, ad þeir take ſinn Kroſs uppa ſig, Matth. 15. ſem ſkiedur med Þolennmædenne, og ecke utañ heñar: Þeinktu þvi, kiæra Guds Barn, og ſeig med ſialfum þier, hvønær ſem Kroſſenn ad þreinger, eins og Job ſagde i ſinne Neyd: Eg veit minn Endurlauſnare lifer, og hann mun hier epter uppvekia mig af Jerdunne Job. 19. og uppfylla a mier ſitt Fyrirheit, ſem hanns bleſſade Munnur giefed hefur, øllum ſem a hann trwa, til lifande Huggunar:

Ef nockur vill mier þioona, hann filge mier epter, og hvar eg em, þar skal og minn Þienare vera, Joh. 12. Hvad er Kroß og Mootlæte Guds Barna? JEsus nefner þad sætt Ok, og lietta Byrde, sem æ-vinne Endurnæring og Sælarennar Hvijld, Matth. 11. Enn vor forblindada Hollds Skynseme hefur hier um̃ adra Meiningu, og ælijtur Krossen̄ fyrir eintomes Olucku, og metur þæ, sem hann bera, þær Oluckusemustu Manneskiur, og þvi þurfum vier þess hættar Holldsins Skynseme ad taka til Fanga under Christi Hlijdne, 2. Cor. 10. so vier lætum hanns Ord og Urskurd meiga hiæ oss meira, helldur en̄ ram̃villta Doma Hollds og Bloods, hvørs Sinne er Fiandskapur gegn Gude: Rom. 8.

Eingenn kienner þier, christen̄ Sæla, so vel hvørnenn þu skallt Krossenum taka, sem þin̄ Frelsare JEsus, bæde med Orde og Epterdæme; hann hefur lided fyrir oss, og oss eitt Epterdæme epterlæted, ad vier skylldum filgia han̄s Footsporum, 1. Pet. 2. Seig þvi i þijnum

Krosse, sem hann i sinne Pijnu: Fader ei hvad eg vil, helldur hvad þu villt. Þa mun hanns og þinn Fader svara þier: Ottastu ecke, eg em med þier, Es. 41. eg em hia þier i Neydeñe, Psalm. 91. Lætum oss þeinkia til þess sem vier daglega bidium i vorre Drottennlegu Bæn: Helgest þitt Nafn, til kome þitt Rijke, verde þinn Vilie. Hier ma hvert Ord miña oss a Polennmædena: Vier bidium ad Guds Nafn helgest medal vor, eñ þad skiedur best i Hørmungunum, ef vier lijdum þær med Polennmæde, þvi þa lærum vier einkum ad þeckia Guds Heilagleika, Trwfeste og Dæsemd, þvi seiger David: Pad er mier liwst, ad þu hefur lijtelæckad mig, so eg lærde þijn Riettende, Psal. 119. Vier bidium Guds Rijke kome til vor; Guds Nadar Rijke eflest best i oss i Hørmungunum, þvi þa giesum vier H. Anda lidugast Rwmed i Hiartanu; og til Guds Dyrdar Rijkes under bwunst vier med Mootlætenu, þvi talar Ritningenn so tiidt þar uñ, ad Mootlæted giefe, verke, leide epter sig Frid og Glede i Dijrdeñe. Vier bidium

 hañs

hanns Vilie verde ; Eñ þad er hanns Vilie ad vier giegnum margar Hørmungar iñgaungum i Guds Rijke, P. G. B. 14. og ad vier eignuuſt vorar Sæler med Þolennmæde, ſem fyrr var ſagt. Þvi ſkylldum vier þa vera ſo ſævijſer, ad brioota þad nidur med Verkenu, hvers vier bidium med Munnenum! Ef vier med Ohþolennmæde meglum moote Gude, þa ſkødum vier oſs ſialfa, og meigum ſamt lijda; Þvi Ohþolennmædeñ ſtigger Gud og egner hañ til ad herda Straffed; Hun ſvipter Hiartad allre Rooſeme ; Hun giører Byrdena þyngre , enn hun er i ſialfre ſier , ſo þar er valla ſo liettur Kroſs, ad hann ecke verde þeim Ohþolennmooda ſo nær ſem Obær, þvi er hardt ad bakſpirna moote Broddunum; Gud er ſa ſem ſærer og græder, deyder og lifgar; Þetta er hanns Magt , ſem er yfir øllum Hlutum a Himne og Jordu, þo brwkar hann hana alldrei nema i Raad vid ſijna Elſkendur: Og þvi er Rædeð beſt, ad audmykia ſig under hana, med Þolennmæde, ſem er ein hofud Prijde allra Kroſsberenda ; Hun blijdkar Gud

og

og lockar hann til nædugrar Asiatr, hun helldur Sælu og Hiarta vid sanna Roosemd i Gude, midt i øllum Sorganna Bilgium, hun eider Kroßens Særendum og giører hann lietta Byrde, so þar er eingenn Hørmung so striid, ad Polenmæden fæe hana ecke sigrad, þvi hun er eirn Guds Kraptur i trwadre Sælu. O! hvad Oseigianlega naudsynleg er þa Polennmæden! So vier giørande Guds Vilia, ødlunst Fyrirheited. Eñ þu mikle Polennmædennar Gud, vægdu voru Pol-Lyndesleise, og lattu þijns Ords Krapt vera so rijkann i vorum Hiørtum, ad vier fyrir Polennmæde og Huggun Ritninganna høfum Vonena, Rom. 15. og i heñe stadfaster blijfum allt til Enda; Bænheyr þad fyrir vors þolennmoda Frelsara JEsu Nafns Skulld, Amen.

## 13. Capituli.

**Um Polinnmædina og hennar Dæmi hia þeim Heilogu.**

EItt þad sem vel kann ad styrkia oß i Polinnmædinni, er, ad hugleida heñar

ar Dæmi hia Guds Vinum, þvi hvad sem skrifad er, segir Paall, þad er skrifad oss til Lærdoms, so vier fyrir Þolinnmædi og Huggun Ritninganna høfum Vonina, Rom. 15. Hvers vegna Jacob Postuli aminnir oss, segiandi: Takid mijnir kiærir Brædur, til Eptirdæmis, Spamannana Kvalir og Þolinnmædi, þeir til ydar hafa talad i Nafni DRottins, siaed, vier prijsum þa sæla ad vera, sem lidid hafa. Þolinnmædi Jobs hafid þier heyrt, og Ending DRottins hafid þier sied, Jac. 5. Þar af siaum vier, ad Sorginn og Gledinn verda giarnann samfara hia Guds Børnum i Heimi þessum, Sorginn Mootlætinganna og Gledinn i Gudi. Job sagdi i sijnum þrøngu Raunum: Gud gaf og Gud burt tok, sie hanns Nafn lofad, Job. 1. og er hier ad merkia, ad þessi Guds Vinur ecki einasta, møglar ecki i Oþolinnmædi, helldur og prijsar hañ Gud, ecki einasta fyrir þad, hann gaf hønum, helldur og fyrir þad, hañ tok aptur fra hønum; þvi so eiga Ordinn hier ad skilast, ad hñ prijsar Gud fyrer hvørutveggia, og gyrn-

ist ad Gud hafe Lof af þvi ; Og sūnarlega a Gud ad hafa Lof fyrer øll sijn Verk, so vel fyrer þad hañ særer oss, sem þad hañ græder oss, þvi hvørtveggia giører Gud til ad auglijsa sijna Dijrd a einhvern Hatt: Og so fastar Skordur setur Job, vid sitt Hugskot, ad ei til Oþolgiædes og Møglunar skeike, fra gudlegum Vilia og Radstøfun, ad hañ er reidubwinn, ecke einasta med Poleñmæde ad lijda Misser Eignaña, Misser Barnanna, Missir Heilsunnar, helldur og þar a ofañ ad afleggia Lijfid, þa Gud vilie, þvi segir hann sijdar: Þo þu DRottinn deydir mig, skal eg samt vona a þig, so sem nockrir wtleggia hanns Ord, Job. 13. og þo adrir Utleggendur Ritningariñar hafi þetta nockud med ødrum Ordum, ma Meininginn vera vidlijk, þvi Job segir strax þar eptir (v. 16.) Hañ mun og minn Hialpari vera. Þegar þeim þremur Ebræsku Sveinum, Anania, Misael og Asaria var kastad i þann glooandi Ellds-Ofn i Babylon, søgdu þeir til Kongsins: Vor Gud, sem vier heidrum, gietur vel frelsad oss af þeim

gloognndi Ofni, þar ad auk eirninn frelſ-
ad oſs af þinni Hendi, og ef hann vill þad
ecki giøra, þa ſkalltu ſamt vita, ad vier
heidrum ecki þijna Gudi, Dan. 3. Og
Ofuſins Elldur grandadi þeim eckert, og
ei ſvidnudu þeirra Høfud-Haar, þvi Eng-
ill DRottins ſtood hiaa þeim midt i Ell-
dinum, ſo þeir wtgeingu þadann heilir,
alleinaſta brunnu af þeim Fiøturinn.
Þetta maa kienna oſs, ad DRottinn er
hiaa ſijnum Elſkendum i allre Neyd og
Hanſkaſemdum, ſo midt i Neydiñi ſkad-
aſt þeir ecki af Neydinni, einaſta fortær-
aſt Synda Bondinn af þeim, ſem voru
þeim til Hindrunar aa Lijfſins Vegi.
Þegar Stephanus var grijttur i Hel,
þa bad hañ fyrer ſijnum Ovinum, og foel
Gudi Saalu ſijna, ſaa ſo Himininn opiñ,
og JEſum ſtanda til Fødur ſins hægri
Handar, P.G.B.7. Lærdu Guds Barn
af hanns Dæmi, ad hefia þijn Trwar Au-
gu til Himinſins i allre Þreingingu, ſo
mun JEſus ſyna þiñi andlegu Sioon, ad
Himiniñ ſtandi opiñ Saalu þiñi til friaa-
lſrar Iñgaungu, hvenær ſem hier vid
ſkilur. Eitt er þo Dæmi Polinnmæd

iñ

innar friidast og fullkomnast allra, sem er Dæmi vors Frelsara JEsu, hveriu hann sialfur fyrir oss liisir, oss til Uppvakningar, fyrir Esajæ Munn, segiandi: Eg hiellt mijnu Baki til þeirra sem mig sloou, og mijna Kinn-Vanga ad þeim, sem mig reittu, mijna Asioonu byrgda eg ecki fyrir Forsmaan og Hrækum, og eg hefi mijna Asioonu frambodid sem añan hardann Stein, Es. 50. Þvi lijka sem hardur Steirn, edur Tinna, kann ecki audvelldlega af neinu Jaarni ad tælgast edr heflast, so kuñu aungvar Pijslaña bitru Tegunder ad buga JEsu Þolinmædi, eingver Belials Becker, nie Guds Reidi Bylgiur ad undirþryckia: Med þessari sinni Osigrandi Þolinmædi hefur vor signadi Medalgangari bætt Gudi fyrir Oþolinmæedinnar Syndir, og afrekad oss hiaa hønum Þoliñmædinnar Gæfu. Hun er og so eirn lifandi Kraptur til ad locka oss og lada til Þolinmædinnar og styrkia oss og vidhallda i henni. Þetta muntu, christiñ Saala, reina aa sialfri þier, ef þu venur þig sijfelldt til ad hugsa, med Gudrækni, um

Polinnmæde þijns Frelsara, sem Guds Ord leider þier fyrer Siooner, i hvøriu Footspore hañs Lijfs Frañgaungu hier a Jørdu. Og er þvi Polennmædenn sw Forn, sñ aller Guds Heilager hafa honum offrad, af hvørri hañ hefur og hvervetna luktad sætañ Ylm, þvi hañ er Polinnmædinnar Gud, Rom. 5. sem hana elskar, og heñar krefst af øllum þñ, sem hann vilia elska. Hun er sw Roos, sem uppver medal Þyrna Sorganna, og þar sem adrir Þyrnir hindra Urtanna Vøxt i krijngum sig, þar eflist þessi Roosinn, þessi frijda Himinsins Urt, sem af himneskri Dœd plantast hier a Jørdu i Akri trwads Hiarta, hun eflist, seigi eg, af Sorganna Þyrnum, so sem Pæll Postuli seigir: Ad Hørmungarnar verki Polinnmædi, Rom. 5. Hun er þad JEsu Merki, sem hans andlegir Strijds-Meñ borid hafa, og under hvøriu vier strijda eigum, og høfum so Sigurinn vijsann; Þvi seigir Jacob: Polinnmædinn mun stadføst blijfa allt til Enda, so ad þier sieud fullkomner og algiørdir, og i aungvu Brest hafed, Jac. 1. Enn Opoliñmædiñ,

þa

þa hun fær Rad og Yfirhønd, drepur Christinndomsins Dygdir, og innleidir sauruga Panka i Hiartad, Þvi sa sem hatar Læknarans Hønd, þo honum finnist hans Handa Tiltektir sarar eda Medolinn beysk, hann skadar siálfan sig, og er hætt vid hann fari a Mis vid Heilsuna. Sa Ooolinnmoodi vill eingann Kross hafa; En þar sem eingin Kross er, þar er væntannlegt Andvaraleysid, sem formyrkvar Hiartad og er Drep-Sott i vorum Christinndomi. Enn þar sem Krossinn er, uppvekur hann Bænina, þar sem Bæninn er, þar opinberar sig JEsus fyrir Sálunni, og þar sem JEsus er, þar er med hønum allshattud Blessan andleg himneskra Giæda, Eph. 1. Enn ef Gud þyrmir þier fyrir utvortis Krossi, so þessi Leyni-Taumur kann ei ad draga þig fram eptir Lijfsins Vegi, þa lat þessa Guds Godgyrni giora þad, og tak ei ad sijdur Krossinn uppa þig, med þvi ad krossfesta Holdid, þeinkia sijfeldt um þann pijnda og krossfesta JEsum, og hafa i Asetningi ad taka Krossinum med Polinnmædi hvenær sem hann

koma

koma kann, og þa virdir DRottinn þad so sem þu bærir Kroßinn eptir hønum. Til þessa hiälpa þu oß øllum HErra JEsu, og giefdu oß med Þolinmædi ad sigra, i þijnum Krapte, allar Þrautir, so ad vier Lijfs og Lidnir heidrum þig og prijsum, þu sem ert verdugur ad meðtaka Krapt og Rijkdom og Vitsku og Styrk og Æru Prijs og Lof ad eilifu, Amen.

# 14. Capitule,

Allri vorri Ahyggiu skulum vier varpa uppa DRottinn.

Þad er harla naudsynlegt Heilrædi sinn David, i Guds Umbodi leggur oß: Varpa þu uppa Drottinn þinni Ahyggiu, og mun hann Umhyggiu fyrir þier bera, Ps. 55. og hefur Petur Postuli ijtrekad þessi Ord a Nija Testamentisins Tijmum, 1. Pet. 5. þvi Gud sa hversu þetta var a øllum Tijmum oß Mønnunum Omissanlegt. Hier er talad umm Ahyggiuna, so sem eina þwnga Byrdi: og verdur hun þannig mørgum, sem ecki hafa

Sinnu

Sinnu at þvi, ad varpa heñi uppat DR-ottinn, helldur beriast vid hana siałfir, og gieta þo aldrei riettir undir heñi stad-id, þvi þar til eru vorar eiginn Herdar nærsta veikar; Enn hann kann hana vel ad bera, sem ber alla Hluti med Orde siins Kraptar, Ebr. 1. Hann er og þar til hinn fwsasti, og þvi hefur hañ giørt oss þad blessada Nadar Tilbod, ad vier skylldum varpa þessum Þwnga uppat sig: Enn þeir meiga siałfum sier uñki-enna, sem þad Nadar Tilbod Ovirda, þo þeir fai ei Hluti þeirri tilbodnu Nad, þvi Uñhyggiuna vill hann fyrir oss bè-ra, med þvi Mooti, ad vier henni uppat hann vørpum, og høfum vier af hønum Bodord og Leyfi, ad varpa uppat hann, ei nockrum Parti Ahyggiunnar, edur sumu þvi, sem oss þiakar og vill giøra oss hugsiwka, helldur øllu, allri soddann Byrdi, hvilijk og hverslags vera kann: Allri ydar Ahyggiu varpid uppa hann, segir Postulinn. Færdu þier þa christ-inn Sała, þetta til Nota, og varpadu med Trwnni, Voniñi og Bæniñi uppat þinn himneska Fodur allri, þiñi Sor-

ga-Byrdi, Siukdoms og Vanheilinda, Fatæktar og Lanleysis, Lijfs og Dauda: Hann einn sier best fyrir øllu þessu. Vier vitum ad sønnu ei, hvern Enda fat kañ þad og þad Rauna Hlutskipti vort; Lætum oss nægia, ad hann veit þad, sem hefur wtvalid þad oss til Handa, og þad vitum vier, ad allir Hlutir þiena (ad Lyktum) til goda þeim er hañ elska, Rom. 8. og ad allir hanns Vegir eru ei utann Giædska og Sannleikur, þeim ed hanns Sattmaala og Vitnisburdi geima, Ps. 25. Eñ þo vier meigum og eigum ad varpa vorri Ahyggiu Byrdi uppa Drottiñ, þa er þad ecki Meininginn, ad vier skulum soleidis fra øllum Pwnga frijast, þvi vier erum kalladir til þess, ad bera Hita og Þunga Dagsins, og þad er ecki neitt nijtt, þo þu, christiñ Saala, meigir þar undir sveitast, þvi vorir Brædur, sem i Heiminum eru, hafa samslags Piningu lidid, 1. Pet. 5. og þar ad auk hefur vor Frelsari þennann Veg undann oss geingid, þa hañ bar sijna allra saarustu Kross og Kvala-Byrdi, og vill þvi hafa Sam-Pijning med sijnum krossþiadu Born-

Børnum, og vidbiarga þeirra Veikleika; eins og Paulus segir, ad Andinn hialpi vorum Breyskleik, Rom. 8. liettir undir med oss, tekur uppa sig undir eins og hann leggur uppa oss, og ber sialfur þad mesta, enn lætur oss bera þad eina, sem fyrer hans Naad megnum, þvi aungvann lætur hann uppgefast undir Byrdinni, þvi eg vil endurnæra þær þreittu Sælir, seger hann, Jer. 31. og sedia þær Sorgbitnu Sælir: Þad gior-ir hann fyrst med þvi, ad innhella sijnum endurnærandi Naadar Krapti til vorrar Sælar, henni til Styrkingar, og sijdann, med þvi ad lietta af oss Þwnganum, þegar hanns Tijmi er kominn. Og med þvi vier høfum slijkt Fyrirheit, þa giørum vier oss sialfum illt, eñ hønum Oriett, ef vier ecki vorpum uppa hñ vorri Ahyggiu, eins og vier sieum sialfir full-sterkir hana ad bera, vier sem ei megnum ad giøra eitt svart Hær hvijtt a voru Høfdi, ellegar ad hañ sie Brygdmæll, og endi ecki þad hann hefur lofad, hversu sem vier meigum þo þræsiñis reina þad a oss sialfum, ad hann er trw-

fast-

fastur, i þessu sem øllu ødru, og lætur oss rata wr Naudinni fyrr enn oss vardi, og ødruvijse og betur maㅡske enn vier meintum. Samt erum vier skamsijnar Manneskiur, so sinnulitlir, ad vier giørum oss marga oþarfa Mædu, og sykiunst i Huga, yfir þvi sem vier ecki þurfum: Velldi þessu vor Trwar og Vonar Brestur. Leitum oss þa lijta enn giør til JEsum, þess Uppbyriara og Fullkonnara Trwarinnar, Ebr. 12. Hañ er þitt Høfud, þu trwada Guds Barn; enn þu hañs Limur, þvi Gud setti hann Høfud Safnadarins, Eph. 1. Nu ef Høfudid sorgar fyrir Limunum a Lijkama vorum og þeirra Vellijdan, so sem þad kann best ad skie, eptir þvi sem Gud hefur tilsett þad i Natturunni: Hvad miklu framar skylldi hann þa, sem Gud hefur sett Høfud Safnadarins, sorga fyrir sijnum Limum, og sierhverium einum þeirra, sem ordinn er eirn Andi med hønum, 1. Cor. 6. Hafi Gud sied sinn Son i hañs Pijnu, þa hann giørdi hañs Riettlæte Fullnustu fyrir oss alla, þa kann hann ecki annars enn sia til þijn, sem ordinn ert

hañs

hanns Sonar Sam-Erfingi, Rom. 8. Nær þu undir hanns Forþiennstu Skiöli flijr at hanns Nædir, og leitar þier Lids hiä hönum, bidiandi med David, ja med JEsu: ORottinn vertu ei fiarlægur, minn Styrkur, skunda þu mier til Hiælpar, Ps. 22. Vijst mun hann þa svara: Hier em eg, Es. 65. Þu ert miñ dijrmætur Sonur, og mitt elskulegt Barn, þar fyrir sundurbrotnar mitt Hiarta til þijn, so eg hlijt þier myskunsamur ad vera, Jer. 31. Þessu hefur hann fyrirheitid, nu eru øll hanns Fyrirheit so sem Oriwfañlegur Eydur, og ef Mañaña Eydur er Endir allrar Þrætu, Ebr. 6. miklu framar mættu þa Guds Fyrirheit vera Endir allrar Efasemdar hiä oss, hvad þvi framar skiedur, sem vier helldur ihugum þä miklu Myskun og Goodgyrni Guds, sem so mikid yfirgnæfir, allt þad vort daudlega Hiarta kañ um hana sier ad iminda, sem Gud sialfur ersllum skøpudum Skiepnum meiri. Þvi segir ORottinn; So miklu meir sem þad Himininn er hærri enn Jørdinn, so eru eirninn mijnir Vegir hærri enn ydar

Vegir og mijnar Hugsanir, enn ydar Hugsanir, Es. 55. Enn þo eitt veikt Hiarta kunni ei alltijd ad formerkia, so rijkuglega Endurnæringu, Gledi og Hugsvølun i Gudi, sem þad oska villdi, þa meigum vier alltijd þeckia þad fyrir stora Naad, ad vier saaum afþreid vorar Rauner, an Mistraustis og Orvinglunar, þvi þad er þo hanns Giædsku Kraptur, sem þannig vidhelldur oss, og þar med eigum vier þa ad vera ænægder, eins og DRottinn sagdi til Pals, þa hn̄ bad, ad Andskotans Engill mætti fra sier takast: Lat þier nægiast mijna Naad, minn Kraptur fullkomnast i Breyskleikanum, 2. Cor. 12. þvi þad Ord mai alldrei bregdast: Sælir eru Harmandi, þvi þeir skulu huggadir verda, Matth. 5. og mættum vier þvi i allri Hørmung tala til vor sialfra sem David: Hvar fyrir ertu, Saala mijn, so Sorg-full, og ert so Oroo i mier? Vona þu a Gud, þvi eg mun hønum enn Packir giøra, þviad hn̄ er Hialpari mijns Andlitis, og minn Gud, Ps. 43. Af øllu Hiarta vil eg, minn blessadi Jesu, bædi i Gledi og Sorg,

hallda mier nalægt þijnum Kroßi, med hverium þu hefur helgad allann Kroß, so eg læri i Gledinni, þa þu annst mier hennar, ad hafa Andvarann a sialfum mier, og i Sorginni, med Þolinnmæd- inni og Voninni ad giefa mig fanginn undir allann þinn Vilia, so segia kunni sem þu: Ei hvad eg vil, helldur hvad þu villt; Full-treystandi þvi, ad hversu sem þessi minn Lijfs-Vegur kann slitrottur verda af Sorgunum, þa muni eptirfylg- ia annar Vegur, fagur og frijdur, hvar allt hlær a mooti, og allur Harmur hefur Enda, vid þad gledilega Lijf hia þinn hægri Hendi, hvers þijn Naad og Forþienusta unni oß øllum, eptir þetta stundlega Lijf, Amen.

## 15. Capituli.

Um̃ þaa riettu Guds Hialpar-Stund.

NOgu berlega hefur sa Sannleiks- fulli Gud lofad, og margsinnis itrek- ad þad sitt Loford i sijnu H. Ordi, ad ve- ita Hialp øllum Naudstøddum, sem hanns Hialpar leita, og uppa hañ vo-

 na,

na, at Veginum hanns Riettinda, Es.
26. Enn hvergi hefur hann fortakslaust
lofad, ad giera þad alltijd edur auglijsa
alltijd Hiælpina, æ þeirri somu Stun-
du, sem vier vilium tilmæla, helldur hef-
ur hann sagt: J þægann Tijma bænhe-
yrda eg þig, og æ Hiælpræðisins Degi
hiælpadi eg þier, Es. 49. þad er ad skilia,
þa hanns Vijsdomi er þægilegt, þa hañ
sier þad oss hiælpsamlegt og heilnæmt
Hiælpina ad byggia, sem ei er alltijd,
þa vier ætlum edur vilium, helldur tijdt
og opt, þa vier sijst tilhyggium, og oss
synist sem Ovænlegast æhorfa. Gud
giæfi vier giætum latid hañs Tijma ve-
ra alltijd vorn Tijma, i þeirri Von, ad
hañs Hiælp muni oss ænægia, hvenær
sem hun auglijsest, og hanns Hiælpar
Stund muni oss sw heilnæmasta, hve-
nær sem hun kiemur. Ein Joodsiwk Ko-
na veit ecki æ hverri Stundu, hun muni
leysast fra sijnu Fooſtri, þo skiedur þad
optast, þa Jodsottar Hrijdirnar eru hv-
ad hardastar; So er þad og Guds Bør-
num, þa þeirra Hørmunga Hrijdir eru
sem strijdastar, er DRottiñ hvad nærst-
ur

ur med sijna Hiœlp. Þar fyrir, þegar Krossinn liggur a þier, skylldir þu þeinkia, ad sw þijn Hrygd skal vijst a hentugum Tijma snwast i Fegnud, eñ þañ Tijma attu Gudi ad fela og þar i hønum eckert fyrirskrifa. Þad þarf ecki ad vera i nockri Giet-Gatu, ad sa trwfasti Gud er so nærgiætinn Hegum siña Elskenda, ad ei mun hann innihallda fyrir þeim Hiœlpinni, þegar hann sier vort Astand þolir þad ecki. Þad siest af Dæmi Israels Barna: Vijst mattu þau uñ Tijma stynia undir Egyptalands Prældomi, og bijda eptir Frelsinu þar fra, enn þegar þau voru wtgeinginn og Pharao med øllu sijnu Herlidi ellti þau frañ ad Hafinu Rauda, so þau høfdu þa eckert Undañfæri, Herinn var ad Baki, enn Hafid i fyrir, þa droo Gud sa almattugi, ecki undann sijna Hiœlp, heldur auglijsti hana, so sem bædi Flootrædur og Good-rædur Naudhiœlpari, þar hann sundurklauf Hafid, og leiddi sitt Folk þar i giegnum, enn dreckti þar Pharaone og øllu hanns Herlide; So leidir sa sami Gud sijn Børn giegnum

Haf Hørmunganna, eins og giegnum eirn uñgirdtann Veg. DRottinn liet sterkann Austann-Vind ummþurka Hafid, so Foolkid gieck þurrum Footum þar yfir. Guds H. Andi, sa Vindblær, siñ med sijnum lifandi Hugsvølunar og Hialpar-Krapti, þerrar og færann giorir Guds Børnum Krossins Veg, ad þau þurrum Footum þar yfir ganga: Hañ leidir þau so giegnum Haf Hørmungaña, ad Hørmungarnar skada þau ecki; Giegnum Torfærur Hauskasemdaña, so Hauskinn snertir þau ei, allra sijst fordiarfar: Giegnum Straunia Freistinganna, so þau skeika ei, og eru i øllu þessu hoolpiñ i sijnum Gudi og Heilsugiafara; og þo erum vier opt og tijdum so lijtil-trwadir, þegar vier siaum Motlætingaña Bylgiur hefia sig mooti oss, ad vier verdum vidliika til Sinnis og Lærisveinarnir fordum a Sionum, er þeir hropudu upp Vonar-ljtler um sitt Lijf, HErra! Hyrdir þu ei um þad, ad vier forgaungum? Mar. 4. Enn vier ættum ad þeinkia, ad hann, i hvers Hendi allir Hlutir standa, er ecki leingi ad stilla Storm og Sio all-

rä

ra vorra Rauna, so sem David segir: Þu drottnar yfir þeim Olgufulla Sio, þu stillir hanns Bylgiur, nær ed þær upphefia sig, Ps. 89. Þegar mañleg Hiælp er þrotiun, og vier siaum eingva Hiælp fyrir Augunum, þa er Hiælp og Huggun til reidu hia hønum, sem er Jsraels Huggunar-Traust og þeirra Naudhiælpari, Jer. 14. þad er, eirn þvilijkur Hiælpari, sem hiælpar, þegar øll ønnur Hiælp þrijtur. Ef Gud auglijsti sijna Hiælp i fullum Krapti, strax i fyrsta Ahlaupi Hørmunganna, þa mundi hun eins fliott gleymast oss, sem hun veittist oss, og vier mundum ecki alltijd mikid Lof edur Packlæti þar fyrir wtleggia. Af øllum Tijmum er þad almættugum Gudi eins audvellt ad veita oss sijna Hiælp, þvi hønum er einginn Hlutur torvelldari, enn annar, og hønum er eckert Ord Omættugt, Luc. 1. Enn hanns Almætti giørir eckert, nema þad sem samkvæmt er vid hañs Vijsdom og Heilagleika, og þvi vill hann ei læta oss fævijsar Manneskiur fyrirskrifa sier neirn Tijma, þad væri stoor Ofdyrfd fyrir oss ad

 sia

ætlast til þess, ad sa mikle Gud skylldi ek wtvelia Tijmann til sinna Verka meir eptir sijnum Vijsdomi, enn vorri Fakiænsku, meir eptir sinni Dijrd, enn vorri Gyrnd. Pad man so til vor segiast; Ydur her ecki ad vita (ei helldur ad wtvelia) Tijma og Stunder, hveriar Fadirinn setti i sialfs sijns Valldi, Post.G.B. 1. Allt hefur sinn Tijma, segir Pred. 3. Daudlegir Menn hafa sinn Tijma til Hialpar, þo vallttur sie, og a medann sa Tijmi stendur, latum vier giarnann vorn Tijma vera, ad leita oss Hialpar hia þeim og ødrum Heimsins Mønnum, og þriotast um med eiginn Kroptum og Skynsemi, an þess maskie ad hefia vor Augu til Himnanna, hvadann øll Hialp kiemur sem a Jordu skier, og a medann soddañ Tijmi afgeingur, plagar sa Alvijse Gud, ad draga sijnar Hialpar Adgiørder i Hlie, þar til vier lærum ad þeckia vort og Heimsins Daudleise, Enn sem þessi Tijminn er a Enda, þa kiemur Guds Tijmi, til ad leida i Lios sijna Hialp, þvi Guds Vijsdom og Heimsins Ysirlæti kañ alldrei sam-

ánu að forlijkast, þvi hanns Veger eru ei sem vorir Vegir, Es. 55. Vier kollum ad sonnu til Drottins i Neydinni, enn maaske þar leini sier, i Dypi vors Syndum-spillta Hiarta, nockurt Traust a sialfum oss og Heiminum, kannskie so heimuglegt, ad vier sialfir merkium þad ecki so fliotlega, og hier fyrir faum vier stundum til Andsvars uppa vorar Bænir til Guds: Mijn Stund er enn ecki kominn, Joh. 2. Þess skylldum vier og giæta; Ad þad sem vier veikir og fakiænir metum Undanndratt Hialparinnar, þad er hia Gudi Flijtir Hialparinnar, so þar sem oss sijnist, ad Hialpinn komi med seinasta Moti, þar kiemur hun med fyrsta Moti, er þad skie kann, oss heilnæmlegt, þad fyrsta vier kunnum hana riett ad þyggia, og oss til Nota færa.

Af þvi sem nu er sagt, ma ad nockru leiti sia, hvornin Undanndrattur Guds Hialpar, er vier so nefnum, kiemur vel samann vid hanns dijrmæta Fyrirheit: Þad skal skie, ad fyrr enn þeir kalla, vil eg svara, medann þeir eru enn nu ad tala, vil eg heira, Es. 65. Fyrirheitid synir oss

eiginnlega Gied-Giædsku, sem hann hefur i sialfsum sier; Enn Undanndrættur-inn bendir ofs til Ordsakanna, sem hann hefur af vorri Hælfu, til ad fresta sinni Hiælp, so hier er ecki hin minnsta Røskun Guds Sannleika, helldur gudleg Samstemma milli hanns Sannleika og Vijsdoms, milli þessa Fyrerheitis og Bænheyrslu, annars er þ ad ecki vort, ad utgrunda Guds Vegu og Eiginnlegleika, helldur hitt, ad giefa hønum Dijrdina, vitandi alltijd, ad DRottinn er Riettlætur i sijnum Verkum, Ps. 145. Enn þu himneski Meistarinn til ad hiælpa, HErra JEsu! virdstu æ hentugum Tijma, ad unna ofs Sorganna Liettirs, og æ hentugum Tijma ad af-þerra lokſins øll vor Sorga-Taar med eilijfri Gledi, Amen.

## 16. Capituli

J Krofsenum skulum vier bidia Oaslætanlega, og ecke þreitast.

Þær er eingenn Naudþurft til, Lijfs nie Sælar, ad ecke sie Bænenn eitt

hid

hid besta Urrœde, og hvad Urrœde, sem vier annad brwka kunnum, mœ þvi Bœnenn alltijd med vera, til ad farsœla þad, þvi seiger Postulenn: Bidied ynduglega i allre Naudþurft, Eph. 6. Þeir sem ferdast vilia Landa a mille, hlioota a Skipum ad ferdast; Vilium vier giøra andlega Reisu, af þessu Daudlegleikans Lande, inn a Land Lijfsins og Hiælprœdesins, þa kunnum vier ecke ødruvijse þangad flytiast, enn a Bœnarennar Skipe. Enn Krossenn er sa Farmur, sem leggiast skal a þetta Skip, þvi til Stødvunar; Hafed, sem þessu Skipe fleiter, er Guds Barna Hiartans Tœar, edur audmiwkur Ande: Mastred i Bœnarennar Skipe, JEsu Kross Trie, edur hanns Pijna, sem hann leid a Krossenum; Segled, sem hanger vid þetta Mastur, Trwenn a JEsum; Vindurenn sem i Seg led blœs, heilagur Ande, sa himneske Vind-Blœr. Og þa vort Bœnar Skip er þann Veg utbwed, verdur Ferdenn vissulega farsœl upp fyrir Fødur Lioosana i Himnenum, og finnur þar øpna Høsu Dhultrar Rosemdar i Guds

Myskun

Myſkunar Skaute, hvar þad legſt vid Akker Bænarennar, at medann Kroſſens Farme er af liett, og aptur a þad lagdur Farmur Guds Nædar og Hiælpræd-ës, med hvørn Farm ad Skiped helldur ſinn Veg til baka. Og æ þeſſare Reiſu, fram og til baka, ſkal vort Bænar-Skip hallda, þar til um̃ ſijder þvi verdur til Flunns raided æ meigenn Lande himneſkrar Fullſælu, ad af liettre allre Kroſs og Sorga Byrde. Brwdgumenn ſeiger i Lof-Kvædenu: Læt mig heyra þijna Rauſt, þvi þijn Rauſt er ſæt, Lof-Kv. 2. Þetta er Bænar Rauſt trwadrar Sææl-ar, og er audheyrt, ad grætleg Bæn, er ëirn fagur Saungur fyrir Gude i Himnënum, af hverium hann gledſt, og lijka hanns Englar. Til þeſſa Bænar Saungs vill hann uppvekia oſs, med ſinne Fødurlegre Hyrtingu, ſem miked vel kienner oſs ad bidia, þvi þad heiter ſo: J Neydenne kølludu þeir til þijn, Eſ. 26. Neydenn uppvekur Bænena, Bænenn hefur i filge Bænheyrſluna, og Bænheyrſlann Anægiuna i Gude. Oſeigianlegann Krapt hefur trwud Bæn, ſo

Chriſt-

Christur sialfur seiger trwudum sie allt mogulegt, Marc. 9. Trwud Bæn yfir vinnur þañ almættuga, þvi Bæneñ og Trwenn eru þau Bønd, sem hann vill ecke af sier slijta, og kann ecki af sier ad slijta, fyrir þad ad hann, vegna sijns mikla Sannleika, og Myskunarfullrar Trwfeste, kann ecke ad brygda sijn Fyrirheit sem uppæ þad standa, ad sæ bidiande skule bænheyrast af hønum, so sem hann seiger: Bidied og mun ydur veitast; Og enn: Hver sem bidur, hønum veitest, Matth. 7. Eñ skule Bænenn so mikels orka, þæ hlijtur hun naudsynlega ad framkoma af einu, fyrir sanna Ydran, i JEsu Bloode, hreinsudu Hiarta, so vier þurfum ecke til Andsvars fæ: Þo þier bidied margfalldlega, heyre eg ydur ecke, þvi ydar Hendur eru fullar af Bloode, Es. 1. Af einu trwudu Hiarta, þvi an þess er Omogulegt ad þocknast Gude, Ebr. 11. Af alvørufullu Hiarta, so vier ecke nalægunst Gud einasta med Vørunum; Og so eirneñ af adgiætnu Hiarta, so Bænenn biggest æ Guds Orde, og leite ecki annars, nie med odru moote, eñ

leif-

þad leiser. Pad er sin Diørfung, siñ vier hofum til hanns, ad ef vier bidium nockurs epter hanns Vilia, þa heyrer hann oss, 1. Joh. 5. Ein Kross þiad Saal, kynne a þennañ, edur vidlijkañ Hatt ad andvarpa: Eg kryp nu, ad þijnum Nadar Dyrum, DRottenn miñ, og uppa klappa, æ! Lattu þijna miklu Guddoms Giædsku sannast a mier voludum og þursande; þu hefur losad ad bænheyra mig, seigiande: Akalla mig i Neydenne, og eg vil frelsa þig, Ps. 5. þvi akalla eg þig nu, i þvi Trauste, ad eige muner þu, minn JEsu, brigda vid mig, þitt Orivsanlega Stadfestingar Amen, þar þu seiger: Amen, Amen (þad er, vissulega vissulega) Hvørs þier bidied Fødurefi i mijnu Nafne, þad skal veitast ydur, Joh. 16. og þo minn Overdugleike sie mikell, muntu samt meir meta þinn Guddomlega Sannleik, ecke muntu setia hann i Ved, med Þvi ad fravijsa mæddre Skiepnu þinne, sem flwenn er a þijnar Nader. Avi minn HErra, þu veitst all Hlute, skulz eg ecke uppgiefast under mine Byrde, þa þarftu, eilijfe Myskunar Bruñ-

ur,

ur, ad rietta mier þijna Hiaalpar Hønd. Þu hefur siaalfur, ad fyrra bragde, aa-fijstmig ad leita þijn, og sagt: Þier skul ud mijns Andlites leita, þar fyrir leita eg nu þijns Andlites, æ! lææt mier þad ad Hiaalprædes Hvarfe verda, og upp-fylltu aa mier Myskunnar Fyrirheitenn, sem wtgeingenn eru af þijnum blessada Munne.

Omøgulegt er, ad hann mune ecke til mijn, sem er Giafare Minnesins, skyllde hann ecke sia sem Augad hefur skapad? Sa sem Eyrad plantade, skyllde hann ecke heyra? Psalm. 94. Ecke gietur þad skied, ad mijn Andvarpan sie forsmaad fyrir Gude, þar hun er af hañs Anda i mier verkud, og af hanns Syne, mijnum Arnadar Manne, JEsu, uppflutt og frañborenn. Alldrei verdur nockurt Andvarp forgiefens sendt fyrir Gud, ad þad ecke eitt hvad gott afreke, nær þad wtgeingur af trwudu og froomu Hiarta. Eñ giæt ad þvi, mijn Saal, ad þig vante ecke Trwna og Vonena, þo Gud kunne ad fresta Bænheyrslunne, bid þu DRottenn og vertu hughraust, Ps. 27. Þo

Satan, Hollded og Heimurenn hæde ad þier og einangre þig, lat ecke af fyrir þad, ad upphefia þinn Bænar-Staf, og sla hønum a þa himnesku Hialpræde-sins Hellu, 1. Cor. 10. Setier þu fyrir þig þinn Overdugleika og Synder, þa vit, ad þu hefur þvi meire Naudsyn a, þier ad leita Hialpar, hia Fødur Myskunsemdanna, fyrir hvertum hanns eigenn Sonur hefur giørt oss hæfa til Arfskiptes heilagra, Col. 1. Giete Tungann ecki talad, þa heyrer Gud ecke einasta Tungunnar Raust, helldur og Hiartans Gyrnd þeirra saktæku. Segul-Steirnenn dregur Staaled ad sier, enn miklu betur færtrwud Bæn ad sier ladad JEsum, og hønum hia sier halldeb i allre Neyd. Þar fyrir gleymdu þvi ecke, christenn Sala, ad upphefia Munn og Augu, Hendur og Hiarta, Saal og Sinne til DRottens i allre Neyd; Hañ gledst þa, er hann heyrer þig og sier til sijn kalla, mun þvi aptur gledia þig, so sem David seiger: Haf þijna Unadsemd i DRottne, og mun hann giefa þier hrad sem þitt Hiarta heilsusamlega gyrnest, Psal. 37.

DRott-

Drottenn miñ JEsu, virdstu fyrir þijn bloodugu Piislar Saar, ad stijra minne Bæn og efla hana med þijnum Anda, siñ er Ande Bænarennar, so þo mijn Sorgar Raust þike læmgsom hier i Heime, þaa meige hun samt ad lokum snwast i eilijfa Glede Raust hiaa þier aa Himnum, Amē.

# 17. Capitule.

Um̄ þaa sierleguſtu Huggun i Krossenum

MEdal þeirra Otelíande Huggunar Greina, sem Guds Ord frammvijsar þeim sorgfullu, er ein sw, sem vor Frelsare hefur sialfur med eigenn Muñe talad: Sæler eru þeir sem harma, þvi þeir skulu huggader verda, Matth. 5. Harmande Guds Børn eru fyrir Heims og Hollds Augum næsta audvirdeleg, þvi Holld og Blood kañ i Sorg og Harme ecke añad finna eñ einsamla Ogiæfu og Vidbiood, eñ ad sialfs Sannleikans Vitne, eru þau þo sæl, sæl fyrir Gude, sæl i sinne Saalu, sæl midt i Sorgunum, jafnvel aadur eñ þau niota Huggunarennar, bæde af þvi, ad þar med lijkiast

þau JEsu Jmind, og læra ad meta lijt-
els þad forgeingelega, enn leita med
heitre Hiartans Gyrnd þess oforgeinge-
lega, lijka fyrir þad, ad þau eiga Hugg-
unena vijsa i Voniñe, so framarlega sem
þau i Poleñmæde bijda DRottens.
Alldrei hrigger Gud so sijna, ad hañ ecki
hugge þa sijdañ, hañ særer, og hanns
Hønd læknar, Job. 5. Hañ hrigger þa
til þess, ha̅ kunne ad hugga þa og gled-
ia i sier, þad er til þess, ad þeir verdi med-
tækeleger fyrir þa Huggun og Glede,
sem er i og af Gude, þvi þeir sem eru glad-
er og Angurslauser, hafa ecke Huggun-
ar Þørf, helldur enn heilbrigder Læknar-
ans Þørf. Menn kuña ecke ad hella
Vijne i þad Ker, sem ædur er fullt, helld-
ur hitt sem tæmt er; So kann ecke Guds
Ande ad iñhella sijnu Huggunar Vijne
i þad Hiarta, sem fullt er af stundlegre
Glede, helldur þad, þar af tomt var.
Ecke er þad ad sonnu til viñande, ad fa
Saar a Lijkamann, edur lijda Bein-
Brot, so Madur kunne fiña Krapt Lækn-
ersdoomsins, þoi optast er betra heillteñ
groed; Enn þvi er ødruvijse vared um
Hiart-

Hiartad, ad bera i þvi Sorgar-Saar um̃ Tijma, er meir enn viñande fyrir þaa bleßsudu Hugsvølun, sem Gud allrar Huggunar dreyfer sijdann yfir þad sorgfulla Hiarta, sem ecke liet af þvi, ad leita hanns Hiaalpar, þvi Sætleike Gudlegrar Huggunar maa laangt yfirgnæfa øll Sorganna Saarende. Ecke kuña adrer ad uppvekiast, eñ þeir sem dauder eru, þvi eingenn kann ad lifga þaa sem eru lifande; so kunna ecke adrer ad huggast af Gude, enn þeir sem eru sorgande, þvi saa sem er fullgladur, hann veit ecke hvad Huggun er, og hefur eckert Rwm handa henne. Hvers vegna medañ Heimurenn er ad gledia og kiæta, geimer Gud sijna Huggun hiaa sier, og utfleiter heñe sijdann, þaa Heimurenn tekur til ad iñehallda siñe Glede, eñ wtausa Ovilldeñe.

So hefur þad laungum tilgeinged, ad Guds Børn meiga fyrst erfida hier, berande Hita og Þwnga Dagsins, og sijdann faa Hvijldena þar, þvi Hvijldareñar Hreß[illegible]ng finna ecke nema þreitter, og so skal Sorgenn avinna Guds Bornum Gledena, Vanvyrdann Sæmdena,

Strijded Sigureñ, og Erfided Roosemdena. Hier uppa er Job merkelegt Dæme, sem øllum Kross-þiadum Guds Børnum a til Huggunar ad þiena; Hann plagadest um Hryd, af saarustu Eymdum, sem sagt er ad varad hafe um Siø Ara Tijma, eñ þar epter naut hañ Farsælldar og Vellijdunar um Hundrad og Fiorutiju Ar, og hafde ecke einasta eins mikla Farsælld, og hann nockurn Tijma adur hast hafde, helldur tvøfallda, þvi Gud gaf hønum aptur allt tvøfallt, vid þad sem hann mist hafde, Job. 42. So veiter sa goodswse Gud, ecke einasta einfallda Boot a Naudum sinna Elskenda, helldur giefur margfallda Glede fyrir einslags Sorg, miked rijkuglegre Anægiu, enn Mannraunenn var fyrre, og ef þad skiedur ecke i þessu Lijfe, sem þo stundum skier ad nockru leite, so sem uñgieted Jobs Dæme sijner, þa skier þad i ødru Lijfe; Þar uppfyllest allt hvad hier abrast, þar verda Stundar-Taar af þerrud og uppþurkud med eilijfre Fullsælu, med hverrar tilkomande Fullsælu Uñhugsun og Tilhløckun, vier eigum ad

mykia vort mædda Briooſt i Mañ-Raununum, vitande, ad þar eru alldrei ſo ſmrar, ad verdar ſieu þeirrar Dijrdar, ſem vid oſs mun openber verda, Rom. 8. Adur enn vor Frelſare, Sonur Guds JEſus Chriſtur, ſtie nidur i vort Holld og giørdeſt Madur, var hann harla fws, epter ſijnu eilijfa Guddooms Giædſku Edle, til ad hugga og endurnæra ſijn ſorgfull Børn, enn nu megum vier þo enn viſſare vera uñ hañs Goodfijſe til ad hugga og hiælpa, hveria hann hefur, ecke einaſta epter ſijnum Ouñbreitanlega Guddome, helldur og lijka epter ſijnum upptekna Mañdoome, i hverium hann hefur ſiælfur ſmackad og reynt vorar Eymder, ſo ſem Poſtuleñ ſeiger: Þar fyrir hlaut hann i øllum Hlutum ſijnum Brædrum lijkur ad verda, uppa þad hann myſkunſamur yrde, og trwlyndur Byſkup fyrer Gude, til ad forlijka Folkſins Synder. Þviad i þvi ſem hann hefur lided, og freyſtadur er, þa kañ hañ þeim ad hiælpa ſem freyſtader verda, Ebr. 2. Eingenn hefur uñ Æfe ſitt eiged Holld hatad, helldur fooſtrar hañ þad

og nærer, seiger Paull. Eph. 5. Nu erum vier Limer JEsu Lijkama, af hañs Hollde, og af hanns Beinum. Og ef vier hiwkrum ad vorum Lim, sem er veikur eda sar, so nakvæmlega sem kuñum, og giøraſt mа, hvad miklu framar mun JEsus, sem soddann Rækt og Tryggd mille Limanna a Lijkamanum sialfur plantad hefur, og sijdann giørt oss ad sijnum Limum, hvad miklu framar mun hann þa, seige eg, hiwkra ad oss, so sem Limum sijns Lijkama, og lata i Tie heilnæma Lækningu vid vorum Sarendum? Margur lætur særa og uppskiera sitt Holld, til ad rada Boot a eirnre edur annare Siwkdooms Meinsemd, enn eingenn so, ad hann ecke laate græda þad aptur so fliott sem þad gietur skied, epter þad ad Meinsemdenn er wtdrifeñ. Og mun sa mikle Grædare Pioodanna, sem ad vijsu særer sijna Lime, sijn trwud Børn, til ad rada Boot a þeirra andlegum Meinsemdum ecke sijdur græda sialfur þau Sar, sem hann veitte, þa hann sier, ad þar er Tijme til. Vitium þvi hanns, þegar oss geingur illa, og

seig-

seigium: Kómed, vier vilium til DRottens, þvi hann hefur i sundur slited oss, hann mun og lækna oss, hann hefur sleiged oss, hann mun og græda oss, Hos. 6. Vidkvæm eru ad vissu Sarenn sem vier berum a voru Hollde, so aller Limerner lijda, med þui eina, enn ecke munu sijdur vidkvæm vorum Frelsara Rauna Sarenn hanns Lima, þo þau auke hønum ecke Pijnu samslags og oss, samt eignar hañ sier þau: Hungradur var eg, seiger hañ, þyrstur var eg, etc. Matth. 25. Talande uñ Rauner sinna Barna, og þvi mun hann ecke sleppa þessum Sarendum siña Lima i Vanrækt. DRotteñ þu ert þar vor Verndan og Hialpræde i Neydeñe, Ps. 9. Giefdu oss, þijnum Limum og Børnum, ad þo vier lijdum Harma, ad vier Of-þreingiunst ecke; þo vier kuñum ad efa, ad vier ørvinglunst ecke; þo vier lijdum Offokn, ad vier verdum ecke fyrirlatner, 2. Cor. 4. helldur styrkiunst i allre Praut, og lok sins frelsader fra allre Praut, saum ad nioota gledelegs Lijfs til þinnar hægre Handar eilijflega, Amen.

# 18. Capituli.

Hvernenn Guds Børn skulu hugga sig i moote Heimsins Barna Laste og Ligum.

ÞAr eru tvennslags Flockar i Heime þessum, sem alldrei kunna sijn a mille Eindrægne ad hafa, sem eru Guds Børn og Heimsins Børn; Þesser kuña ad sønnu hafa sijn a mille utvortes Frid i ytre Høndlan og Hattseme; Enn mille þeirra er þo alltijd heimugleg Oeining, i þann mata, ad hvøruger gieta añara Hegdan og Breitne lated sier lynda: Guds Børn hafa Vidbiood a Heimsins Barna Oriettelegu Framferde, og þau þar a moot hata hinna Framferde, og kyma ad þeirra Gudrækne, so sem ødrum þarflausum Hiegoma; Fyrer þessu giører Guds Ord marg vijda Rad, og under eins, ad þeim froomu mune hvervetna brenn verda af þeim hreckvijsu Alijge, Last og Illmæle. David seiger: Ad þeir Ogudlegu astunde Skada ad giøra, og leita falskra Saka mote þm kirrlatu i Landenu, Ps. 35. Eñ þegar Guds Børn mæta nu Alijge og

Aaustre af Heimenum, hvad skulu þau þa tilgiøra? Sannarlega þad, ad snwa sijnum Huga til JEsu, sem Mootmælin̄ þolde giegn sier af Syndurunum, Ebr. 12. Hann sem kom i Heimenn til ad frelsa allann Heimenn fra eilijfum Dauda, var af Heimsins Børnum hatadur, hæddur, lastyrtur bæde a Bak og Briooſt, samt formællte hann ecke i gegn, þa hønum var formællt, eige Ognade þa hann leid, enn hann ofurgaf þad hønum sem riett dæmer, 1. Pet. 2. Soddan̄ Araaser leid vor signade Frelsare til þess, ad sijna hvad hanns Elskendur mundu lijda meiga, hvernen̄ þeir ættu ad lijda og so hann kin̄e under bwa þa til san̄rar Hugprijde i Lijdingunum, þvi ecke er Læresveirnin̄ yfir sijnum Meistara, og ecke Pioonen̄ yfir HErranum, nægest Læresveinenum ad hann sie sem hanns Meistare, og Pionenum sin̄ han̄s Herra. Ef þeir hafa Hws-Fedurenn Belzebub kallad, hvad miklu meir munu þeir þa han̄s Heima-Menn so kalla? Matth. 10. Øllum þeim sem soddann lijda i Guds Otta og Þolennmæde, vill vor HErra

Huggun og Hiaſtod veita, epter ſijnu Fyrirheite: J Heimenum hafe þier Þreinging, enn vered hughrauſter, þvi eg yfirvann Heimenn, Joh. 16. og vid þetta huggar ſig David, ad DRottenn mune ſitt Forſvar vera; Þu hiaalpar mier i fra þvi þraattunarſama Foolke, Pſ. 18. Og þo þetta ſijneſt ſtundum undañdragaſt, og Heimurenn fare ſijnu fram uñ Tijma, þa vitum, ad þetta er ein ſu Hørmung, i giegnum hveria vier hliootum ad gaanga iñ i Guds Rijke, þvi eigum vier med Þolennmæde ad afþreya þennañ Laſtyrda Brimgard. Þvi ad giallda Laſtyrde moote Laſtyrdum, er Oſamkvæmt JEſu Dæme og vorum Chriſtenndoome; Ad ertaſt vid hvert Amæles Orded ſem Heimurenn kann uñ oſs hiala, giefur til kinna Sinneſins Oſtyrk, uppkveiker enn meire Ellд, og eider þeirre dyrmætu Hugarens Rooſemd: Ad giefa ſig ad øllum þm̃ Þvættinge, ſem Madur kann uñ ſig ad merkia er lijtelmannlegt: Adleita Hefnda fyrir allt ſoddañ, er ſkadlegt, þvi þar med tøpum vier vorum Riette hiaa Gude. Hvad

er

er þar annad epter, enn þad eina traustu Urræded: Ad lijda med Þolennmæde, og fela Gude sitt Mälefne ä Hendur? So giørde Christur; Hann ofurgaf þad hønum sem riett dæmer, 1. Pet. 2. So kienner Salomon; Seig ecke: Eg skal launa aptur illt, bijd DRottens, hann mun hialpa þier, Prov. 20. So amiñer Paall: Hefned ydar ecke sialfer mijner elskulegustu, helldur giefed Rwm Reide, þvi skrifad er: Mijn er Hefndeñ, eg vil endurgiallda, Rom. 12. Hvergert þessara meintu þad, ad vier skylldum giefa Hefndena Gude, med þvi ad gyrnast og oska þess, ad Gud hefne ä vorum Ovin, sem margur heiptugur giører þo, af þvi hann finnur hiä sier Vanmætt ad hefna so sin hønum bijr i Skape: Þvi skylldum vier oska Hefndar yfir hønum, fyrir hverium vier eigum ad bidia til Guds um Vægd og Fyrirgiefning, ad JEsu Dæme, enn ecke um Hefnd og Refsijng? Blessed þar er ydur bølva, eru Christi Ord, Matth. 5. og sannlega er vondur Lijge-Munnur miklu framar af oss Aumkunar verdur, eñ Hefndar verdur,

þvi

þvi hann egner yfir sig Guds Oblijdu, þvi illur Munnur mun aungva Lucku hafa a Jerdunne, eirn vondur Illsku-fullur Madur mun utrekenn verda, þvi eg veit þad DRottenn mun Mæleſne hinns fætæda og Riettarfare hinns fatæka fram-filgia, Pſ. 140. Og þo Lijgennar Olldur næe ad brwſa um Stund, jafnvel Fiøllunum hærra, þær meiga þær hiadna ſem Froda þa minſt varer, þegar DRottne þocknaſt ad tala til þeirra: Hijngad ſkulu þid komaſt og ecke leingra, Iob. 38. þær verda þær ad aungvu: Ein annarlegu Børnenn hiadna nidur ſeiger David, Pſ. 18. edur Lijgenn verdur þeim ſialfum til Falls, ſem hana uppſpunnu, ſo ad þeirra Sverd inngæanga i ſialfs þeirra Hiarta, Pſ. 37. edur hun ſnyſt til Sæmdar-auka þeim ſem fyrir henne vard, eins og Allijge Potiphars Kvinnu, fyrir hvøria Joſeph var innſettur i Myrkvaſtofu, ſem honum vard eirn Adgangr til Upphefdar i Landenu. Lat þier þvi nægia, Guds Barn, ad þu hefur JEſum fyrir þinn Trigda Vin, hvørſu ſem Verolldenn ſijner þier alla Otrygd,

og

og vit þig Ohultann under hanns Skiole, so þu mætt Hughraustur seigia med David: DRottenn er medur mier, þar fyrir hrædunst eg ecke, hvad meiga mier Mennerner giøra? Ps. 118.

O! hvad sælli eru Guds Børn undir allri Heimsins Aliigi og Lastyrdum helur enn Heimsins Børn lastandi og lingandi! Þesser þiona Lijgennar Fødur, undir Oblijdu Guds, hañ uñvelltir Rædum Ranngferdugra; Enn hinir þiona Liosanna Fødur, hvers Sannleiki nær so vijdt sem Skijeñ gaunga. Þess er og verdugt ad giæta, ad vid Lastyrdanna Lijdingar giefst Guds Børnum Tækifæri til ad ydka sig i þeirri Edla Dygd Hogværdinni, sem nærsta vel skartar fyrir Gudi, og prijdir Salina i hanns Augliti, þar ed hana þryckist JEsu Mynd, sem sagdi: Lærid af mier, þvi eg em hogvær og lijtillatur af Hiarta, Matth. 11. Eñ þess þarftu christinn Madur ad minnast, þa þu þykist Aliigi mæta, ad þu utbrinier þig med Sakleisenu mot þessu Orva-Flugi, og skylldirdu gaunga i Reikning vid þijna Samvitsku, hvert þu kunnir ei sek-

ür verai þvi sem þu ert lastadur fyrir, og
aństundir so ad giøra þijna Lastendur ad
Lygurum, med lastvøru Lijferni, hvar
med goodur Grundvøllur er lagdur til
farsællrar Sigurvinningar æ øllum He-
imsins Aaustri ad sijdurstu, þvi þad br-
egdst ecki, ad Sannleikans Gud giefur
ad Lyktum Sannleikanum Sigur, og
sijdann afgreidir øllum, sem elskudu og
stundudu Sannleikann i JEsu Christo;
Eph. 4. enn þoldu hanns vegna Lygi og
Hallmæli mz Poliñmædi, mikid Verd-
kaup æ Himnum, Matt. 5. Þess sama
Nadar-Verdkaups uñi sæ Nadar-rij-
ki Sannleikans HErra oss og øllum sij-
num Børnum niotandi verda, fyrir Je-
sum Christum, Amen.

# 19. Capituli.

**Hverniñ Madur skal strijda æ mooti Diøfulsins, Heimsins og Holldsins Freistingum.**

HVer sem hefur nockurn Ovin vid ad
strijda, hañ þarf ad vera utbwinn mz
Vopnum og Verium hønum i mooti.
Par eru þrijr nærsta skiædir Ovinir, sem
hvør

hvør eirn christinn Madur hefur vid ad strijda, so leingi sem hann er i þessu Lijfi, sem eru Diøfullinn, Heimurinn og vort eigid Holld og Blod; Giegn þessum Ovinum duga ei lijkamleg Vopn nie naatturleg Hreysti, helldur meigum vier taka uppa oss andleg Herklædi, ef vier viljum veita þim Motstødu: Þau fær Paulus oss i Hendur med þessum Ordum: Standed umgyrdtir um ydar Lendar med Sannleikanum, og skrijdder Bryniu Riettlætisins; Og a Fotum Stijgvieladir med Utbwningi Fridarins Evangelii. Enn umfram allt, høndlid Trwarinnar Skiølld, med hverium þier kunid wt ad slockva øll elldleg Skeyti þess eitrada Ovinar; Og gripid Hiaalm Hialpræðisins og Sverd Andans, hvert ad er Guds Ord, og bidied yduglega i allri Naudþurft, Eph. 6. Frelsarinn vor segir: Ad sa Vegur sie þraungur, sem liggur til Lijfsins, Matth. 7. Vissulega er hann þraungur af þvi ad þesser skiædu Oviner asækia oss: Diøfullinn, so sem akafur og Illskufullur Stiga-Madur, sem setur sig wt, til ad myrda hvern

þann Vegfaranda, sem hann kann: Heimurinn, sem nidur sockinn er i þvi Vonda, giefur sig i Veginn fyrir oss, ad hindra Ferdina til Fødurlandsins: Holld og Blod letur oss og nidur dregur, og er so sem ein Flækia um̃ vora Fætur, þa þeir eiga ad feta fram̃ a Lijfsins Veg. Hver sin̄ geingur eptir Holldi og Blodi, þad er, sinni syndumspilltri Natturu, hann er holldlega sin̄adur, sem er Fiandskapur giegn Gudi, Rom. 8. og soleidis verdur Guds Bodordum einginn Hlijdni sijnd. Heimurin̄ giørir Menn dramb-sama og siergoda. Diøfullinn innsmeigir Hatri og Sundurlyndi; Hann ber oss i Augu Veralldarinnar Glis, og vors Hollds sætustu Lystir, eptir þvi sem han̄ sier hvern ad vera hellst fyrir giefinn, og bindur oss so med vorum eiginn Bøndum. O! JEsu, þu sem kominn ert ad nidurbriota Diøfulsins Verk, 1. Joh. 3. geymdu mig fakiænann fyrir han̄s Grimd og Vielum, so hann ecki nai ad slijta mig af þinni Hendi, þu sem so dijrt hefur keipt mig, þier til Eiginndoms.

Þegar þesser Oviner hefia sijnar Araas-

rænser; og vilia teigia oss til Syndarinnar, hvad skulum vier þa til giøra? Af siælfum oss erum vier of-veikir, þm̃ i moti ad standa. Þvi vilium vier til vors Hertoga leta; Þad ert þu, HErra Jesu, sem sagt hefur: Akalla mig i Neydinni, og vil eg frelsa þig, Ps. 50. Þo þurfum vier vijst ad leggia þad fram̃, sem vier til høfum, og Gud hefur oss giefid: Til þess hefur hañ prijdt oss med Skynsemi, Forstandi og Frijvilia, ad vier skylldum ecki Adgiørda-lauser liggia undir Armsum vorra Ovina, helldur hafa sijfelldlegann Andvara a siælfum oss, og vakandi Auga yfir voru eiginn Hiarta. Þvi þa vier finnum, ad þar hreifa sier saurugerog syndsamleger Þænkar, þa skulum vier vita fyrir vijst, ad Ovinurinn er farinn til ad egna sijna Viela-Snoru, til ad veida Sælina, og er þa Þørf, ad taka sier fyrer godann Vara, og bwa sig æn Undanndrættar hønum i moti. Eñ ad þvi verdur oss þrælega, ad vier gi efum oss lijtid ad þessum saurugu Þaunkum, og hugsum, þeir skade ecki; Eñ giætum ecki þess, ad þvi leingri Dvøl sem

 þeir

þeir sa i Hiartanu, þess meira Afl sä þeir til Yfir-Radanna; Fær so Ovinur-inn fyrst vorn Vilia til ad sambyckia siin-um Innblæstri, hvad nær hann feingid hefur, þa hefur hann undir eins opnad Veginn fyrir Asetninginum til þess illa, siñ sliott leidir eptir sig Framkvæmdina. Og siidann fer Satan ad byggia uppa Uggleysid og Tilsinningarleisid, so Syndinn komist i Vana, og nái so fullkom-inne Yfirdrottnan i Syndarans daud-legum Limum. Þannig geingur sá slæ-gi Ovinur á eina Troppu af annri med Syndena hiá Manneskiepnunni, og un-dirbiir alltiid þad siidara Mañsins synd-samlegt Tilstand med þvi fyrra: Hier uñ talar Jacob Postuli soleidis: Hver eirn freystast, nær hañ tilteigist af sinni eigiñ Gyrnd og lockadur verdur, og siid-ann þad Gyrndinn hefur gietid, fædir hun Syndina, enn nær Syndinn er full-komnud, fædir hun Daudann, Jac. 1. Þvi er miklu betra og audveldara, ad ut-riima þá saurugu Þanka strax sem þeir ad koma, og standa so i moti fyrstu Upp-tokum Syndarinnar. Þvi leingur sem

vier vid hana leikum, þess sterkari Bønd og þess fleiri Viela-Meskva leggur Satan a vora Fætur. Er þvi Ohultast, ad taka þessi Babyloniſku Smaa-Børn (eg meina illar Gyrnder, medann þær eru enn i litlum Pressa) og sundurbraka þau vid Stein (Ps. 137.) Guds heilaga Løgmaals, sem ecki einasta fordæmir ytri Verkinn, heldur og heimuglega Þanka syndsamlega. Ad vijsu er syndugum Manni Omøgulegt ad veria sig so fyrir øllum vondum Þaunkum, ad þetr ecki kvikni i Hiartanu, eins og ad varna Fuglunum ad fliuga i Loptinu yfir Høfud sier; Og maaskie ecki sie alltijd audveldt ad ntreka vondar Gyrnder strax m3 øllu, enn þær skulu þo dempast ad minsta Kosti so, ad þær fai ecki vort Samþycki, heldur aliijtest ætijd sem eirn Dreka Ungi, sem skiædur verdur ef hann nær ad magnast. Menn kunna ad sønu varna Fuglunum ad hreidra sig i Haari sijnu, eins lijka Syndinni, ad na Hreidri og Umbwnadi i Hiartanu, med þvi Moti, ad hafa þad beitta Sverd Andans, sem er Guds Ord, sier vid Hiartans Sijdu

 bund-

bundid, med stifelldri Ydkun og Umbe-
inkingu, og ad vier giorum vidlijkt og
David, þa hann seger; Eg hefi alla hañs
Doma mier fyrir Augum, og eg kasta ecki
hanns Bodordum frä mier, heldur em
eg flecklaus fyrir hønum, og eg vakta mig
fyrir Syndinni, 2. Sam. 22. Eñ Omiss-
andi er Bæninn i øllu þessu Strijdi. O
minn JEsu! lattu þinn himneska Bæn-
ar Anda vekia hana og verka med mier!
þu veitst best, ad þo Andinn sie reidubw-
inn fyrir þijna Nad, er samt Holldid
veikt, vegna þess syndumspillta O-edlis;
Ecki muntu minn Vanmatt eptirskilia
hialparlausann, nie minn Overduglei-
ka an Myskunar, miklu helldur mun Gi-
ædsku-Kraptur þinn styrkia mig, so veik-
ur sem eg er, til ad na Sigrinum ad sijd-
urstu. Þar er ad sønnu vid ad bwast,
ad i þessu Strijdi gangi til, vidlijka og
optar i lijkamlegum Bardøgum, ad a
ymsa berst, og þo hlijtur annarhvør Sig-
urinn ad sijdurstu, manski sa sem ædur
var um Stund Ofurlida borinn; Guds
Børn fa hier margt Slaged, so þau jafn-
vel stundum hopa a Hæl, og lijda Of-

urefli

urefli i einn edur ødru Ahlaupi Ovinanna, enn Gud, sem er sterkur og megtugur i Strijdi, Ps. 24. stendur hiaa him, og riettir þeirra Hluta, so þo sa Riettlaati rasi, þa verdur hann ecki i burtkastadur, Ps. 37. og nær hann so Sigrinum ad Strijds-Lokunum, hvern Sigur sa blessadi Sigur-Høfdinginn vor JEsus, hefur med sijnum Sigri yfir øllum vorum Ovinum, undirbwid, sijnum Børnum til Handa, og lætur þau eilijflega hønum hrosa a Himnum, hvar til hann virdist oss alla ad styrkia og stidia med sijnum hiaalpandi Krapti, Amen.

# 20. Capitule

Um Guds Naadar-rijka Hiaastod i Krossenum.

HEl svalar sa godfwsi Gud naudstaddre og Naadar-þyrstre Saalu, af þeim Ouppausanlega Hiaalpræde sins Brunni, siaalfum sier, talandi fyrer Spaamannsins Esaiæ Munn: Ottast ecke, eg em mz þier, vijktu ecki, þvi eg em þinn Gud, eg styrki þig, eg hiaalpa þier eirnenn, eg helld þier vid, fyrer þa hægre Høndena mijns

Riettlætis, Es. 41. Siadu hier, riett-trwada Sal, hvad sætur ad DRottinn er, hvorsu æstwdlega hann awarpar oss i þessum Ordum, oss sem þo daglega stig-gium hañ og modgum, oss sem ad sialf-er skøpum oss vorar Hørmungar med Syndenne; Aungvu ad sijdur fer hann nærsta nakvæmlega ad mijkia vorn Harm, med sijnu allra sætasta Avarpe: Hñ vill hier burt-taka fra oss Ottann, þvi hñ veit hvad Huglitler og Kvijda-fuller vier erum i Neidinni, og þvi seiger hann: Ottast ecke; Hann sijner og lijka sterk-ustu Rok til þess, ad vier þurfum ecki ad ottast nie kvijda, seigande: Eg em med þier; Eg em þinn Gud; So sem hann sagt hefdi: Eg er þinn Eigenndoomur, so þu ætt frialst ad færa þier til Nota allann minn ofverrande Goda, þvi allt hvad med mier er, so sem þeim saña Gudi, skal koma þier til Hialpradis og Blessunar, einasta ad þu i Trwnni halldir þier til mijn, og eigi annars; Eg er þiñ Gud, einasta ad þu siert miñ, miñ Þion, mitt Folk, eirn af mijnu Folki. Nu vel! So kieñir mijn Mýkun i Briosti uñ þig,

mijn

mijn Godgyrni hugsvalar þier, minn Vijsdomur upplijsir þig, minn Kraptur styrkir þig, minn Sañleikur og Trwfesti minnist þijn og þinna Naudþurfta; Siertu Veikur og Ostødugur, þa vidhelld eg þier, Ecki ad þu hafir þetta forþienad, edur þu hafir fyrir þessu unnid, ney, þetta giøri eg þier ecki fyrir nockurn þinn Verdugleika, helldur fyrir þa hægri Hondina mijns Riettlætis, fyrir miñ elskulega Eingietna Son, hvern eg gaf þier til Riettlætis og Endurlausnar, hver og hefur mijnu mikla Riettlæti fullnægt fyrir þijnar Ranglætingar. Ad giæti nu Gud-hrædt og trwad Hiarta, hvert nockur Fadir eda Modir kann nockurn Tijma sitt Barn so astwdlega ad avarpa, sem Fadir Myskunsemdanna avarpar hier sijn Børn. Gud giæfi vier giætum fest a þessu blessada Fyrirheiti, vora Trw riettilega! þvi ef vier trwum einum Manni til þess, sem hann lofar, hversu sem allt Holld er þo af Natturunni Lygi-giarnt, Rom. 3. hvad miklu framar ættum vier ad festa eflausa Trw a Ordum sialfs Guds, þvi so sem hann

er sat verulegi Sannleikur, Joh. 15. so kann hann ecki annad ad tala, enn þad sem er einskiær Sannleikur, Ps. 119. Allar Guddomsins Personur eru samhuga [so sem þær eru samrar Veru] ad hialpa sijnum naudstøddum bidiandi Børnum, og hvør Personann frambijdur sinn Velgiørning: Fadirinn giefur Raad og Daad: Sonurinn bidur fyrir þeim og med þeim: Heilagur Andi kiennir og undirvijsar, hverninn þeir skuli frambodna Guds Naad sier i Nyt færa, ber og þeirra Anda Vitni ad þeir sieu Guds Børn, og Fyrirheitinn tilheyri þeim. Þar fyrir, Guds Barn, þegar Mæattleysid vill fa Yfirhønd hiaa þier i Mootlætinu, þa kalla til DRottins um Hialp og Fulltijngi: Andvarpa med David: Hneig þitt Eyra til mijn, skiotlega hialpa þu mier, vertu mier øruggt Biarg og Vijgi, so ad þu hialpir mier, Ps. 31. þa mun hann svara: Hier em eg! Hier em eg! Es. 65. Eg em hiaa þier i Neydinni, eg vil þier þadan wtrickia og þig vegsamlegann giøra, Ps. 91. Og ef Gud er med oss, hver kann þa ad vera a moti oss?

segir

segir Postulinn, Rom. 8. Ef Gud er vor Gud eptir Nadinni i JEsu Christo, og vier hanns Folk i Trwnni og fyrir Trwna ad JEsum Christum, hvad kann oss þa ad vanta? Edur hvada Praut kan Guds Børnum uppa koma, vid hverri þau ecki hafi Fullnadar Bot i Gudi? Kremie Sorginn, þa segir DRottinn: Eg vil hugga ydur, lijka so sem einhvern huggar hanns Modir, ja, þier skulud i Jerusalem endurnærdir verda. Pier munud sia þad, og ydar Hiarta mun gledia sig, Es. 66. Preingi Orbyrgdinn, þa segir Jacob ad Gud hafi wtvalid Fatæka þessarar Veralldar, þa i Trwnni rijkir eru, og Erfingiar Rijkisins, Jac. 2. Ami Veikleikinn, þa segir DRottinn: Lat þier nægiast mijna Nad, min Kraptur fullkomnast i Veikleikanum, 2. Cor. 12. Pressi Siwkdomurinn, hann segir þa: Eg em DRottinn þinn Grædari, Es 15. Klagi Samvitskann og Logmalid, þa hropar Postulinn: Hver vill asaka Guds Utvallda, Gud er hier sem riettlætir, Rom. 8. Lat þier þvi nægia, christinn Sala, þegar Gud er þinn i

Radinni, og vit ad hañ kann audvellds lega allt þitt Rad ad bæta, hann hefur nog Rad, þo þu siert Rada-laus, noga Vegi, þo þu eingann siair, ñogann Kr- apt til ad nidurdempa þijna Ovine, hv- ersu vanfær sem þu ert. DRottinn er minn Heilsugiafari, segir David, fyrir hverium skal eg Ottast? Ps. 27. og þvi segir Christur: Vered hughraustir, þvi eg hefi Heiminn yfirunnid, Joh. 16. Eñ vor vegna wtrietti vor Frelsare, allt hv- ad hann hier a Jordu utrietti, so hefur hann þa vor vegna yfirunnid Heiminn og alla vora Ovine, og þvi segir hann, vier skulum af þvi sama hughraustir ve- ra, þvi hann sigradi þa til þess, ad hañs Trwader skylldu sigra þa i hanns Sig- urs Krapti, so hanns Sigur er þa vor Sigur, eins og Davids Sigur yfir Go- liath, var allra Israels Barna Sigur. Og er þessi Sigur, sem Jesus hefur fyrst sialfur unnid, og siidann siinum Trw- udum giefid, ecki neirn Stundar Sigur, helldur eilijfur Sigur, hverium Guds Utvalldir skulu ad eilijfu hrosa: Enn fyrir honum hliota þeir fyrst ad strijda undir

undir hanns Merkium, med arvakri og hlijdugri Pionustu vid sinn HErra, mz Svita-fullri Baraattu vid Satan, Hold og Heim, og med hogværri Polinmædi i øllum Raunum. Og er allt þetta meir enn vinnandi fyrir þann Sigur, i hverium vier skulum eilijflega glediast, og mz slijku Moti kann ei Sigurinn ad bregdast, þvi vort Traust er bygt a Hellu, sem alldrei skeika kañ, hvada Areynslu Vindar, Regn edur Vatns-Flod sem ad dynia kunna, Matth. 7. Þu minn JEsu, ert sa einka Naudhialparinn vor, þvi vil eg i allri Naud leita til þijn, og leggia uppa þig alla mijna Naudþurft: Eg veit, ad eg er alldrei eirn i mijnum Raunum, þar sem þu ert hia mier; Þo allur Heimurinn bregdist mier, vil eg eckt mikid þar uṁ fast, þa eg næ ad hallda þier, so sem mijnu Hiartans Trausti og Hlutskipti æfiñlega, Ps. 73. Verde þvi þinn Vilie a mier i øllum Tilfellum, þa ma eg Okvijdiñ vera, þvi þad er þiñ Vilie, ad einginn tapist, helldur hver Madur verdi Saluholpinn, og komist til Sannleiksins Vidurkienningar, 1.

Tim.

Tim. 2. Eñ lættu þijna blessudu hægri Hønd styrkia mig i mijnum Veikleika, ad eg verdi alldrei so veikur, ad eg ecki næi ad styrkiast i þier, helldur ad eg i þijnum Krapti kunni ad þreingia mier i giegnum allar Þrautir, og hliota so eilijfa Hvijld æ Himnum, Amen.

## 21. Capituli.

Hvar fyrir ad i Heiminum gængi Ogudlegum vel, enn Goodum Jlla.

ÞAd er sorgleg Umkvørtun, sem heilagur David, fullur af Guds Anda, gjørir med þessum Ordum: Hiælpa þu, DRottinn, þvi ad hinir Heiløgu eru fæckadir, og hinir Trwudu eru fæir medal Mannanna Barna, Ps. 12. Og ef David kynni nu upprijsa fra Daudum og med gudlegri Upplijsingu skoda Heiminn og hanns andlegt Astand fyrir Gud, þa verdur varla annad af Lijkendum þeinkt, enn ad hann mundi þikiast finna Ordsøk til lijkrar Umkvørtunar, þvi þo Guds Ord sie vijdar nu eñ a Davids Døgum predikad um Heiminn, þa

samt

ſamt fyrir utann þad, ad margir eru eñ nu fyrir utann Chriſtum og ann Guds og hanns Orda, þa eru ſo margir medal Chriſtenna ſiꝛannlega gudlauſer i ſijnu Frañferdi; Og eñ þa er Chriſtiñdomſins Linleiki og Ꝺadleyſi hiꝛ ødrum allt of ber Vottur til þeſs, ad þeir muni hafa Skyn Gudhrædſlunnar og afneita heñar Krapti, 2. Tim. 3. Þvi ad jꝛta Chriſtum med Munninum, og hafa i Hiartanu þꝛ ſønnu Trw, ſem krøftug er fyrir Kiærleikañ, fylgiſt ecki alltijd ad. Gud eirn veit hvert einer Tiju, edur hvad margir Tiju finnaſt kuñi Riettlꝛter ꝛ medal hvers Mannfiolda Sodomæ Borgar uñ allann Heiminn, enn færri ſem þeir Riettlꝛtu vera kunna, þetr ed i eirnri lifandi Trw þiona Gudi mz Hiartans Gudrækni, þeſs meiri Lijkindi eru til þeſs, ad þeir ſømu muni meiga vid ſorglega Koſti bwa i Heimi þeſſum, jafnvel þar ſem hinir kunna ad leika ſem ꝛ Als Oddi i Medlætinu.

Og þo þetta ſie ſtoor Hugar-Rauñ øllum Guds Børnum, þꝛ meiga þau ſamt i þeſſu hugga ſig þar vid ſtøduglega,

ad

ad sa trwfaste Gud mune um̃ siider sia þeirra Hluta, þvi þar uppa standa hũs Drwfanleg Fyrirheit. So seiger Malachias Spamadur, epter þad hann hefur gieted ramvilltra Holldsins Jñbyrlinga um̃ Vellijdan Ogudlegra og Gudhrædddra Mootlæte: Þad er til forgiefens ad Mann þioonar Gude, og hvad hiaalpar þad, þo vier holldum hanns Bod? Vier priisum þa Forsmanara, þvi þeir Ogudlegu vara, þeir freysta Guds, og hafa þo Luckn og Framgaang. Hann seiger strax epter þetta: Þeir gudhræddu hugga sig so hver vid annañ: DRottenn merker þad og heyrer þad, þad er eitt Miñingar Brief fyrir hann skrifad; Og eñ framar: Þeir skulu vera minn Eigeñ-Doomur, seiger DRottenn Zebaoth, a þeim Deige sem eg vil giøra. Og þad skal siaast, hvada Missmunur ad er millum þeirra riettlatu og þeirra Ogudlegu, millum þeirra sem þioona Gude, og þeirra sem hønum ecke þioona, Mal. 3. Vørunst þvi holldlega Hleipe Dooma um̃ soddann Efne: Gud er sa, sem hefur Høndena yfir þvi, sem vier køllum Lan

eda

eda Olaan, reynum þvi ecke til ad griipa Riettlætes Meterinn wr hanns Hende; þo vier skylium ecke alltijd þeirra Vigt. Hun mun vel augliisast, þo siidar sie; hölldum oss i þessu vid Predikarans Alyktun, er hann seiger: Þo hinn syndnge giøre Hundradsiñum illt, og life þo leinge, þa veit eg þo fyrir viist, ad þeim skal ganga vel, sem ottast Gud. Þvi þeim enu Ogudlegu mun ecke vel ganga og so sem einn Skuggeskulu þeir ecke leingur lifa, sem ecki ottast Gud, Pred. 8. Være þad ecke heimskulegt fyrir eiñ Adkomu-Giest i Hwsenu, ad setia Hwsbondanum Avijtur fyrir hanns Hwss-Stioorn og Umsiisslan, þo hun siindest ecke i øllu hin besta? Enn miklu heimskulegra være þad fyrir oss, sem erum so sem Giester Guds, ad vilia snotra þa Viis-doms fullu Hwss-Stioorn þess mikla Hwss-Fødurs, Guds þess almattuga. So mun best fara, ad Faderenn rade fyrir siinum ungu Børnum, edur mundu þau ecke tijdum fara sier ad Voda, ef þau mættu rada sialf? Hvada fyrir Barndoom er þad þa fyrir oss, sem ecke

vitum

vitum hvad eñ i Dag skie skal, Ordsk. 27. Ad vilia sialfer kioosa oss og wtvelia Hlutskipte þessa Lijfs? Þad er jan Gatu, ad ef Gud liete oss þad alltijd epter sem vier gyrnunst þa mundum vier kata i marga Olucku, jafnvel bæde fyrir Lijf og Sal, hia hverre vier þo komunst fyrir Guds alvijsa Rmdstøfun og Naadar-Forsioon, þa vier erum þenne hlijduger.

Mannleg Skynseme fær ecke griped þetta Guds Rad, hvar fyrir hann lætur Ogudlegum lijda vel, enn gudhræddum illa, so jafnvel Guds Vinum hefur leiged vid ad steita sig a þessu, so sem heilagur David jatar þad uñ sig i þeim 73. Psalme, hvar hann er marg-ordur uñ þetta Efne: Fyrst seiger hann: Eg hafde nær þvi rasad med mijnum Footum þvi þad modgadest mier vid hina sialfhælnu, þa eg sa hinum Ogudhræddu veitte so vel; Og sijdar seiger hann: Eg hugsade uñ þad, hvert ad eg giæte skyniad þad, eñ þad var mier ofhætt. Hvørs vegna hñ tekur H. Anda sier til Lære-Meistara, i þessu Vanda Male. So sem hann seiger: Eg gieck inn i Helge-Doomeñ Guds,

og hugde ad þeirra Afelokum: Þu setur þaa uppaa hid haala og steiper þeim nidur i Grunn. Hvernenn verda þeir skinde-legg ad aungvu? Og taka einn Enda med Skielfingu? So miked sem raaded verdur af þessum og ødrum Guds Ord-um þaa kuñum vier seigia: Ad saa alvijse Gud epterlæter Ogudlegum þessa Heims Vellijdan, aa einnveigeñ til þess, ad hañ votte fyrir þeim og aa þeim sitt Guddom-legt Orlæte, sijna Goodgyrne og Pol-ennmæde, ef skie mætte, þeir villdu med þessu aavinnast til ad gaanga til Handa Gude, sem so er Giædsku-rijkur vid þaa, midt i þeirra Syndum. Þetta styrker Paulus seigiande: Veitstu ecke þad, ad Guds Goodgyrne leider þig til Yfirbot-ar? Rom. 2. þad er ad skilia, vill og kann leida þig, ef þu villt annars leidast laata. Enn ef ecke, þaa verdur þu þvi O-affsak-anlegre, enn Guds Goodvilie, uñ þijna Velferd, þvi auglioosare: A annann Ve-igenn hindrar Gud ecke þraalaata Synd-ara fraa þvi ad søckva sier nidur i Saur enda fullar Heimsins Vellyster, sem hvi sier ad þar vid hafa sitt Hiarta fest, enn

 hyrda

hyrda ecke um̃ Gud nie hanns Velgiør-
der. Um̃ þess hatttar talar Drottinn
fyrir Davids Munn. Mitt Foolk hlijd-
er ecke minne Raustu, og Jsrael skeitir
mier ecki. So hefe eg þa yfirgiefed i
þeirra Hiartans Myrkre, ad þeir gange
epter sijnu Raade, Psalm. 81. Soddañ
Mañeskiur eru miklu framar Aumkun-
ar enn Ofundar verdar, þvi ecke eru þessa
Heims Giæde so dijrmæt, ad nockur sie
af þeim Ofundar verdur, og sijst sa sem
hefur þau i Guds Onaad. Vertu eige
øfundsamur yfir þeim Jllgiørda-Mønn-
um, þvi so sem Gras munu þeir flioot-
lega upphøggner verda, Ps. 37. Hier
a moote leggur Gud sijnum Elskendum
Sorg og Motlæte uppa, ad þeirra Trw,
med ødrum Christendoomsins Digdum,
ydkest og efleft, ad þeir veniest af Briost-
um̃ Veralldarennar, enn Hiartad festest
þvi traustara vid þad himneska. Gud
fedur sijn Børn hier i Lijfe giarnann a
litlu, (af þvi synelega) enn hann veiter
þeim, þar hia, Abata ecke litenn, sem
er Gudhrædslann, med þvi Hugarfare,
ad laata sier nægia, 1. Tim. 6. og sijdañ
ad

i ødru Lijfe rijkuglega Sadningu, af hūs Hwſs Nægtar-Giædum, ſem yfirfliootanlega ſvala allre þeirra Epterlaungun, hvar af Guds Børn fa nu þegar ſlijkann Forſmeck, ad þau hier fyrir hallda alla Hlute, Heimenum vidvijkiande, (hvert þad er Rijkdoomur, Uppheſd, Vellyſt edur hvad vera kann) Skada ad vera hia Vidurkienningu JEſu Chriſti ſijns DRottens, Phil. 3. og ſkriſa þau ſo. fws under Davids Alyktun med hverre hann ender þetta Rædu Efne: Þeir ſem frawijkia munu fyrir faraſt, enn þad er mijn Glede ad eg helld mig til Guds, Pſ. 73. Og i ødrum Stad ſeiger hann: Þu gledur mitt Hiarta, þo adrer hafe Nægd Wijns og Korns, Pſ. 4. Nu þo ſagt ſie, ad Ogudhrædduin lijde opt vel, enn Gudhræddum midur hier a Jørdu, ad Gud hafe þar Yfirſtioornena, ad hann læte ſo ſkie fyrir heilagar Orſaker, hver iar þo ſumar ræda kunnum af hanns Orde, kunnum vier alldrei allar þær ad wtreikna edur til fulls ad ſkynia, þvi hanns Veiger eru Oranſakanleger, Rom. 11. ſamt er eingvañveigeñ Mein

ingenn, ad øllum gudhræddum lijde illa og øllum Ogudlegum vel: O! Nei, Gud giefur mørgum sijnum Elskendum agiæta Vellijdan, Rijkdoom, Æru, Farsælld og þess slags. So man þar a moote vijst ælykta, ad ecke sieu þeir aller Gude kiærer, sem under Bølenu liggia, þvi sa Ogudhrædde hefur margar Plagur seiger David, Ps. 32. Eingu ad sijdur er þad miøg algeingt, ad Guds Børn meiga sveima i Sorgum framar eñ hiner, þvi hvern þann sem Gud elskar, þañ agar hann, Ebr. 12. Enn þu eilijfe Gud, giefdu oss Naad til þess ad una, i hveriu Hlutskipte, sin oss ad Høndum kiemr, vid þijna Doma, og ad giefa þier Dijrdena af þeim øllum, prijsande þijna Goodgyrne þa vel geingur, þitt Riettlæte og Heilagleika, þa oss vegnar illa, og ad vier hølldum oss fastlega vid þig i øllum Kostum og Kiørum, þaingad til þu safnar oss Koste og Kiørum utvalldra a Himnum, fyrir JEsum Cristum, Amen.

## 22. Capituli.

Hversu

Hverſu ad þeir froomu og guðhræddu eru i ſijnum Kroſse meir verder i Guds Auglite, enn þeir Oguðlegu i ſinne Velgeingne.

HVørnenn metaſt eige Guds Barna Hørmungar, ſijner eſs þad ſem Poſtulenn ſeiger, er hann til Orda ſo leides tekur: Sonminn, vyrd ecke lijtels Tiptan DRottens, og orvynglaſt ecke þa þu verdur af hønum ſtraffadur, þvi hvern ed DRottenn elſkar, þann agar hann, Ebr. 12. Poſtulenn tekur þetta af Salomons Munne (Ordsk. 3.) og nefner hñ þad huggunarſamlega Aminningu, ſem af Rokum til vor tale; Aminning þeſſe ſeiger, ad vier ſkulum ecke vyrda lijtels Tiptan DRottens, helldur mikels. Rokenn eru þeſſe: Hun er uppa løgd af DRottne, ſo ſem Fødur, hun er helgud af hanns Syne, hun er borenn af hanns trwudum Børnum, og medal annars fleira, ad þeir ſem Tiptunena þola og under henne liggia, eru mikels virdter hia Gude, hvar af þu att, Chriſtenn Saala, þig ad gledia, og laata ecke þeſſa Lijfs Mootlætingar ofmiøg hrella þig, þar þu midt i þeim, ert i miklu Gillde,

 hia

hia þijnum HErra, þvi eina Kross-þiada trwada Manneskiu vyrder Gud meir enn alla Verølld, og hennar Dijrd. Midt i sarustu Eymdum var Job þecktur af Gude, og nefndur hanns Þienare: Latted minn Þienara Job bidia fyrir ydur, sagde DRottenn vid Jobs Vine, þvi hañ vil eg ansijta, Job. 42. og ef Mootlætingenn være fyrir Gude forsmaanarleg, Ja, være hun ecke fyrir honum heidurleg, munde hann ecke leggia hana so margfalldlega uppa sijna Elskendur siñ hann heidra med hlijdugre Dyrkun i Trwnne, þvi hann hefur losad og sagt: Hvør mig heidrar, þann skal eg heidra; 1. Sam. 2. Þad er satt, ad fyrir glaamskygnum Veralldar Augum er Kross og Mootlæte ein Fyrirlitning og Vidbioodur, og so hlioota þeir eins ad vera sem þad bera; Enn mun Gud nockud laga sinn Doom, yfir sijnum Elskendum, epter Heimsins Doome? Fiærre er þad þeim riettvijsa og goodfwsa Himnanna Fødur. Miklu hellldur heiter þad so: Guds Doomur er ødruvijse enn Mannanna, edur, so sem DRottenn talar fyrer

Esa

Esaiæ Munn: Mijner Þankar eru ecke sem ydar Þankar, Es. 55. og hef[l]d eg þa varde slijted hvada Vyrding Heimurenn leggur at oss, þegar Gud virder oss; Eda hvad mun Ovirding og Hatur Heimsins kunna ad skada þann, sem nytur Elsku og Virdingar af Gude? Sannlega, ecke meira eñ Vatned skadar Sund-Fuglenn, þo haṅ dijfe sier i þvi. Ef þu, christenn Saala, metur Guds Elsku og Vmmattu yfir allt, þad hier a Jørdu fæst kann, þa mattu ecki sæœlast, nie Ovirda hanns Elsku Merke; Enn ad Kross og Tiptan DRottens sie hanns Elsku-Merke, er audrædded af þvi sem hṅ seiger: Hveria eg elska, þa straffa eg og tipta, Openb. 3. Ef eg einga Tiptan hefde, þa hefde eg vijst Ordsok til ad þeinkia, ad eg være ecki Guds Barn, þvi Postulenn seiger: Ef þier erud aan Tiptunar, þa erud þier Hiaa-Børn, enn ecki Børn, Ebr. 12. og være eg ecke Guds Barn, þa være eg Heimsins Barn, og fære villtur fram̄ epter þeim breida Vegi, sem til Gløtunar liggur. Þeir sem Lijm-festa Hiarta sitt vid Heimenn, þeir

eru Heimsins, og hafa sitt Hlutskipte i þessu Lijfe, og so sem þesser stunda ecke epter Himnenum, so eru þeir og wtlæger fra Himnenum, bera so einasta þessa Heims vesæl Giæde wr Bijtum, og ecke annad. Enn þeir sem hafa sijna Umgeingne og sinn Borgar-Riett a Himnum (Phil. 3.) þeir eru Himensins, þeir leita þess, sem þar uppe er (Col. 3.) og so sem þeir hafa Himensins Forsmeck i sinne Saalu, so kunna þeir sier lynda, þo Gud late þa fara a mis vid Heimsins Giæde, og þo hönum þockneft ad lata þa velkiast og hrekiast i Heimenum, þa eru þeir anægder med Himensins Hlutskipte. Vilie Gud giefa þeim hvortveggia, þad er Heimsins og Himensins Gooda, taka þeir þvi fyrra ad vijsu med Þockum, þo med Andvara, og gledia sig med Skialfta, Ps. 2. enn skule þeir a mis fara vid annadhvert, verdur þeim fliott til þess, an laangrar Umhugsunar, ad utvelia þad sijdara, þad er Himenen, sier til Hlutskiptes, enn lata Heimenn fara sem verkast vill, under Gudlegre Stiodrnan, i þeirre Trw; hvert þeir lifa

edur

edur deya, glediast edur hryggiast, þa sieu
þeir DRottenns, Rom. 14. þesser virda
mikels Tiptan DRottens, og eru so apt-
ur mikels virdter af DRottne, under
hanns Tiptan. Þvi ef Gud hafde sinn
eingietna Son kiærann og mikels virdt-
ann, þegár hann leid vor vegna þær sár-
ustu og forsmánarl.. gustu Kvaler, so sem
hann hropade um̃ hann af Himne: Þessi
er minn elskulegur Sonur, ad hverium
mier velþocknast, (Matth. 17.) þa mæ,
hann vijst hafa þa eirnenn kiæra og mik-
els virdta, sem under hanns Sonar
Krosse standa, med Þolennmæde, epter
hanns Dæme, og hafa a hønum sijn
Trwar Augu, einkum þar hann hefur
so tilskickad, ad þeir skylldu verda lijker
hanns Imynd (Rom. 8.) So eru þa
Guds Børn, sem med Von og Þolenn-
mæde standa under sijnum Krosse, Guds
eigennlegur Eigenndoomur, og so sem
heyrud Arfleifd (5. B. M. 32.) þau eru
hañs Briooſt-Børn (Es. 66.) hanns O-
magar, hverra Forsvar hann hafa vill,
fyrir hveria hann betala vill allar þeim
tiedar Velgiørder, (Matth. 10.) hanns

K 5 Vin-

Viner, hanns Sonar Brædur og Sam-Erfingiar. Hier þvert a moote eru Ogudleger og vantrwader Veralldar Syner, i hvada Havegum sem þeir kunna af Mønnum hafder vera, fyrir Gude reiknader sem Oviner, Reidennar Børn og Daudans Menn (Eph. 2.) sem afbrotner Kvister og Fauskar, sem til einskis nijter eru, nema kastast i Elld og brennast, Joh. 15. sem ein wtsnørud Saurende, er ecke kunna Stad fa i þeirre himnesku Jerusalem, Opinnb. 21. og þvi hærra sem Heimurenn upphefur einn, i og med sinne Vyrdingu, þvi minna metur Gud þann sama, þegar hann Hiartad Ofmisog fester vid þa Vyrdingu edur hann hlijtur hana fyrir þad hann dansade epter Heimsins Pijpu. Og þvi framar sem Heimurenn nidur þryck-er einu Guds Barne med Forakte og Fyrirlitningu, þvi meira er þad sama Guds Barn virdt a Himnum hia Gude, þa þad lijdur þetta sem Guds Barn. So uppa þad, ad Kross-þi-ad Guds Børn sieu mikels virdt hia Gude, høfum vier nu fyrir tvær [talldar]

Grein-

Greiner, þær Drekanlegar eru, ørugga Vissu, þvi fyrst leggur Gud Krossenn so tijdum uppa sijna Elskendur, sem hn̄ hefur þo lofad ad heidra, og þar nærst, virdte hann mikels sinn Eingietna Son, þa hann leid þeirra vegna, og vard so þeirra Høfud, enn þeir hanns Limer. Og med þvi þetta er nu soleides, þa ma þad kienna oss fyrst, ad giefa oss lijted ad Heimsins Ovirdingu, þo henne mæta kunnum, þar nærst ad lijda vorn Kross med Polennmæde, vitande ad Guds Virding færer med sier hanns Náad og Vinfeinge hier i Lijfe, og hans Dijrdar-Sælu i ødru Lijfe.

O! hvad fanijtt og einskis verd er hia þessu øll Veralldar Virding og Veiting. Þvi (1. Er hun skam̄vin̄, og fallvøllt, so þar sem hun upphefur ein̄ i Dag til Himens, kann hun ad troda þann sama under Fætur a Morgun. Haman var i þvi Persiska Hofe tilbedenn, med beigdum Knianm, af øllum Kongsins Pienurum, Esth. 3. en̄ skamt leid til þess ad han̄ matte hanga i Gaalganum, Esth. 7. Enn sw Virding sem

Guds

Gud veiter; fœrer med sier Draskaulega Vegsemd a Himnum,[2.] Po Veralldar Virdingenn være stødugre enn hun er, þa være hun nærsta dæmdlijtel, og hun stodar þvi minna, sem meir a hene liggur. Lijted stodade þad Nabogodonosor, ad aller hanns Undersatar, hærre og lægre Stiettar i hanns vollduga Rijke, tignudu hann, þa Gud rak hann wt a Eydemørk til Villu-Diira, so hann beit Gras med þeim, sem Naut, Dan. 4. Enn Guds Virding, Vinseinge og Nad er øruggaste Hlijfdar Mwr i allre Areinslu, so sem DRottenn seiger: Eg vil vera eirn Elldlegur Mwr i krijngum Jerusalem. Sach. 2. Minn Gud og HErra, kiendu mier ad heidra þig med stødugre Trw, Hlijdne og Þolennmæde i allre Reinslu, og veittu mier Overdugum þa Virdingu, ad eg fyrir JEsum Christum meige heita og vera þitt Barn og Erfinge þegar hier i Nadenne, og þinn wtvalenn a Himnum i Dijrdenne, Amen.

## 23. Capitule.

Hvørninn

Hvernenn Madur skal hondla med stundleg Audæfe og hugga sig i þessa Misse. &c.

HVersu lijted þessa Heims Giæde stode Mañenn, hvern Gud hefur prijdt med einne Odaudlegre Saal, þad sijna oss JEsu Ord: Hvad gagnar þad Mañenum, þo hann avinne allann Heimeñ, ef hann lijdur Tioon a sinne Saalu, Matth. 16. Af hvorium Ordum audsært er, ad þesse fallvølltu Heims-Giæde, kunna eckert ad hialpa vorre Saalu, þvi þau eru miklu minna verd enn hun, og þvi er henne stoor Oriettur giordur, auk Oseiglanlegs Skada, ef þau eru elskud og ástundud framar enn hun og hennar Velferd. Eñ hvad miklu stærre Orettur er þa Gude giordur, ef vier elskum stundleg Audæfe, sem hañ giefur oss, framar enn hañ edur eins og hann, og festum so Huga og Augu meir a Giøfenne eñ Giafaranum, og fremium so heimuglega Afguda-Dyrkan, med þvi ad setia Skiepnuna i Stad Skaparans. Þess vegna ættum vier þvi alldrei ad gleyma, ad Gud er sialfur ædste Eignar HErra allra Audæfa, Ja, allra Hl-

uta

uta a Himne og Jordu; Jorden er hñs og allt hvad þar er inni, Ps. 50. jafnvel þo hann af siñe Goodgyrne, lane oss þetta uñ Stund til Brwkunar og Nota. Pad er vitanlegt, ad einn Eigande hefur fullañ Riett til ad taka sijna Eign fra þeim sem hann liede hana, nær hañ vill edur þarf, og þa þad er ecke i moote adur giordum Skilmaala. Enn þad vitum vier lijka, ad eingenn Madur hefur so sterkann Riett yfir sinne Eign, fastre nie lausre, sem sa eilijfe Gud yfir sijnum Eignum, og Hvad sem hann af oss tekur þa tekur hann ecke annad enn sitt, sem hñ lanade oss ætijd med þeim Skilmaala, ad hønum skyllde frialst ad taka þad aptur, nær hønum þocknast kynne.

Og med þvi vier erum þannig so sem Raads-Menn yfir Guds Gotzi, og sem Leigulidar, sem bwum ecki a vorri, helldur a annarlegri Eign, þa mun þier, aumur Madur, illa fara ad reidast, edur møgla i moti þeim himneska Eignar HErra, þo hann taki þad hann þier lanad hefur. Miklu helldur ættir þu hønum Packir ad giora, fyrir þad, ad hann

lied-

liedi hier, ann allrar þinnar Verdskulldunar, sijna Gaisu, og unnti hier so og so leingi, hennar Nota og Brwkunar. Sogiørdi jan Guds Vinur Job, þa hañ hafdi mist sijnar Eignir, sagdi hañ: Gud gaf og Gud aftok, sie hanns Nasn lofad, Job. 1, og er þetta Jobs Dæmi sært i Rit ver vegna, so vier skulum af þvi læra, ad lata oss lynda Guds Vilia i sierhveriu Tilfelli: Hann hefur æsinnlegt Einvallds Rand allrar Luckn, og þvi ad hun ad falla, ecki so sem eg edur þu villt, helldur so sem hann vill. Vier sialfir erum og lijka Guds Eign, so vel sem adrar Skiepnur, og ad hann þvi frialst ad høndla med þessa sijna Eign eptir sijñi Velþocknan, Eda segir nockud Leirkierid til Smidsins, Hvar fyrir giørdir þu mig so? Es. 45. Gacktu þvi vilugur þañ Veginn, sem hann vijsar, hvert hañ liggur til Gledi edur Sorgar, þvi ecki mun annar Vegur hollari mier nie þier, enn sa sem hann vijsar, og ivtvelur oss, þvi David vitnar: Ad allir hanns Veigir sien ecki utan Giædska og Sannleikur þeim ed hanns Sattmala og Vitnisburd

burdi geima, Ps. 25. Og þar nælægt seigir hann: Ad DRottinn leidrietti þa syndugu a Veiginum. Mørgum hefur Audæfa Tøpun og uppafallandi Fartækt ordid til Leidriettingar og Umvendunar, þvi þad geingur so til Oskialldañ ad Israel er lauslatur medann hann er feitur og fullur, Deut. 37. og hafe þig matt vid lijkt henda, þa skylldir þu þacka Gude nær hann tekur fra þier Rijkdomenn, sem maske var farenn ad villa þig wtaf Gløtunarennar Veg.

Viist var þad Heilla Rad, sem JEsus lagdi þeim rijka Unglingi, ad hann skylldi selia sijn Audæfi, og giefa Fatækum, so hann kynni iñganga til Lijffins, Matth. 19. þvi Herrann mun hafa sied, ad a medann hann hefdi Audæfiun hia sier, mundi hann ecki Hiartad fra þeim slijta. Packa þu þa Gudi, nær hann leggur þier sama Rad, ecki i Ordi einasta, helldur i Verki, þvi hann tekur fra þier, þad þu sialfur hefur ecki Vit a fra þier ad leggia, enn hañ maske fyrir sier, ad þier mundi fra Lijffins Iñgaungu bægia, ef þeim hefdir hia þier halldid. Ecki

mun

mun Fadirinn lofa Barninu ad leika sier leingi ad Vodanum, ef hann sier þad fer Ovarlega med hann, helldur mun hann taka hann fraa þvi, so þad skadi sig ecki aa hønum. Pad sem Vodiñ er einu Ovita-Barni, þad er Mammon, edur Rijkdomurinn, þeim sem ecki kunna med hann ad fara, og allra hellst þeim, sem sitt Hiarta vid hann festa: Vodinn er i siaalfum sier skadlaus, og jafnvel gagnlegur, sem þo skadar Barnid fyrir þess Oadgiætni; So er Rijkdomurinn i sialfum sier skadlaus, og ad vijsu all-gagnsamur, þeim sem riettilega med hañ høndla, þvi Audæfinn eru Korona hiñs Vijsa; Enn þar þvert aa moti verdur hann til Saalar Skada, þeim sem hañ vanbrwka, þvi Postulinn segir uñ þaa, sem rijkir vilia verda, ad þeir falli i Freistni og Snørur, og i margar faavijslegar og skadsamlegar Gyrndir, þær ed Manninum dreckia i Fordiørfun og Fordæming, 1. Tim. 6. Þvi meiri sem Audurinn er, þess meiri er Vandinn med hañ ad høndla, so Gud ecki styggist, og þess meiri Reikninguriñ ad giøra hønum, sem krefst sijns med A-



bata,

bata, Matth. 25. Sa sem missir sinn Aud, hann losast vid Vanda ecki all-lijtinn, jafnvel þo þad sie satt, ad ei er helldur vandalaust ad hegda sier i Audsins Missir og Fatæktinni, samt hafa fleiri steitt a hinu enn þessu. Þvi vil eg segia, þa eg missi mijnar Eignir, og sie ad Gud vill þær af mier taka: Fari mitt Gotz sem Gud vill, eg er samt nogu rijkur, nær eg hefi þig, minn JEsu, i mijnu Hiarta bwandi fyrir Trwna. Hvert eg missi mijna Virdingu, Astvini, Audlegd, edur hvad annad þesslags, ad Gud tekur þad af mier, vil eg þeinkia ad sa Missir sie ætladur annadhvert mier til Betrunar edr til Guds Dijrdar Utbreidslu'a einhvern Hatt, og bijdur mier Skylldann ad lijda og þola fyrir þetta sijdara, enn Ræktiñ vid mijna Salu, fyrir þad fyrra

Þa þu christinn Madur verdur fyrir soddann Baga, giørdir þu vel, ef þu geinger i Reikning vid þijna Samvitsku, og spyrdir hana: Hvert þu hefdir ei kuñad ad baka þier þetta sialfur mz einhverri vissri Synd, og kynni þa Samvitskañ vitna þad uppa þig, þa mundi vijst sw

Sorg

Sorg, sem þu ber fyrir Misserinn, verda ad Yndrunar-Tarum, og er þo fliott sa Skadi sinwinn i Abata, sem þu sanna munt, nær þu hugleidir, hversu sa eilijfe Rijkdomur, sem alldrei kann visna nie skiemast (1. Pet. 1.) er þusundsinnum dijrmætari, helldur enn þessa Heims Audlegd, hverri bædi kann Mølur og Rid ad granda, og Þiofar burt stela þa minnst varir. Þessi himneski Rijkdomur er geindur a Himnunum hia Gudi, til Handa øllum þeim, sem leita þess sem þar uppi er, og alijta þad Osynilega, enn ei þad synilega, 2. Cor. 4. og eru þeir so fullrijkir i sinni Fatækt, og abatast vid hvern Skadann, sem þeir fa a þvi stundlega, þvi þeir læra þar af ad festa Hiartad æ betur og betur vid þad Oforgeinglega. O! JEsu, giefdu mier, a meda ɏ hier skal dvelia, ad lifa i þier fyrir Trwna, ad eg kuñi sijdann deya i þier, og sijdarst sagna hia þier i eilijfu Lijfi, Amen.

## 24. Capituli.

Vorn Hug og Hiarta skulum vier festa vid þau eilijfu, enn ei þau stundlegu Audæfi.

MEd sijnu Eptirdæmi kienir oss Postulinn Pall ad festa Hiartad vid þad Himneska, enn ei þad Jardneske, þar hn segir: Ei allijtum vier þad synilega, helldur hid Osynilega, þvi hvad synilegt er, þad er stundlegt, enn hvad Osynilegt er, þad er eilijft, 2. Cor. 4. Ad alijta merkir hier, eptir Postulans Orda Tiltæki, meira enn ad sia eirn Hlut einfalldlega eda lauslega, helldr merkir þad ad horfa a grannt og stødugt, sigta a, edur hafa fyrir sitt Augna Mid; So a þad himneska ad vera þad Mid og Merki til hvers vier stefnum, a hvad vier sigtum; Vel meigum vier Augum renna a stundleg Giædi, sem Gud veitir oss, alijta þau so sem Kiærleiks-Merki hins goda Guds, so a hinni lægri Trøppu, sem bendi oss og vijse til annarar hærri, þad er til þess eilijfa Gooda, sem i Gudi sialfum er: Stundlegur Rijkdomur leidi oss i Þanka andlegann og eilijfann Rijkdom; Stundlegt Eptirlæti, Unadsemdina a Himnum, med þeirri Hugleidingu, hvad Osegianlega mikid þad himneska og eilijfa yfirgnæfi þad jardneska og stund-

 lega.

lega. Þannig eigum vier Hugskotinu renna til þess synilega, enn ei hvijla þad hiaa þvi, edur festa Hiartad vid þad. Eñ þennann Postulans Lærdom setia marg-ir til Siidu, og hafa þad jardneska fyrir sinn einka Tilgang, skiptandi ser lijtld af ødru enn þvi sem lijkamleg Augu siaa; Sooa þvi mestum Parti sinnar Ahygg-iu i þess Utvegun, eñ leita eptir þvi eilij-fa i Hiaaverkum. Hvar af þad kiemur, ad þeir bera sig so saarlega yfir Tøpun þess jardneska, og yfir veralldlegu Olaa-ni; Enn þo Saalinn sie ørsnaud allra go-dra Hluta, ad þvi giefa þeir sig minna. Enn laatum oss virda fyrir oss, hversu miklu dijrmætari Saalinn vor er, enn Lijkaminn, og hennar Lijf meira verdt enn hañs, og hversu hun er øllum Ver-alldar Gersemumværni og verdugri: Hun er eirn Oforgeingilegur Andi, sem kann hafa Sameining med sialfum Gu-di, og bera aa sier hanns eiginn Mynd og Lijkingu. Þvi er henni stoor Nidran ad festa Elsku og Trygd vid þetta forgeingi-lega, sem, þo allt væri samann komid, kann einga heñar Þørf ad bæta, þvi ein-

 ginn

ginn Hlutur kann henni ad annægia, ut-
ann sa Odaudlegi Gud, sem hana giørt
hefur. JEsus eirn mai heñi fullnægia,
og einga Nægiu nie Rosemdar Von hef-
ur hun fyrir utann hann. Lijkamans
Augu lijta a þann lijkamlega Aud, enn
Saalar og Hugskots Augu, skyll du fyrir
sitt Mid hafa þann Rijkdom, sem þar
uppi er: Enn sa sem ecki hyrdir uñ ad
skoda hann og aklijta, mai vidbwast ad
sakna hanns eilijflega; Vilium vier fiña
hann og ødlast eptir þetta Lijf, þa meig-
um vier vijst leita hanns i þessu Lijfi.
10 Kongsins Dotter, þad er Christninn
og sierhvør trwud Saal i Christninni, er
prijdd hid innra, segir David, Ps. 45.
Allur hennar Audur er hid innra eñ ecki
ytra; Hennar Skart og Vellyst er i An-
da, og þa Saalinn hreppir þetta, sem
sker fyrir Trwna a JEsum, þa er sem
Manneskiuna vanti eckert, þo hun i og
af Heiminum eckert hafi; So sem sa ed
eckert hefur, og hefur þo alla Hluti, eins
og Postulinn talar uñ sig og Med-Br-
ædur sijna, 2. Cor. 6. Þvi Gud er þess-
um allt i øllu: Hañ sem er Uppspretta

allra Giæda kann vel ad anægia sijnum Elskendum med sijnum Sætleika, sem ad minnsta Kosti deyfir storum Manna Særindi og Tilfinningu.

Lattu þvi Veralldar Aud og Agiæti, hvad fagurt sem sijnast kann, alldrei þier so i Augu ganga, ad þu fyrir þad afrækir þad blessada Lijfsins Braud, sem sæt milldi Gud framleggur fyrir þijna Sälu, i sijnu H. Ordi og hæverdugu Sacramentum: Forsoma ecki þetta Giesta-Bod a medann þu ert af Guds Nad þar til bodinn og kalladur. Lat þier til Varnadar þiena Dæmi þeirra, sem meir mottu Akneyti og Bwgard, enn þa miklu Kvølldmaltijd, ad þeir feingu þann Dom, ad þeir skylldu alldrei fa Kvølldmaltijdina ad smacka, Luc. 14. Hverju sem eirn leikur i allskyns Veralldar Eptirlæti, og hefur þar vid allt hvad hans Hiarta lyster, hann er samt aumur og vesæll a Salunni, ef hann hefur ecki Audlegd i Gudi: Salinn fløgtar þa blind og nakinn innan um þetta Veralldar Glijngur, og finnur þar þo einga Hvijld nie Anægiu vid. Og med þvi þessu er nu so

hættad, þa reiknar sa godi Gud allt hvad Heiminum er eigiñlegt, allt synilegt og forgeingilegt, allt þvilijkt mikils til of-lijtid, i Verdlaun siña Barna, siñ hønum þiona med Dygd, jafnvel þo hann leggi þeim þad stundum til, eptir þvi sem hm̃ haga þikir: Samt hefur hanns eilifa Nꝛd, ætlad þeim añur laangt ædri Laun og Hlutdeild, sem er Osynilegur og Oforgeingilegur Fiesiodur a Himnum, hia hverium allt þad, Verølldiñi er eiginnlegt, er Hiegomi ad reikna. Veralldarinnar Vellyst og Ysirlæti vil eg lꝛta mier lijtid vid koma, þvi eg veit, ad þegar mijn Sꝛl nær ad niota Audlegdar og Ununar i JEsu, sijnum Unnusta, þa er hun holpinn, og hefur allañ Anægiu Forda bædi til Tijmans og Eilijfdarinnar; Enn vanti hana þetta, þa er hitt allt, þo þad heppnist, henni til einskis, þvi vil eg ecki sækia eptir hættusømu Veralldarinnar Ysirlæti, nær eg þeinki til þess, hver ad sie Tilgangur mijns Frelsara, ad lꝛta mig sakna þess, sem er ad bwa mig til þeirrar eilijfu Vegsemdar. Enn lꝛttu DRottinn minn Heimsins

sins Blijdu ecki bleckia mig nie hanns Oblijdu hrella mig um Of, helldur ad eg bædi i Gledi og Sorg mætti leita allrar minnar Hiartans Hvijldar og Anægiu i þier einum. O! JEsu vertu mijn Audlegd, og lattu mig vera þijna Eign og Arfleifd; þa hef eg allt noog: Bot vid øllum Lijfsins Naudum, Lijfid sialft i Daudanum, og um Eilijfd Ofegianlega Fullsælu: Lattu þad verda Ja og Amen, Amen.

## 25. Capituli.

Hvørninn Menn skuli varast Ahyggiu, enn treysta Gudi, wtdreiginn af Matth. 6. Cap.

HVilijkan Mispocka og Andstygd ad Gud hafi a Hugsijkinnar Vijli og Vantrausti, ma lioslega sia af þvi sem Mattheus Gudspialla-Madur hefur 6. C. 6. uppteiknad eptir vorum Frelsara, sem med morgum og sterkum Rokum leitast vid ad eida vorri Hugsyki, enn avinna vor Hiortu til ad treysta Gudi og varpa uppa hann vorri Ahyggiu, þvi: 1. Vill HErrann, ad vier hugleidum, hversu ad

Mammons Pionustann, sem framinn er med Hugsyki og Vantrausti, kann ei samann ad koma vid saña Guds Pionustu; Pier kunnid ei undir eins ad Piona Gudi og Mammon, segir hann: Pvi so sem Omøgulegt er, ad horfa med sama Auga upp i Himininn undir eins og ofann a Jordina, so er lijka Omøgulegt undir eins ad Piona Gudi og Mammon, og mai sa Madur mikid farviis vera, siñ helldur wtvelur Po, ad Piona Mammon enn Gudi. Mammon, edur Aura-Safn Pessa Heims, er ad sonnu eirn Gud Peim sem giøra hann sier ad Gudi i sijnu Hiarta, enn Po alldrei nema vanmattugur Giørdar-Gud, sem ecki gietur sijnum Pionum eina Fylli giefid, edur eirnrar Stundar Prældom uñbunad med neinum godum Hlutum? Eñ sa eilijfe Gud kann ad giøra eirn rijkann an Mædu, Ordskv. 10. Pvi er Pad mikid heilnæmt Raad sem David leggur: Bijfala Drottni Pijna Vegu og vona a hann, hañ mun Pvi vel til Vegar koma, Ps. 37.

2. Eigum vier Peinkia, ad med Pvi Gud gaf oss Lijfid og Lijkamañ, Pa mun

hann

hann giefa oss hvad þau vid þurfa; Fœd-
una handa Lijfinu, og Klædinn handa
Lijkamanum, þvi fyrst hann gaf oss þad
sem meira var verdt, þvi mun hann ecki
giefa oss þad sem minna er verdt; Þessi
er Meiningin̄ JesuOrda, er han̄ segir: Er
ecki Lijfid meira enn Fœdslann? og Lijk-
aminn meiri enn Klædnadurinn? Gud
er ecki eins og eirn Smidur, sem giörir
eirn Smijdis Grip, selur hann af Hen-
di, og skiptir sier ecki af hönum framar.
Ney! so meigum vier ecki imynda oss
þann Alls-rædanda Gud; Aungvu sin̄
hann giörir edur giört hefur, sleppir han̄
Um̄hyggiulausu, helldur hefur yfir þvi
öllu vakandi Auga, æn hvers þad mundi
og fliott eidileggiast. Og þvi lesum vier
i vorum Bord-Psalmi, eptir David: Þu
upplijkur þinni Hendi og sedur allar Sk-
iepnur med þinni Blessan, Psal. 145.

3. Skylldu Fuglar Himinsins kien̄a
oss ad varpa Ahyggiunni uppæ Gud.
Lijtid æ Fugla Himinsins, segir Drott-
inn, þeir hverki sæ nie uppskiera, og ecki
safna þeir i Kornhlödur, og ydar himn-
eskur Fadir fœdir þæ: Erud þier ei mik-

lu

lu framar enn þeir? og er þad aumlegt Umhugsunar, ad hverſu Gud hefur giørt oſs miklu fremur enn þa, og lagt alla Jørdina undir oſs, ad vier ſamt miklu tregari erum enn þeir, til ad trwa vorum Gudi og Fødur fyrir oſs og vorum Hag, og erum ſo tijdt O-ánægdir med þad ſem hanns millda Orlæti, og allt þeckiandi Wijsdomur uthlutar oſs. Enn laatum oſs læra af Fuglunum: Þeir fleyta ſier uppi Loptid mz Vængiunum; Fleytum og vorum Hiørtum upp med Vængium Vonar og Bænar, a lijkann Hatt ſem David, er hann ſegir: Mijn Augu hef eg til Fiallanna, hvadann mier kiemur Hiálpin, mijn Hiálp kiemur fra DRottni, ſem giørt hefur Himin og Jørd, Pſ. 121. 4. Meiga Alldini Jardarinnar minna oſs a þad, ad kaſta fra oſs Hugſykini. Hyggid ad Akurſins-Liliu-Grøſum, ſegir DRottinn, hvern inn þau vaxa, þau vinna hverki nie ſpinna, þo var Salomon i ſinni Dijrd ecki ſkrijddur ſem eitt af þeim. Hverninn gietur þad verid, ad Gud ſorgi ſijdur fyrir oſs, ſem hann hefur ſkapad til eins Odvijnandi

andi Lijfs, helldur enn fyrir Grøsunum, sem eru giørd ad standa eitt Missiri, eirn Mannud, mæ skie ecki nema eiñ Dag, og kastast so i Elldiñ? 5. Skylldunn vier hugsa til þess, ad vor Hugsyki er daudlaus, nema til ad pijna oss sialfa, þvi segir Christur: Hver ydar getur aukid med sinni Ahyggiu einni Alinn vid sijna Leingd, og vijst kunnum vier ecki giøra eitt svart Haar hvijtt a voru Høfdi. Margir pijna sig med Dags og Nætur Hugsyki, og næ þo ecki þvi þeir vilia, eta so sitt Braud med Hryggd, þar sem Gud giefur sijnum Elskendum þad sofandi, so sem David segir, Ps. 127. Þad er, unandi sier an Hugsyki vid Guds Forsion. 6. Er Hugsykiñ Osamkvæm vorum Christindomi, þvi eptir þessu leita heidnar Þiodir, segir Frelsarinn, So sæ sem søckur sier nidur i Bwk-Sorgiña, vanvirdir stoorum Christindomsins Nafn, og er i þessu lijka sem þeir ed eingvann Gud hafa.

7. Segir HErrann: Ydar himneskur Fadir veit þier hafid alls þessa Þorf; Og þvi eigum vier i vakandi Minni hafa

Guds

Guds fødurlegt Hiarta, og þad sonarlegt Traust, sem vier eigum a hønum ad hafa, ef hanns Børn heita viliuin. Þegar vier vorum Børn, løgdum vier alla vora Ahyggiu uppa Forelldrana; enn sijdann vier droounst a Legg, hefur O-Edli Spillingarinnar nad ad magnast so i oss, ad vier giefum nu minna Traust vorum himneska Fødur, enn vier adur gafum vorum lijkamlegum Fedrum. Gleymum þvi þo ei, ad hann er Fadir, yfir allt Faderni, og allt hvad Børn kallast a Himni og Jørdu, Eph. 3. og þvi ma hann vissulega reynast oss eirn Fadir, þad er goodsws Forsorgari; so miklu goodswsari, so miklu mattugri og vijsari, helldur enn nockur natturlegur Fadir vera kann, sem Gud er Mønnum meiri, og hvad skal oss þa hindra fra þvi, ad varpa uppa slijkann Fødur vorri Ahyggiu. 8. Ad sijdurstu, er þad i sialfu sier Oviturlegt, ad pijna sig med Hugsyki fyrir Okomnum Tijma, af þvi, vier vitum ei hvert sa Okomni Tijmi kiemur nockurn Tijma yfir oss; Maaskie vier verdum fyrri kommir fra

øllum

øllum Tijma-Skiptum; og þo hann yfir oss komi, vitum vier ecki hvad ä Morgun skie skal, Prov. 27. og þo hann yrdi oss til Mædu, þa skylldum vier ecki giøra siälfum oss illt med þvi ad taka uppä oss þä Mædu fyrir Tijmann: Þvi er þad Christi Rääd, ad läta hverium Degi nægia sijna Pianing. So giefum þa Rwm hiä oss tøldum Astædum, sem vor himneski Lærimeistari leggur fyrir oss: Hlaupum ei wr Pionustu vors Guds; Peynkium, ad sä sem gaf oss Lijfid, muni forsierga Lijfid, og ei yfirgiefa sijna Skiepnu. Lijtum Guds Forsion, sem oss er daglega fyrir Augum, yfir hanns skynlausu Skiepnum kvikum og daudum. Verum oss ei ad arla þañ Stein, sem vier alldrei loptad faaum, allra sijst so vel fari: Nijdum ei vorn Christindom med heidinglegri Breitni: Gleymum alldrei vors Guds sætasta Fødur-Nafni. Smijdum oss ei siälfir Mædu, þvi vier høfum hana, utann þess, noga. Og er hier med sw-Ahyggia bønnud oss, sem kvelur Hugskotid, og so sem tvijstrar þvi i ymsar Attir, kallast

þo

þvi riettilega Hugsyki, þvi þar af verdur Hugurinn siwkur, lijka Bwksorg, þvi þa er sorgad fyrir Bwknum, þad er Lijkamanum, miklu meir enn fyrir Salunni. Enn ecki bañar JEsus oss þa Umhyggiu, sem eirn uppa christilegañ Hatt hefur fyrir sier og sijnum, og Gud hefur uppa oss lagt so sem adra Skylldu, þa hver þionar med Dygd i sinni Kallan, enn varpar Ahyggiunni uppa Gud, felandi honum Avoxtinn og Endalyktina. Gief þu oss DRottinn þijna Nad, til ad leita uñfrañ allt þijns Rijkis og Riettlætis, i sannri Trw og Trwar Athøfnum, lijka stunda vora Skylldu med Trwskap, so muntu giefa hvad sem oss er naudsynlegt fyrir Lijkamann, og ei skadlegt fyrir Salina: Og annad þo eñ betra, sem er Salariñar Anægia i sialfum þier, og sijdann þad allra besta, sem er Salar og Lijkama Fullsæla hia sialfum þier i Dijrdinni, Amen.

## 26. Capitule

Under Guds Bleßan eru aller Hluter komner.

Þad

PAd være i allann Maata verdugt, og lijka naudsynlegt, ad hvør einn christenn Madur talade optar enn skialldnar til siin sialfs og Sælar sinnar, eins edur vidlykt og David, er hann seiger: Lof seig þu, Ond miin, DRottne, og allt hvad i mier er hañs heilaga Nafne; Lofa þu DRottenn Sæla miin, og gleym ecke neinu þvi gooda, sem hann hefur giort þier, Psal. 103. Hann hefur skapad þig, miin Sæl, endurleyst og helgad, og siidann hefur hann lated siina Myskun wtfliota, so sem einn rennande Straum, yfir ockur, nija og ferska a hverium Morgne, i allskyns Lijfs og Sælar Velgiordum, so vier meigum seigia med David: Til þijn er mier varpad i fra Moodur Lijfe, Ps. 22. þvi allt hvad vier hliotum andlegt og lijkamlegt, þad þiggium vier af Gude, fyrr og siid; Þad er hanns Blessun ad þacka, enn ecki vorum Atburdum edur Utvegum; Lijka so sem vier gætum einskis ablad, þa oss var wtklaked af Moodur Lijfe i Heim þennann, so kuñum vier þad ecki helldur enn nu ad giora, utann Guds Blessan kome þar

til. Giætum ad, i hvørs Hende allér Hluter standa, kviker og dauder; Hvert i Mañaña Høndum? Pad sie længt fra, nema hvad þeir handleika Hlutena, brw-ka þa og wtdeila þeim, epter þvi sem Guds Hønd wtdeiler til þeirra, og ann-adhvert giefur þeim edur slepper vid þa. J hanns Hende er allt þad sem Jørdenn færir, Ps. 95. Vid þessa Guds Hønd, sem øllum Hlutum vid helldur, þeim rædur og stioornar, ættu og mættu þier stoduglega hallda; Hiaa heñe þier Hiai-lpar leita; Fra þenne þier Hiailpar vo-na, so sem allar Skiepnur giøra, einneñ þær skynlausu uppa sinn Mæta, so sem vier lesum i vorum Bord Psalme epter David: Allra Augu vona uppa þig DRottenn, og þu giefur þeim þeirra Fædu i hæfilegann Tijma, þu upplijkur þinne Hende, og sedur allar lifande Sk-iepnur med þinne Blessan. Enn ef vi-er lesum nu þetta daglega med Munnen-um, hvad velldur þvi þa ad vier erum so blynder i Hiartanu, ad þeinkia þad, ad vor Faung og Audlegd heppnest oss fyr-er vora Atburde og Aræde, Frañsyne og

Forstand, enn gleymum Guds Almætt-
es-rijkre Blessan, sem Salomon seiger
Ad giøre einn rijkañ án Mædu, Ords.
kv. 10. Hier af flijtur þad, ad þá vier
høfum Nægter og Vellijdan, treistum
vier vel Gude, enn sem þad er ecke fyrir
Augunum, sem Þørfenn wtkrefur, verd-
um vier rádlitler og efasamer, so Trwu-
adar-Traustedet ad mestu leite i Augun-
um þeim lijkamlegu, og nær ecke leingra
enn þau siá; Ordsøkenn hier til er sw, ad
Traustedi Velgeingnenne var ecke bigdt
einunges á Guds Forsioon og Blessan,
helldur á sialfum oss, vorum Atburd-
um, og á þeim synelegu Medølum, jafn-
framt sem á vorum og þeirra Giafara,
þar sem hann er þo sá Fader Lioosanna,
frá hvørium øll good Giøf og øll full-
komenn Giøf kiemur til vor, Jac. 1. Þvi
sæmer einum christnum Manne, sem vill
þeckia Gud fyrir sinn Fødur, og hegda
sier vid hann so sem Barn vid Fødur,
hønum sæmer eingvann veigenn ánad,
enn ad varpa uppá hann sinne Ahygg-
iu, og i hañs Otta bwa vid þau Medøl
sem hønum þocknast ad wtdeila, hvørt

þau eru meire edur minne, læra so af Postulanum Paale, ad laata sier nægia, og vera vidvanur i øllum Hlutum, sadd-ur ad vera og hwngradur, noog ad hafa og Skort ad lijda, Phil. 4. þvi so sem Gud hefur skapad Medølenn, so er þad hanns ad stiorna þeim, eñ vort ad ve-ra anægder med hanns Stioornan og Umsioon, sem leitar þess, ad allt skule þiena þeim til gods, er hañ elska, Rom. 8. og þo þu siert fatækur og ørbyrgur, þa attu ad vita og hugleida ad sa Gud siñ giørde þig af eingvu an Hiaalpar-Meda-ala i fyrstuñe (þvi allt, hvad synelegt er, er orded af eingvu, Ebr. 11.) hañ mune kunna ad forsorga þig med Medølunum, og tilfæra þier þau, þo ecki sieu þier fyr-er Augum. Og so sem þu hlijtur ad meðkieña, ad hañ hafe allt hyngad til giørt þad, so hlijtur þu ad treista hønum til þess ad giøra þad einneñ hier epter, [wilierdu ecki giøra hønum Oriett med Vantraustenn] so framarlega sem þu helldur þier vid hann i Voneñe, a Vei-geñunt hañs Rettinda, Es. 26. Varpa þvi allre þiñe Ahyggiu uppa DRotteñ,

þañ sem þeirre ørþiaudu Agar vijsade at Bruñeñ i Eydemørkuñe, heñe og heñar unga Syne til Svølunar, 1. B. Mos. 21. Sem liet Miøled i Cad ecke fortæraſt, og Vidsmiøred i Krwsenne ecki eidaſt hiaa Eckiunne i Zarepta, 1. Kong. B. 17. hann sem so danſamlega drygde þa einu Vidsmiørs Krws hia þeirre fatæku Eckiu i Tijd Elizæi, ad hun þar af betalade allar sijnar Skullder, og hafde þar ad auk sier og Sonum sijnum til Vidur-Lijfes, 2. Kong. B. 4. Stane hier nu aller auduger, sier til Lærdooms, ørbyrger sier til Huggunar, hvørsu Guds Bleſsan er danſamleg og Almættes rijk i heilla-driugre Eflingu mannlegra Efna, framar enn nockur kann til ad gieta fyrir frañ edur epterleides ad skilia, utañ forundra sig þar yfir; Hun er allre Audlegd længt ypparlegre, øllum mannlegum Atburdum Pusundsinnum kreptugre, þvi hun giører Mann rijkann an Mædu, hun giører þad ad rijkur og fatækur meiga hafa bader sijna Anægiu, eg meina þad sem Postulenn kallar Nægiu; þa hann seiger: Nær vier høfum Fæde og Klædu,

ad, so lætum oss nægia, 1. Tim. 6. þar uner hvør um̃ sig eins vel vid sitt Hlutskipte. Þessa Guds Blessan, sem einn i Dag veitest Guds Børnum almen̄elega, sem varpa uppa hann sinne Ahyggiu, hun er dijrmætare enn øll Krapta-Verk, sem i Fyrndenne giørd voru, ecke einasta af þvi hun er almennare og biargar fleirum, helldur og af þvi, ad hun leider meir Guds Dijrd oss fyrir Siooner: Kraptaverkenn votta Guds Almætte, enn Blessanenn, sem er ein Avartarsøm og nærande Medala Hialp, þar ad auke Guds Vijsdoom, af þvi hun sijner, hvørsu vijslega Gud hefur øllum Hlutum nidurradad, so einn vid helldur ødrum, einn styrker an̄an̄, til þeirrar Fram̃kvæmdar, sem Gud hefur hønum fyrir sett; So stodar Himenen̄, m; Regne og Sólar Varma, Jørdena til ad bera Avøxt, Jørdenn med sinne vermdu og deigdu Molld, Avøxtena til ad þroskast, Avøxtener þroskader fæda Mannenn, edur og Skiepnurnar, so þær aptur Mannenum nære. Þetta sijnest ad vera þad sama, sem Hoseas Spamadur vill oss fyrir

Sidoner leida, i Umbode Guds seigande under hanns Persoonu: Eg vil bænheyra Himenenn, og Himenenn skal bænheyra Jørdena og Jørdeñ skal bænheyra Korned, Vijned og Vidsmiøred, og þau skulu bænheyra Jesreel, Hos. 2. Verum þvi christner Menn, anægder med þessa hialpar-rijka Guds Blessan og þa Utdeilingu sem hønum þocknast i Tie lata. Enn þu blessade Almættes HErrann, giefdu oss þinnar Blessunar ad leita tilhlijdelega, og hana ad hliota oss hagkvæmelega i øllum Tilfellum, þangad til þu blessar oss med þeirre ævarande og eilijfu Blessan i Himnenum, Amen.

## 27. Capituli.

Hvørnenn Madur skal haga sier vid adrar Krößþiadar Manneskiur.

PAd er ypparleg Lijfs-Regla, sem vor Frelsare leggur oss fyrir, so segiande: Allt hvad þier villed Mennerner giøre ydur, þad sama skulud þier og þeim giøra. Matth. 7. og er þetta stutt Jnntak allra Guds Bodorda, sin Naungañ ahrærra,

 eins

eins og Paulus innebindur þau i þessu: Vered eingvum um neitt skyllduger utann þier elsked hver annann, Rom. 13. Enn Gud nade! hvörsu ad Heimurenn er gleymenn þessare gullvægu Reglu, þar so marger eru utlærder i þeirre Lyst ad aka Vinattunnar og Kiærleikans Seglum epter Vedrenu, og eru bestu Viner a medann vel geingur, enn þegar Sorg og Mootlæte uppa fellur, vita þeir ecke framar ad seigia af þeim mootlætta, kienna honum sialfum um sinn Mootgang, hann hafe soddann bakad sier med þvi og þvi, enn þo eckert um hann vite annad enn mannlega Bresti, sem hvern einn kann audvelldlega ad henda. Enn þu sem villt Guds Hialpar og Adstodar niooota i allre Raun, er þier kann uppa falla, lat þier ecke ur Minne og Hiarta falla adur talad HErrans Heilræde og Bodord; Bruka þad fyrer Form og Forskript, hvar epter lagest Athafnernar vid Naungann, sier i lage þa Gud leggur honum nockurn Kross uppa: Hvad sem þu villder ad þier være giort, ef þu værer i hanns Sæte, þad sama attu honum ad

giora: Og i þessu aa samfara ad vera Hi-
arta, Munnur og Hønd: Hiartad med
Medaumkaneñe, Muñurenn med Hug-
svøluneñe, Hønden̄ med Hiaalpareñar
Veitingu. Fyrst skal Hiartad laata i
tie þeim aumstadda siijna Medaumkan,
af einfalldre Elsku til hanns Velferdar
og Vellijdunar. Ef einn Limur (Lijk-
amans) lijdur, þaa lijda aller Limerner
med, seiger Postulenn, 1. Cor. 12. Þad
gietur og ecke annars vered, þvi Gud
hefur sett so naakvæma Samteinging
mille Limanna. Nu erum vier aller
christner hvør annars Limur, aa Christi
andlega Lijkama fyrir naakvæma Sam-
teingingu i Anda, hvør ed vijst maa ver-
ka þad, ad vier høfum Sampijning hver
med ødrum i Mootlætenu, og Samføgn-
ud i Medlætenu, hvers vegna Paull
sijdur: Fagned med Fagnendum og gr-
aated med Graatendum, Rom. 12. Eda
þvi skyllder þu ecke komast vid i Hiart-
anu, þa þu sier þinn Brodur, sem er Lim-
ur aa sama Lijkama og þu, sæta Hirt-
ingu af Gude, sem hønum uppaaleggur
hana, þier til Advørunar, þu sem hana

 for-

forskulldader fyrir Gude, eins, og kann skie fremur, eñ hañ. Pier mætte koma til Hugar, ad skie kyñe audvelldlega, þig bære einhvern Tijma ad sama Lande og hann, þvi eingenn veit sijna Æfe fyrr eñ oll er. J annann Maata a Munnur og Tunga ad leggia Lid þeim naudstaddda, med huggunarsømu og hagkvæmu Vidtale, þvi so hefur Gud til ætlad, ad einn Madur skyllde ødrum til Huggunar vera; Þvi seiger Postulenn: Gud hüggar oss i allre vorre Hrygd, so vier gietum huggad þa, sem eru i allskonar mødum Hrygdum, 2. Cor. 1. J þridia lage, aattu ad rietta þeim naudstadda Høndena til Hiwkrunar og Hiaalpar, so þu elsker ecke med Orde og Tungu (alleinasta) helldur med Verke og Sannleika, 1. Joh. 4. Giæt ad Dæme hiñs rijka Manns, Luc. 16. sem øllum er til Advørunar skrifad: Hañ sijnde oflitla Lyktt og Medaumkan þeim fatæka Lazaro, og var so sialfur sijdañ firrtur allre Myskun og wtkastadur i eilijfa Kvøl, þvi þad er Guds Doomur yfir þvilijkum: Þar mun myskunarlaus Domur gaanga yfir

þañ

hann sem einga Myskun hefur giørda, Jac. 2. Þar fyrer þegar sa rijke sier haunn fatæka, gledie hann hañ med Olmusunne, sa heilbrygde hann hruma, med þvi ad styrkia hann til Heilsunnar, edur a annañ Veg hann ad stoda; og giete ecki hvilijkt skied i Verke, þa utheimter Kiærleikurenn, ad sa naudstadde sie stodadur med goodswsum Til-løgum vid adra, sierdeiles med Fyrirbeidslu hia Gude; Bidied hver fyrir ødrum, seiger Postulenn, so þier heilbrigder verded, Jac. 5. Hver sem þannig vottar sinn Kiærleika þeim naudlijdande, hañ hefur miked Fyrirheit hia Gude, hvert ed nær ecke einasta til þessa Lijfs, helldur og til Daudans sijdustu Neydar, og til epterkomanda Lijfsins; Þar uñ talar David: Sæll er sa sem annast hinn þurftuga, DRottenn mun frelsa hann a þeirre vondu Tijd, DRottenn mun bijvara hann og hallda hønum vid Lijfed, og lata hønum vel ganga a Jørdunne, og yfirgiefa hann ecke i Vilia sinna Ovina: DRottenn mun endurlijfga hann a hanns Soottar-Sæng og hialpa hønum wt af

ollu

ollu hanns Kránkdæme, Ps. 41. og Frelsarenn seiger med lioosum Ordum, hversu hann mune Kiærleiks Verkum þeirra gudhræddu lijsa opeñberlega a efsta Deige, þeim til stærstu Æru og Sæmdar fyrir øllum Englum og utvølldum, talande so til þeirra: Komed þier blessader mijns Føddurs, og eignest þad Rijke sem ydur er fyrirbwed fra Upphafe Veralldar; Þvi hwngrad: var eg og þier føddud mig, þyrstur var eg, og þier svølludud mier, Giestur var eg, og þier hijstud mig, nakenn var eg, og þier klæddud mig; Siwkur var eg, og þier vitiudud mijn. Hvad þier giørdud einum af mijnum mīnstu Brædrum, þad giørdud þier mier, Matth. 25. Hann gietur þess einnenn, med hversu Oþolanlegu Reidarslage hann mune avarpa þa, sem fijndu eingann Kiærleika þeim voludu Guds, helldur lietu sier nægia, þa þeir gaatu sialfer hast gooda Daga; Til þessara seigest hann mune tala: Fared fra mier bølvader i eillijfann Elld, sem fyrirbwenn er Fiandanum og hanns Ærum, Þvi hwngradur var eg, og þier føddud mig

ecke, Þyrstur var eg, og Þier ſvoludud mier ecke, Gieſtur var eg, og Þier hiſſtud mig ecke. Hvad Þier giordud ecke einum af Þeſſum enu minnſtu, Þad giordud Þier mier ecke. Enn DRottenn vor Jeſus, ſem er ſa verulege Kiærleikur, lante ſinn Anda, ſem er Kiærleikans Ande, verma vor Hiortu med ſonnum Kiærleiks Il ſo Hiarta, Tunga og Hond verde ſamtaka hia oſs i Kiærleikans Verkum innbyrdes, ſo ad vier mættum hverier med odrum ſijdann ſamfagna i eilijfum Omeingudum Kiærleika, Amen.

## 28. Capituli.

Hvernenn vier ſkulum haga oſs vid Gud, ad Kroſſenum afſtodnum.

PAd er fogur Maals Grein, ſem DRottenn talar til vor, fyrir Davids Munn, ſeigiande: Akalla mig i Neydenne, Þa mun eg frelſa Þig, og Þu ſkallt heidra mig, Pſ. 50. og er hier Þrẽnt fram fyrir oſs lagt: Hvada Urræde vier eigum ad hafa i Neydenne, ſem er ad akalla DRottenn; Hvada Fyrirheit vier hofum, nær Þad giorum, ſem er, ad DRottenn

vill

vill hialpa og Frelse veita; Og hvada Skyllda a oss liggur, ad seingnu Frelsenu, og hun er lijka þrefolld; Sw fyrsta og fremsta er i aminũstum Ordum nafngreind, sem er, ad losa og vegsama Gud, og hönum Packer ad giora. Og ættum vier þess minnuger vera, hvenær sem Guds Godgyrne veiter oss Frelse af einhvørre Kross-Burdar Neyd; seigiande þa af Hiarta og Munne Gude Lof fyrir Krossenn, og fyrir þad hann er aflidenn; Fyrir hvørtveggia eigum vier Gud ad lofa, bæde fyrir þad hann sende oss Krossenn, til ad tipta vort Ostyrelæta Holld, og lijka fyrir þad hann liette hönum af oss, so vier skylldum ecke söckva nidur i of mikla Hrigd. Og medal aũara Guds Manna, sem so giordt hafa, setur David sialfann sig oss til Epterdæmes, seigiande: Lofa þu Drottenn, mijn Sal, og forgleym ecke þvi gooda, sem hann hefur giort þier, hann sem fyrirgiefur þier þijnar Synder, og græder þijnar Meinsemder, hann sem frelsar þitt Lijf fra Fordiörfunenne, og koronar þig med Millde og Myskuñseme, Psal. 103. og er Pack-

læted sa Skylldu-Skattur, sem sierhver Velgiørningur wtheimter; hvi er þesse Aminning oss giørd: Offra þu Drottne Lofgiørdinne, og gialld hinum hæsta þijn Heit, Ps. 50. Vier ad vijsu losum giarnann øllu føgru vorum Gude, a medann Neydenn a liggur, enn þar vill stundum verda miña af Efndenne, þegar vier erum frelsader. Þad meigum vier jata med prijsande Tungu, ad Gud giører þrælega vid oss, jafnvel betur eñ hann hefur lofad, og alldrei midur; Eñ þar a moot meigum vier med grætande Raustu og Blygdan vors Andlites medkienna, ad vier giørum giarnann midur, enn vier losum hønum. Þar eru marger tiju hreinsader a medal vor, af einne og annare Naud frelsader, enn Gud veit best, hvad marger aptur snwa til ad giefa hønum Dijrdena med þeim Samversska Utlendinge. Sannlega, eru eingvar Gætur a þvi, ad mørgum christnum fer midur enn hønum. Moses, knwdur af Guds Anda, fann verdugt ad setia til æfeñlegrar Miñingar Ohacklæte Pharaonis Skeinkiara vid Joseph, ad hañ

gleymi-

gleymde hønum, þa hann var komenn i sijna Velmagt, 1. Mos. B. 40. Eñ mun þa ecke Gud ælijta Miñingar verdt Oþacklæte þeirra, sem gleyma hønum jafnskiott og hann hefur, ecke spaꝛd þeim Frelsenu, eins og Joseph Skenkiaranum, helldur tilfært þeim Frelsed af Neydeñe. Þannig stigger sa Oþacklate siñ Gud, og þad i Strijd vid siælfann sig, þvi hañ ræner sig Guds Goodgyrndar Velgiørdum sem hann annars feinge, edur feinged hefur, epter Christi Ordum, þar hañ seiger: Hvør hann hefur (þad er, vel brwkar og þackar þad hann medtekur) hønum mun giefast so hann nøg hafe, eñ sa sem ecke hefur (vanbrwkar og vanþackar þad hañ fieck) af hønum mun og takast þad hann hefur, Matth. 13. Eñ þad maa ecke gleymast, ad bæde a Saalenn og Lijkameñ samtaka vera i Þacklætenu vid Gud; Vegsamed Gud i ydrum Lijkama, og i ydrum Anda, sem Guds eru, seiger Paull, 1. Cor. 6. Af øllu, sem vier hofum, innra og ytra, eigum vier ad frambera vort Þackar Offur fyrir Gud: Lof sie þu Ð mijn DRottne, seiger

Da-

David, og allt hvad i mier er hanns hei-
laga Nafne, Ps. 103. Aller vorer Limer
eiga ad vera, so sem samstillter Streing-
er i einu Hliodsære, til ad lofa og dijrka
Gud, so vier liænum þa, hvørn epter sijne
eigennlegre Verkan, Gude til Riettlæt-
es Her-Vopna, Rom. 6. einkum þar sin
Packlæted þarf naudsynlega framkoma
af þvi Hiarta sem hatar Syndena, og er
sann-ydrande, ef þad a Gude ad þocka-
ast, og ecke vera eins og Offur þeirra O-
gudhræddu, sem Salomon seiger ad sie
Andstigd fyrir DRottne, Ordskv. 15.
Aunnur Skyllda vor, ad afliettri Kr-
ossins Neyd, er sw, ad vier sieum liwfir
og fwsir til ad biarga ødrum naudstødd-
um Guds Børnum, og vottum þar med
vort Packlæti vid Gud; Gleymum ecki
þvi sem HErrañ sagdi vid Skullda-Pi-
oninn: Byriadi þier ecki myskunsømum
ad vera vid þinn Sam-Þion, lijka sem
eg var þier myskunsamur? Matth. 18.
Enn um þetta Efni er nockud talad i fyr-
irfarandi Capitula.
Pridia Skyllda vor er þessi; Ad vier
mvallt, eptir feingid Frelse, høfum afsid-
 ne

na Neyd oss fyrir Hugskots Augum, so sem eitt Minnis-Blad, uppa þad ad fordast Syndina, krossfesta Holldid, afneita sialfum oss, og leita Guds Rijkis, nu þvi ad þiona DRottni i Heilagleika og Meinleysi. Gack hiedann og syndga nu ei framar, so þig hendi ei annad verra, sagdi Christur vid þann, sem hann læknadi vid Dijkid Bethesda, Joh. 5. Eñ þar er Sion Sogu rijkari, hversu þessi Regla gleymist af oss, þvi eckert Mañs Auga skal sia, ad margur hver, sem Gud hefur frelsad wr einni edur annari Neyd, lifir i nockru betur eptir enn adur, utañ maaske stundum midur sie, eins og þeir sieu komnir wr Orskots Helgi allra Nauda, þa sw eina er afrokinn; Enn þad er ecki so: Sa Alvoldugi hefur nog Hrijs, þo hann eirn Vondinn nidur leggi, og er hætt vid ad sw siidari Reffinginn verdi snarpari þeirri fyrri, ef Gud er egndur til ad straffa a nij med nijum Syndum, edur Framhalldi þeirra gomlu. Og er slijkt ad raada af hanns Ordum til Israels Barna, fyrir Moisen: Ef þier vilied ecki hlijda mier, þa vil eg setia nitt And-

lit

lit i giegn ydur, og þier skulud verda blegnir af ydar Ovinum. Enn ef þier vilied þa enn ecki, ofann a þad, hlijda mier, þa vil eg giora þad siosinnum meira ad refsa ydur, fyrir ydar Synda Sakir, 3. Mos. B. 26. Bidium þvi Gud ad senda oss sijna Náad, til ad betra Lifnadinn og astunda Verk Gudræknínnar, hvar med honum verdur best þackad, enn hann er ætijd fullviss til þess ad giefa þeim øllum H. Anda, sem hann þar umm bidia af Hiarta, Luc. 11. Lofadur siertu, DRottinn Gud og himneski Fadir, fyrir alla þa Lykn sem þu audsynir oss, alla þa Hægd og Linun sem þu giørir oss a vorum Piningum og Þrautum. Upplijwk þu vorum Vorum, til ad kunngiora þitt Lof, og helga oss i allann Máta til ad dyrka, med Hiarta, Ordi og Verki þitt H. Nafn, so ad vier umm sijdir, þa øll Neyd er þrotinn, fáum i Dijrdinni ad prijsa þig, og gledia oss fyrir JEsum Christum, Amen.

## 29. Capituli.

Hvers vier høfum oß ad vænta ad Kroßinum endudum.

Gledilegt er þad Ihugunar, øllum Kroß-bierdum Guds Børnum, sem þeirra Foringi og Frelsari JEsus talar til þeirra, segiandi: Sæler eru þeir sem harma, þvi þeir skulu huggadir verda; Og litlu sijdar: Fagnid þier og verid gladir, þvi ydar Verdkaup er noglegt a Himnum, Matth. 5. So mæ eg i hanns Orda Stad segia: Sæl ertu trwada Sæl, sem lijdur margfalldt Motlæti, og lijdur þad med Þolinmædi, lijdur bidiandi og vonandi, þvi þitt Verdkaup er nog a Himnum. Eingiñ Hugarhægd er betri i Raununum, enn ad meiga hugsa uppa, og gieta hugsad uppa, gledilega Endalykt: Erfidis Manninum er þad mikill Mædu-Liettir, ad hañ a Von a Hvijldinni, þeim hungrada verdur Hungrid liettbært, þegar hann a vijsa Sadninguna; So er þeim Kroß-bierdu eingiñ Hugguntraustari, enn ad vita, trwa og uñþeinkia þa Sælu-fullu Gledi, sem honum og øllum Trwudum er fyrirheitinn og tilsøgd i Guds Ordi, og

þeim

þeim er geimd a Himnum til algiordrar Medtøku, eptir afstadnar þessa Lijfs Hørmungar, þa Gud þerrar øll Taar af þeirra Augum, Opinb. 21. og eilijf Gledi skal vera yfir þeirra Høfdum, Es. 35. Þetta kañ langt sijdur ad bregdast Guds Børnum, helldur eñ Verka Launiñ hiaa trwum Lanar-Drottni, þvi alldrei eru Mennirner so trwer, ad þeir kunni ei ad bregdast, enn Guds Trwfesti stendur eilijflega Oraskanleg, og hiaa þessari Guds Trwfesti, segir Postulinn, þad sie réttvijst, ad endurgialda þeim Hvijld sem Hørmung lijda, 2. Thess. 1. Eingann veginn, ad vier kunnum forþiena himneska Sælu med Hørmunganna Lijdingu, helldur er þetta Vegur til Sælunnar, vidlijkt og Paulus talar um vorn Frelsara JEsum, segiandi, hann hafi lijtilækkad sig allt i Krossins Dauda, og sijdann hafi Gud upphafid hann til himneskrar Vegsemdar, Phil. 2. Vel ad skilia; JEsu Pijna og Daudi var sa Vegur, um hvern hann gieck til Vegsemdarinnar, og aa hvers hann, eitt Siñ undir Heimsins Syndir geinginn, kunni ei

 til

til Vegsemdariñar ad koma; Samt forþienadi hann ecki sier Vegsemdina med Pijnunni, hann þurfti þess og ecki, þvi hann ætti hana med fullum Rietti vegna þeirrar persónulegu Einingar, sem var milli þeirrar guddomlegu og mañdomlegu Náttúrunnar. Vier forþienum ecki himneska Sælu med vorum Lijdingum; Hvørki kunnum vier þad ad giøra, þvi vier erum nærsta veikir þar til; vier ei helldur þurfum þess: JEsus vor blessadi Frelsari hefur afrekad oss hana med sinni Lijdingu, og þvi eigum vier hana, vier allir sem á hann trúum, eptir fullum Rietti hanns dijrmætu Forþienustu, vier eigum hana, so sem einn Arf, til hvers vier vorum bornir i Endurfædingunni, fyrir JEsu Christi Dauda og Upprisu. Blessadur sie Gud og Fadir DRottins vors JEsu Christi, sá oss hefur eptir sinni mikillri Myskun endurfædt til lifandi Vonar fyrir Upprisu JEsu Christi fra Daudum, til Oforgeingilegrar, Oflecckadrar, og Ouñskiptilegrar Arfleifdar, sem vardveitist ydur á Himnum, 1. Pet. 1. Alleina

Vegurinn, sem til þessarar Sælunnar liggur, er þraungur, og hliotum vier ganga hann giegnum margar Hörmungar, hvad vier ættum því Otraudari og hughraustari giora, sem vier af Guds Orda Sannleika erum vissari um það, ad sw himneska Sælann uppvegur þusundsinnum alla þá Hörmung, sem oss nockurn Tijma mæta kann hier i Heimi, því segir Paulus: Eg helld Obrygdanlega vijst, ad Motlæting þessara Tijma se ecki verd þeirrar Dijrdar, sem vid oss mun opinber verda, Rom. 8. Þar fyrir gledied ydur, þier trwudu Guds Born, sem hier meigid sitja og græta, og enn aptur seigi eg, gledied ydur, Phil. 4. því ydar Hrygd skal snwast i Fögnud, Joh. 16. Slijkann Fögnud sem ecki hefur Auga sied og ei Eyra heyrt, og ecki i nockurs Manns Þanka komid, 1. Cor. 2. Þessi Fögnudur kallast Lijfsins Korona, Opinb. 2. Riettlætisins Korona, 2. Tim. 4. Dijrdarinnar Korona, 1. Pet. 5. Því mun ecki muna vera, ed ad vier fyrir henni strijdum, uppa þetta Ortusannlega Fyrirheit: Vertu trwr til

 Daud,

Daudans, so vil eg giefa hier Koronu Lijfsins, Opinb. 2. Þar eru tveñslags Menn, sem plaga Koronu ad bera hier á Jørdu: Konungar og Sigurvegarar, sem i Strijdi edr Kapp-Leikum hafa ædra Hlut borid. Þad fyrra minnir oss á þad, ad JEsus vill øll sijn Kross-Børn styrkia til Rijkis, eins eilijfs Rijkis hiá sier og sijnum Fødur. Hræðst eigi þu litla Hiørd, segir hann siálfur, þvi þad þocknast Fødur ydar ad giefa ydur Rijkid, Luc. 17. Þar giørir hann þá sem adra Konga, og miklu sællre og dijrdlegri, enn veralldlegur Kongur vera kann hier á Jørdu. Þad sijdara minnir oss á þad, ad i eilijfre Sælu verda aller Oviner oss undir Fætur lagdir, þvi sá sijdarsti Ovinur er Daudinn, sem þá er, ásamt hinum øllum, uppsvelgdur i Sigur: Þa kann Diøfullinn ecki leingur ad ástrijda nie áklaga, ecki Daudinn ad Ogna, ecki Syndinn ad flecka, og ecki nockur Hørmung ad angra, helldur skulu aller Utvaldir med Omeingadri Gledi og andvaralausri Farsælld, hrosa Sigri yfir øllum þessum Ovinum, um eilijf

Ar

Ar, segiandi: Daude! Hvar er þiñ Broddur? Helvijti, hvar er þinn Sigur? Gudi sieu Packir, sem oss hefur Siguriñ giefid fyrir JEsum Christum, 1. Cor. 15. Siaadu nu, Saala mijn, hvilijkann Enda ockar Motlæti skal hafa yfir allann uppþeinkiannlegann Maata gledilegann; Vid þessa Hugleidingu skulum vid svala ockar Briosti þegar Neydinn þreingir ad. Pad er ei nema Veikleikinn ockar, ad vid erum eigi framar glød enn hrygg, þvi vijst høfum vid meiri Gledi enn Hryggdar Ordsøk: Miklar eru ockar Syndir, enn meira er Riettlæti ockar Frelsara, þvi hvar sem Syndinn yfirgnæfir, þar yfirgnæfir Naadinn miklu framar, Rom. 5. Margfølld er Sorginn, meiri er þo Fognudurinn ockur vijs a Himnum, þvi hun er hanns einungis vannveiginn verdug, Rom. 8. Og þat ad auk veit alldrei nær, enn vid verdum Land-føst a þvi blessada Landi lifandi Maña, komnn wr ølluSio-Volki Verølldarinnar; Pad kann ad skie fyrr enn vier ætlum, og þo þad meigi undanndragast um Stund, þa vitum vid a hvern

vier trwinn, og erum fullviss, bad han kann ad vardveita hvad ockur er geymt (a Himnum) allt til þess Dags, 2. Tim. 2. Enn þu blessadi Sigurvegarinn, JEsu Christe, unntu oss ad heya so þetta Hiervistar Strijd i þijnum Krapti, ad vier, fyrir þijna Forþienustu, faium lokfins ad bera þa Ovisnanlegu Dijrdar Koronu a Himnum, og siungia vier eilijft Lof med þijnum Utvoldum, Amen.

## 30. Capitule.

### Um Farsæld eilijfs Lijfs.

SO sem þad er sorglegt ad umþeinkia þessa Lijfs Vesælld, so er þo miklu aledilegra, ad sijnu leiti, ad ihuga eptirkomandi Lijfs Farsæld, so þessi Jhugan ei einasta mijkir hina, helldur giorir hana nær þvi ad eingvu, so Guds Bornum þyker sem oll Hormung sie þegar bætt, þa Hugskotid nær ad forlysta sig i Skodan þeirrar himnesku Fullsælu, sem Petur nefnir Ovtsegiannlegann og dijrdlegann Fognud, 1. Pist. 1. So þad er ei nock-

nockur meingadur Føgnudur, eda Sorg-blandadur eins og hier, hvar Sorg og Gledi verda samfara, þvi þar mun eing-inn Harmur nie Kveinan vera, Opinb. 21. Ei nockur hvikull Føgnudur, eins og Gras-Karid gaf Jonæ Spamanni; sem skyldi hønum fyrir Solar-Hitanum eirn Dags Tijma, eñ uppvisnadi Morg-ninum eptir, Jon. 4. helldur eilijfur Føg-nudur sem alldrei þrijtur. Ecki er þetta nockur hiegomlegur Føgnudur, helldur dijrdarsamlegur Føgnudur, og Fagnad-arrijk Dijrd, ecki sem Salomons Dijrd, til hverrar Christur þo tekur, Matth. 6. helldur slijk, sem ecki hefur Auga sied, nie Eyra heyrt; edur i nockurs Mañs Hiar-ta komid, 1. Cor 2. Allt hvad Utvøldum fyrir Augu ber, verdur þeim til Gledi, enn þo allra mest Gud sialfur; hvern þe-ir munu sia Augliti til Auglitis, 1. Cor. 13. sia hann so sem hann er, 1. Joh. 3. Enn hverninn Sion Utvalldra a Gudi verdur hattad, veit hann best sialfur. Þad er oss nóg, vier vitum og trwum af hanns heilaga Ordi, ad vier skulum sia Gud, og sia hann, so sem Ofverrandi

Brunn

Brünn allrar Fullsælu. Par munu Guds Utvaldir sia sied og grundad Guds guddomlega Eiginnlegleika, þeir munu mz stærstu Lotningu heidra Guds Riettlætt ysir þeim Fordæmdu, ann nockurs Uggs edur Angurs, med heitustu Ast prijsa hanns Myskunsemi ysir sier. Par munu þeir sia skodad Guds ypparlega Leyndardoma, sem þeir gatu hier ei gripid. Og i slijka Skodan guddomlegra Hluta munu þeir æ dijpra og dijpra nidur sockva sier til allrar Eilijfdar, enn alldrei uppausa allt Guddomsins Dypi, þo sia allir so mikid þar af, sem þeir, þa Oforgeingilegir og forklaradir, kunna moti ad taka og allskonar Sælu af ad hafa, þvi þessi Guddomsins Hatignar Skodan verdur þeim eilijfur Brunnur, sem framflleytir til þeirra allskyns Unad seinid, langt ysir allann uppþeinkiannlegann Mata, þvi Gud sialfur verdur þeim allt i ollu, allra þeirra Gyrnda Uppfylling, allra þeirra Skilningar-Vita hærsta Forlysting. Par munu þeir bædi a Salu og Lijkama lioma sm Sol i Rijki sijns Fødurs, Matth. 13. Par

niota þeir eirninū, ſier til Forlyſtingar, Englanna Samfelags, þeim þa lijkir ordnir, Matth. 22. Þar ſamfagna Utvaldir hverier ødrum innbyrdis, ſo ſem þeir munu innbyrdis þeckiaſt, eins og Lærisveinarnir þecktu Moſen og Eliam, þegar eirn Glampi himneſkrar Sælu leiptradi yfir þa a Fiallinu helga, Matth. 17. O! Hvad fatt gietur mañleg Twngatalad, mannlegt Hiarta hugſad, mannlegur Skilningur gripid af þeſſari Dijrdarinnar Sælu? Þad mæſta ſem vier kunnum hier um ad ſegia, og þad minnſta ſiñ verduglega og eiginnlega kann hier uñ talaſt, er þetta, ſem Guds Andi leggur fyrir oſs, ad þad verdur Omūrædilegur, eilijfur, Omeingadur, Omūſkiptilegur Fögnudur, 1 Pet. 1. Guds Ord lijkir þeſſu vid eitt Gieſtabod, Eſ. 25. Vid eitt Brwdkaup, Opinb. 19. Vid alls Nægtir Vijns og Brauds, Pſ. 36. Ecki ad nockur jardneſkur Hlutur kunni þar vid ad jafnaſt, helldur er Lijking tekinn af þvi ſem oſs er hier i Lijfi inndælaſt, til þeſs ad innkoma hiā vorum veika Skilningi nockri Igr-

undan hier med, og lata oss faa ad vita, ad þad er hid gledilegasta, og þar kann eckert ad vera til gledilegra. Ef þad þikir inndælt ad vera i Samkæmi godra og vitra Manna hier a Jordu, hvad þuß- undsinnum inndælla maa þa vera Sam- kvæmi þess Þrii-eina Guds, allra hans Engla og Utvaldra i hans Dijrdar Him- ni? Ef einn Dropi Guds Sætleika er so kroptugur hier i Guds Barna Hiort- um, midt i þvi sem allt stundlegt ang- rar og æreitir, ad þau gleyma allri Sorg og hyrda hverki um Himin nie Jord, Ps. 73. hvilijka lijfgandi Sælu og Owtskijr- anlega Unadsemd meiga þa af sier giefa Straumar þess lifanda Vatns, fram- fliotandi af Stoli Guds og Lambsins a Stræti þeirrar himnesku Jerusalem! Opinb. 22. Alldrei kann nockurt lijk- amlegt Sætmeti ad tilreidast so, ad ecki færi Sadninginn med sier Leida a þvi sama, en sw himneska Fullsælu Sadn- ing giefur øllum Utvøldum Oaflaatan- lega Lystingu til þeirrar sømu, og sw sa- ma Lysting hefur Oaflaatanlega Sadn- ing. O! Hvad lijfkroptugur, himnesk-

ur Segul-Steirn mætti allt þetta vera, til ad draga vor Hiørtu til heitustu Eptirlaungunar eptir Guds Rijki, til kappsomustu Alvørugiefni ad leita þess med lastvørum og gudrækilegum Lifnadi, til blijdugustu Polinmædi, ad lijda fyrir þad þær stuttu og liettu Hervistar Raunir; Og allra hellst, til hiartgroinnar og lifandi Elsku a þeim eilijfa Gudi og Fødur, sem oss hefur þetta tilreidt, a vorum astwdlega Frelsara, sem oss hefur þetta til Handa keipt med sijnu Lijfi og Bloodi, þa vier hofdum tapad þvi, a vorum blessada Helgara og Huggara, H. Anda, sem frædir oss um þetta, og giefur oss þar af nockurn Forsmeck til ad næra vorn Veikleika i þessum Daudleigleika. O! þu himneski, krossfesti og upprisni Frelsari, kienn þu oss, ad hegda oss so hier i vorum KRoss-SKola, ad þier meigi vel þocknast, styrk oss med þijnum Nadar Krapti, til ad utstanda alla þa KRoss-SKola Reynslu, sem þu villt fyrir oss leggia, og virdstu so ad Hand-leida oss giegnum allar Torfærur þessa Lijfs, ad vier med heilu og høldnu

nu natum lokfins inn ꝛ Land eilijfrar Dijrdar, Amen Lof og Dijrd, og Spekiog Packir, og Heidur, og Kraptur, og Styrkleiki, sie vorum Gudi, fra Eilijfd til Eilijfdar,

AMEN.

